# JESÚS KRISTR ER GUÐ

ÞRÁTT FYRIR MÓTMÆLI

HERRA MAGNÚSAR EIRÍKSSONAR.

---

REYKJAVÍK 1867.

ÚTGEFENDR HINIR KATÓLSKU PRESTAR

Í REYKJAVÍK.

## YFIRLIT EFNISINS.

---


Bls.

Inngangr . . . . . . . . . . . . . . 1.

I. Grein. Um fræðikerfi (system) hra M. E. . . 9.

II. Grein. Um guðdóm Jesú Krists Endrlausnara vors. 20.

1. Atriði. Eftir G. T. er J. K., eða Messías, Guð. 21.

2. Atriði. Hin 3 fyrstu guðspjöll sanna guðdóm J. K. . . . . . . . . . . . 40.

3. Atriði. Postulanna Gjörningabók og brèf hins h. Páls postula sanna guðdóm J. K. . . 79.

4. Atriði. Kristnir menn á fyrstu öldum trúðu á guðdóm J. K. . . . . . . . . . 99.

5. Atriði. Álit heiðinna manna um trú hinna Kristnu á J. K. . . . . . . . . . . 101.

III. Grein. Um Kirkjuþingið í Nicæu . . . . 104.

IV. Grein. Um guðspjall hins h. Jóhannesar . . 124.

1. Atriði Um mótbárur hra M. E. gegn 4. guðspjallinu . . . . . . . . . . . 125.

2. Atriði. H. Jóhannes er höfundr að 4. guðspjallinu . . . . . . . . . . . . 134.


---

## LEIÐRÈTTINGAR.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Bls. | $4_{23}$ | skilið | les: | heyrt |
| — | — | vel | — | oft |
| — | $8_{20}$ | h. | — | hra |
| — | $28_{5}$ | vissulegu | — | vissulega |
| — | $36_{27}$ | sameinuð | — | sameinað |
| — | $43_{14}$ | hann sjá, | — | hann, sjá |
| — | $47_{6}$ | orðið. Ljóst | — | orðið ljóst |
| — | $79_{16}$ | 2 | — | 3 |
| — | $98_{25}$ | öllum | — | öllu |
| — | $100_{20}$ | hugmyndirnir | — | hugmyndirnar |
| — | $119_{12}$ | horum | — | honum |
| — | $119_{27}$ | afiaga | — | aflaga |

# Inngangr.

Vèr höfum orðið þess varir, að margir hafa furðað sig á því, að vèr katólskir prestar hèr, ekki þegar skyldum vera búnir að svara hra kand. Magnúsi Eiríkssyni út af ritgjörðum hans um guðspjall hins h. Jóhannesar; en hèr við er athugandi, að hra M. E. ekki hefir á nokkurn hátt beinlínis ráðizt eða reynt til að ráðast á kenningu katólsku Kirkjunnar. Þrátt fyrir það þó hann sè Prótestant, hlýtr hra M. E. að viðrkenna og viðrkennir í raun rèttri, að kat. Kirkjan sè orðin til og stofnsett áðr en rit N. T. urðu til, og löngu áðr en þau urðu almenn. Ekki hefir Jesús Kristr ritað sjálfr kenningu sína, ekki hefir hann látið rita hana, og ekki hefir hann heldr ráðið til þess, að hún yrði skrásett.

Vèr sjáum af ritum N. T., að J. K. kaus sèr Postula, og skipaði þeim hátíðlega að prèdika alt það, er hann hafði kent þeim munnlega, og þannig hefir hann stofnað kenning, er átti að ganga mann frá manni, kenning með orðinu, eða erfikenning (*tradition*)[1]. En hvergi sjáum vèr, að hann hafi stofnað kenningu með riti og því síðr með riti eingöngu. Hinn h. J. Krysostómus segir: »Kristr hefir ekki fengið Postulum sínum

---

1) Vèr ætlum, að ráði heiðrsmanns, sem er mjög vel að sèr í íslenzku máli, að viðhafa orðið erfikenningu, til þess að þýða orðið „tradition“, því þetta orð gefr skiljanlegri og fullkomnari þýðingu á orðinu heldr en orðið „sögusögn“, er flestir hafa við haft hingað til.

eitt einasta rit í hendr; í stað bóka hèt hann þeim Heilögum Anda. Hann mun, sagði hann við þá, blása yðr í brjóst því, sem þèr eigið að segja«[1]. Sama segir h. Ágústínus, er hann á tal við hina trúuðu: »Vèr erum bækr yðrar«[2]. Því sjáum vèr í Guðspjallabókunum, að þá er J. K. hafði bygt Kirkju sína á Postulunum, og gefið henni Pètr fyrir hellubjarg, sagði hann við þá: »Svo sem eg er sendr, sendi eg yðr, kennið öllum þjóðum að gæta alls þess, er eg hefi boðið yðr«. Og á öðrum stað: »Verið eigi áhyggjufullir um hvað þèr eigið að tala, af því að yðr mun gefið verða hvað þèr tala eigið«. En þar eð J. K. segir til Postulanna, er að eins voru dauðlegir menn, »farið út um allan heim, kennið öllum þjóðum... eg er með yðr alla daga alt til enda veraldar«, er auðsætt, að hann merkir hèr einnig eftirrennara Postulanna, og að hann sýnir með því, að kenning þessi eigi að halda sífelt áfram.

Menn sjá, að kenslan kemr af orðinu, orðið af innblástri, en innblástrinum er heitið eftir þörfum Kirkjunnar, og aðstoð hans lofað statt og stöðugt alt til enda veraldar, og þetta er sá hinn eini stjórnarlegi vegr trúarboðsins um víða veröld, hann liggr frá tímum Postulanna til enda heimsins og hlýtr því að liggja einhversstaðar, það er að skilja, hann hlýtr að liggja hjá hinum reglulegu eftirmönnum Postulanna í Kirkjunni; þess vegna hefir J. K. sagt: »Sá sem hlýðir yðr, hlýðir mèr, og hver sem fyrirlítr yðr, fyrirlítr mig»[3], og »sá er eigi vill hlýða Kirkjunni, er eins og heið-

---

1) Homil. in Matt. I. 1. — 2) Serm. 227. — 3) Lúk. X. 16.

ingi og tollheimtumaður[1]». Og vèr sjáum, að Postularnir gjörðu jafnan eins og þeim hafði verið boðið, þeir prèdikuðu orðið, þeir kusu menn til að prèdika það bæði

---

1) Matt. XVIII, 17. hverjir eru þeir kristnir menn með heilbrigðri skynsemi, er geti neitað þessari kensluaðferð, er þeir lesa þá staði alla í Guðspjöllunum, er sýna oss, að J. K. hefir einmitt veitt Kirkju sinni vald í trúarefnum til þess að varðveita hana óskerta og koma henni í verk með Postulunum og eftirmönnum þeirra í Kirkjunni fram á vora daga. Hvað þýðir kosning 12 Postula meðal lærisveinanna? hvað þýðir kosning Pètrs meðal þeirra 12 Postula? hvað þýða þessi kröftugu orð: „þú ert Pètr (þ. e. hellusteinn), og á þessari hellu mun eg reisa Kirkju mína, og hlið helvítis skulu ekki á henni sigrast“. Hver er sá, er eigi sjái, að hèr er ákvörðuð mikil stofnun, styrk og vel niðrskipuð undir einu höfði, og henni er ætlað afarmikið ætlunarverk? Hvað gætim vèr ekki sagt um afhending lyklavaldsins? um hirðaraembættið, — „Gæt þú lamba minna, gæt þú sauða minna?“ Hvað getr nákvæmar táknað einingu og vald? Og þá að lyktum þessi miklu og hátíðlegu orð: Alt vald er mèr gefið. „Svo sem Faðir minn sendi mig, svo sendi eg yðr. Farið og kennið öllum þjóðum“ osfrv. „Eg er með yðr alla daga alt til enda veraldar“. Menn hljóta að vilja loka augum sínum til þess þeir fái eigi sèð ljós þess sannleika, að Kristr hafi með þessum og mörgum öðrum orðum viljað stofna og setja í gang öflugt kensluvald, lögmætt og óbrigðult, sem hans eigið var, sífelt og arfgengt alt til enda veraldar, sem hin yfirnáttúrlega aðstoð, er hann hefir því heitið og ætlað, til þess að geyma og útbreiða meðal manna sannleika þann, er það hafði sjálft fengið af H. Anda. En hvað verðr nú úr öllum þessum hátíðlegu loforðum, ef menn eigi vilja kannast við, að þau hafi rætzt á arfgengi Rómabyskupa og valdi kat. Kirkjunnar? Megum vèr jafnvel eigi spyrja vora fráskildu bræðr: „Hvað er orðið, hjá Mótmælöndum, af þessu valdi Pètrs? hvar er grundvöllrinn? hvar er húsið? hvar eru lyklarnir? hvar er hirðarastafrinn? hvar er kennimannleg eining og vald hjá þeim? Með hverjum er J. K. alt til enda veraldar? Er hann með Lúter? eðr með Kalvin? eðr með Zvingli? eðr með Endrskíröndum? eðr með Kvekörum? Eða með hverjum er hann?

með sèr og eftir sinn dag, og gáfu þeim til þess Heilagan Anda, þann sama Anda sannleikans, sem Kristr hafði gefið þeim, og þegar þeir skrifuðu eitthvað upp, þá var það vissulega ekki nema við einstök tækifæri[1], en alls ekki til að láta eftir sig skrásetta alla kenningu Krists. Því menn sjá af þeim ritum, er vèr höfum eftir þá, að þeir hafa ekki ritað upp annað en það, er nauðsynlegt var við það og það tækifæri[2]. Og að þessu sè þannig varið, er engum efa bundið og stendr stöðugt, hvaða hugmynd sem menn gjöra sèr um hin h. Rit N. T., hvort þau sè innblásin af Heilögum Anda, hvort þau sè eftir Postulana sjálfa, og komin til vor óbreytt. Því menn hljóta að játa, að þau að minsta kosti innihaldi áreiðanlega útlistun á hinni almennu trú og kenningu á fyrstu öldum Kristninnar, og einnig um það hvernig Kirkjan myndaðist upphaflega[3].

1) Matteus ritaði guðspjall sitt á arameisku, og sèst þar af, að hann ritaði það að eins handa þeim mönnum, er hann hafði kent fagnaðarboðskapinn, og báðu hann, áðr en hann fór burt, að láta sig fá stutt ágrip af verkum og athöfnum Drottins vors Jesú Krists. Þetta fullyrða Papias, heilagr Irenæus, Eusebius og heilagr Hieronymus. Heilagr Markús ritaði guðspjall sitt eftir beiðni Rómverja, er eigi gátu skilið heilagan Pètr svo vel sem þeir vildu. Heilagr Lúkas ritaði sitt guðspjall, til þess að fræða ástvin sinn Theophilus. Vèr ætlum síðar að minnast á heilagan Jóhannes. Þannig er háttað öllum ritum Nýjatestamentisins, því að hin ritin bera á sèr auðsjáanleg merki þess, að þau eru rituð við tækifæri. — 2) Sjá meðal annars: II. Tess. III, 14, — I. Kor. XI, 34, — Jóh. guðsp. XXI, 35. — 3) Eins og menn sjá, á h. Ritning ekki neitt í þessu, og það segir hún sjálf. Því menn verða að gæta þess, að vèr Katólskir styðjumst í öllu þessu við Ritninguna sjálfa; hún mótmælir alein hinni röngu meðferð Mótmælanda á sèr, þá er þeir vilja setja hana eina sem reglu fyrir trúnni, hún rekr ofan í þá og er því nóg að neyða þá til að lesa hana, til þess að gjöra þeim kinnroða fyrir það, að þeir einungis vilja hana sem trúarreglu.

Af þessu öllu leiðir, að þó enginn af Postulunum hefði látið eftir sig neitt skrásett, þó vèr hefðim enga af bókum N. T., þá mundim vèr samt, þrátt fyrir það, hafa eins fulla og eins vísa þekkingu á, og værim alt eins skuldbundnir að halda kenningu Frelsara vors, með því vèr fengim að þekkja hana fullkomlega fyrir erfikenningu, fyrir munnlega prèdikun, er sífelt heldr áfram í Kirkjunni og stendr stöðug í nafni og fyrir vald J. K. samkvæmt tilskipun hans og fyrirheiti; þetta er það, sem vèr sjáum að kent hefir verið á öllum öldum Kristninnar og af öllum kirkjufeðrunum[1].

---

1) Vèr leyfum oss að tilfæra hèr orð, er hafa mikla þýðingu; þau eru eftir hinn h. Írenæus, er var mjög lærðr maðr, og svo að segja sonarsonr Postulanna, þar eð hann hafði haft fyrir kennara hinn h. Polykarpus, er sjálfr var lærisveinn hins h. Jóhannesar Postula. Hann segir: „Með því nú svo ljósir vitnisburðir eru til, þarf eigi þar að auk að leita hjá öðrum þess sannleika, er hœgt er að fá hjá Kirkjunni; með því að Postularnir hafa í fylsta mæli komið fyrir í henni, svo sem auðugri hirzlu, öllu því, er til sannleiksins heyrir, svo að hver sem vill geti tekið drykk lífsins af henni, því að hún er inngangr til lífsins; en allir hinir (þ. e. allir þeir, er kenna gagnstætt kenningu Kirkjunnar) eru þjófar og ræningjar. Fyrir því ber að forðast þá; en leggja hina mestu ást á það, er Kirkjunni tilheyrir, og höndla erfikenning sannleikans. Því þótt um einhverja lítilfjörlega spurningu væri að ræða, ætti þá eigi að hverfa aftr til hinna elztu safnaða, er Postularnir höfðu samvistir við, og taka hjá þeim það sem víst og skýlaust er, að því er það málefni snertir, sem um er að ræða? En ef Postularnir hefði eigi heldr látið oss eftir Ritningarnar, ætti þá eigi að fylgja því skipulagi, er sú erfikenning býðr, er þeir kendu þeim, er þeir fengu söfnuðina í hendr? Þetta skipulag aðhyllast margar ómentaðar þjóðir, er trúa á Krist, og hafa hjálpræðið ritað í hjörtum sínum fyrir H. Anda, án pappírs og bleks, og varðveita kostgæfilega hina fornu erfikenningu; trúa á einn Guð, skapara himins og jarðar og alls þess er í þeim er, fyrir Jesúm Krist Guðs Son, sem af hinni heitustu ást til skepnu sinnar lèt

Fyrir þessum sannindum hafa katólskir menn leitt órækar sannanir, eins og vèr höfum tekið stuttlega fram í »Útskýringu« vorri[1]. En hra M. E. hefir ekki gjört svo mikið sem að vefengja þessar sannanir í neinu atriði, og vèr erum því fullkomlega samkvæmir sjálfum oss, þessari kenningu vorri og því er heilbrigð skynsemi leiðir til, þegar vèr trúum því sem kat. Kirkjan kennir oss, bæði um guðdóm J. K. vors Endrlausnara,

---

getast af meyju, og samtengdi mann og Guð í sjálfum sèr, var píndr undir Pontio Pilato, reis upp, var tekinn upp í vegsemd, og mun koma í dýrð, til þess að gera þá hólpna, er hólpnir verða, og dæma þá, er dæmdir verða, og senda þá í eilífan eld, er afmynda sannleikann, og fyrirlíta Föður hans og komu hans sjálfs. Þeir sem án rita hafa haft þessa trú, eru ómentaðir eftir því sem vèr að orði kveðum, en að hugarfari, háttalagi og hegðan eru þeir hinir vitrustu sökum trúarinnar, en þóknast Guði, með því að þeir lifa við alls konar rèttlæti, hreinlífi og speki. Og ef einhver boðar þeim það, er trúarvillumenn hafa upp fundið, og hefir við þeirra eigin orð, byrgja þeir þegar eyru sín, og flýja svo langt sem verða má, með því að þeir geta jafnvel eigi þolað að heyra guðlöstunarsamtal. Þannig leyfa þeir engu óhæfuhjali trúarvillinganna að komast inn í hugskot sitt, sökum hinnar fornu erfikenningar Postulanna". (adv. hær. L. III. c. 4.) Við þessi mikilvægu og snjöllu orð bætir h. Irenæus þessum orðum, sem eigi eru síðr merkileg: „Fyrir því byrjar að hlýða byskupum þeim, er í Kirkjunni eru, þeim sem eru eftirmenn Postulanna.... er með arfgengi byskupsdæmisins hafa öðlazt vísa ástgjöf sannleikans eftir vild Föðurins" (S.s. L. IV, c. 26).

1) Vèr biðjum þá menn, er láta sèr ant um sannleikann og leita hans með einlægni, að lesa í „Útskýringu" vorri allan 1. þáttinn. — Þar höfum vèr tilfært ágrip af þeim sönnunum, er Katólskir vanalega byggja á þessi sannindi, er vèr förum nokkrum orðum um hèr að framan. Og hèr ber að gæta þess, að enginn Prótestant eða Mótmælandi hefir nú í meir en 300 ár hrundið þessum sönnunum; því þeir skoða það sem sjálfsagt, að katólska Kirkjan hafi farið vilt í trúarefnum nú í meir en 1800 ár, og fari það enn, og þeim þykir jafnvel ekki ómaksins vert, að rannsaka þetta mál.

og um það, hverjar að sè þær bækr, er oss beri að álíta sem innblásnar af H. Anda, og þetta gjörum vèr án þess vèr látum oss leiða eitt fótmál frá sannfæringu vorri við þær mótbárur og efasemdir sem hra M. E. eða aðrir hans líkar hreyfa eða hafa hreyft gegn einstökum trúargreinum, því þeir hafa ekki hrakið sannanir vorar um aðalatriði trúar vorrar þ. e. um Kirkjuna, og ekki tilfært aftr á móti gildar ástæður fyrir máli sínu.

Það gefr mönnum vel að skilja, að oss gat, með engu móti, borið að svara hra M. E. Og að öðru leyti gátum vèr ekki annað en álitið það sjálfsagt, að Mótmælendr hèr á landi mundu taka til andsvara gegn honum, bæði af því að þeim var svo nærri höggvið og vegna þess að þeir höfðu beina skyldu til þess að halda verndarskildi fyrir trú sinni, og einkum vegna þess að þeir afneita þeirri Kirkju er J. K. hefir stofnsett, til þess að útbreiða kenningu sína og viðhalda henni óskertri, og segjast byggja, eins og hra M. E., trú sína einungis á h. Ritningu jafnframt og þeir segja guðfræðingum sínum heimilt að »dæma um og meta gildi hinna Kanónisku bóka«[1], og að »þýða þær eftir þeirra eigin geðþótta«[2]. Þessum mönnum stendr það augsýnilega næst að halda svörum uppi fyrir kenningu sína um J. K. og guðspjall hins h. Jóhannesar. En þrátt fyrir það hafa þó hingað til að eins mjög fáir íslenzkir guðfræðingar látið til sín heyra, og enginn neytt lærdóms síns og þekkingar til þess reglulega og fullkomlega að hrinda þeim ámælum og þeim rengingum, sem hèr eru komnar fram gegn hinum verulegustu

1) Sjá „Samanburð“ osfrv eftir S. M., bls. 159 og víðar. — 2) S.s. bls. 149 og víðar.

atriðum Kristilegrar trúar[1]. En hins vegar eru menn einlægt að gylla fyrir almenningi og guma af þeim ritum, er þannig ganga í berhögg við hin helgustu trúaratriði, og það einungis af því svo fáir hafa orðið til þess að sýna fram á og leiða rök að því, hvað slík rit eru í sjálfu sèr óáreiðanleg og röksemdaleiðsla þeirra fjarstæð bæði sjálfri h. Ritningu og heilbrigðri skynsemi[2]. Með þetta fyrir augum höfum vèr af brennandi áhuga á sáluhjálparefnum þeirra, er kynni að láta táldraga sig til að neita með hra M. E. svo háleitum og svo nauðsynlegum sannindum, tekið hèr til máls, með þeirri innilegu ósk, að hra M. E. sjálfr loki eigi augum sínum fyrir sannleikanum, heldr að hann með einlægni og sannleiks ást láti öll hindrvitni fara og biðji með auðmýkt Guð miskunsemdanna um sína náð til að geta komizt til sannleikans viðrkenningar. Um það biðjum vèr Guð af öllu hjarta.

Það getr ekki verið tilgangr vor í þessum bæklingi vorum að svara hverjum einstökum og öllum þeim mótbárum, er h. M. E. hefir til tínt í ritgjörðum sínum; vèr ætlum að eins að tilfæra nokkrar áreiðanlegar og órækar sannanir fyrir guðdómi Frelsara vors og Drottins J. K. Því það er auðsætt af öllum ritum hra M. E., að aðaltilgangr hans er að svifta vorn guðlega Frelsara guðdómi sínum, og það er einmitt til þess að geta náð þessum tilgangi sínum að hann neitar mörg-

1) Hra Einar Thorlacius einn hefir tilfært nokkrar sannanir á móti ritgjörðum M. E. En auðsætt er, að ef menn vildi draga úr hinum, er ritaðar hafa verið gegn M. E., öll meiðyrði og persónulegar skammir osfrv., þá gæti hann vel skrifað undir þær allar, því þær sanna ekki hið minsta á móti honum. — 2) Sjá Norðanfara 26. júlí 1866 og víðar.

um Kristilegum sannindum og vefengir á svo marga vegi guðspjall hins h. Jóhannesar. En ef menn nú einu sinni gagnsanna með gildum rökum, það sem er aðalatriðið hjá honum, þá dettr með því alt annað um koll, með því það er þá orðið stefnu- og þýðingarlaust. Vèr ætlum líka að útskýra nokkrar af þeim helztu mótbárum, er koma fyrir hjá honum bæði á móti guðdómi J. K. og hinu 4. guðspjalli, og hrinda þeim. En fyrst verðum vèr að fara nokkrum orðum um fræðikerfi (system) hans[1].

---

## 1. grein.
## UM FRÆÐIKERFI (*SYSTEM*) hra M. E.

Það er til eitt fræðikerfi, sem grefr grundvöllinn undan allri opinberaðri trú, sem hafnar með fyrirlitningu öllu því, sem hinn mikli og mildiríki Guð með hinum andlegu verkunum gæzku sinnar og óendanlegu miskunar hefir virzt að opinbera mönnunum þeim sjálfum til heilla og farsældar; þeir sem eru af þessum skóla, leitast við að grafa upp úr myrkrunum skoðanir, sem fyrir löngu voru fallnar í gleymsku[2], en sem ganga beinlínis í ber-

1) Vèr höfum einkum haft tillit til hinnar íslenzku bókar hra M. E., af því að hún er rituð á hinu sama máli, er vèr ritum sjálfir á, og að öðru leyti er hún ágrip af stóru bókinni, og ef ágripinu er svarað, þá er öllu svarað, og oss hefir virzt, að það, sem er í stóru bókinni, en ekki í íslenzku bókinni, sè enn þýðingarminna og sannanalausara en það, sem í litlu bókinni finst. Þess vegna eru hinir tilvitnuðu staðir, er vèr að eins ætlum að einkenna með blaðsíðutalinu, teknir úr hinni íslenzku bók. — 2) Menn mega ekki ímynda sèr, að varnaðarmenn hra M. E., hinir þýzku skynsemistrúarmenn, eða hann sjálfr eftir þá, hafi fundið nokkuð nýtt upp; þeir

högg við Kristindóminn, því það er hann, þó hræðilegt sè til þess að vita, sem þessir menn vilja kollvarpa og útrýma, ef þeir í vanmætti sínu gæti fengið því áorkað.

Ein afleiðing af þessu fræðikerfi, sem kemr fram hjá öllum þeim sem aðhyllast það, er sú, að þeir gjöra sem mest úr yfirburðum og afli skynseminnar, þeir taka ágæti hennar fram yfir trúna á J. K., og horfa ekki í að kasta fyrir borð hinum helgustu leyndardómum Kristindómsins einungis vegna þess að þeir skilja þá ekki, og með því þeir skoða skynsemi sína sem þá einu og rèttu trúarreglu, lýsa þeir því yfir, að hún sè sá eini leiðtogi sem menn eigi að fylgja í breytni sinni gagnvart Guði hinum alvísa og gegn meðbræðrum sínum. Þeir neita því, að Guð almáttugr geti opinberað manninum nokkurn þann hlut, sem hann eigi fái skilið, og hèr af leiðir aftr nauðsynlega (og margir eru nú komnir á þetta stig), að þeir neita því, að Guðs óendanlega alvizka nái lengra en mannsins hyggjuvit, og þannig gjöra þeir manninn Guði jafnan, eða með öðrum orðum, þeir kenna, og það gjöra mjög margir, að það sè ekki annar Guð til en maðrinn. Hvílíkt guðleysi!

Aftr eru nokkrir, sem hafa minna kjark, en sem naumast eru síðr áfellisverðir, en sjálfsagt ekki eins vel, og þessir, að sèr í hugsunarfræðinni, sem halda að vísu grundvallarreglunni, en vilja ekki aðhyllast nema einstakar afleiðingar af henni, eftir því sem þeim sjálfum líkar, og staðnæmast þannig, þrátt fyrir þá miklu mót-

---

hafa, þó þeir láti annað í veðri vaka, ekki gjört annað en tekið upp aftr eftir Celsus, Júlíus osfrv. og eftir mörgum trúarvillumönnum hinna fyrstu alda, þeirra fávíslegu mótbárur gegn Kristindóminum og bætt við þær að eins nokkrum tylliástæðum.

sögn, er í því kemr fram, á miðri leið, frá hverri sá leiðtogi, sem þeir hafa kosið sèr, leitast við að snúa þeim af öllu afli. Það er hægðarleikr að leiða rök að því, að þessar grundvallarreglur eru í raun og rèttri veru rangar, og að menn ekki geta hugsað sèr eða skapað sêr nokkuð það, sem sè fjarstæðara rèttum sanni, dirfskufyllra guðleysi, nè gagnstæðara eðli skynseminnar sjálfrar. »Því þó trúin sè æðri en skynsemin, getr þó aldrei komið upp neinn ágreiningr eða misdeild þeirra á milli, þar sem hvor þeirra fyrir sig hefir sín upptök frá þeirri einu og sömu óumbreytanlegu og eilífu sannleikans uppsprettu, Guði allsherjar. Og þær styðja þannig hvor aðra, svo að rètt skynsemi sýnir sannleika trúarinnar, verndar og styrkir hana, en hún í annan stað verndar skynsemina fyrir hvers konar villum, upplýsir hana með þekkingu hinna guðdómlegu hluta, styrkir hana og fullkomnar«[1].

En þótt skynsemin, þessi mikla gjöf Guðs, kenni oss ýms mikilvæg sannindi, t. a. m. að Guð sè til, sála vor ódauðleg, þá er hún þó að öðru leyti bundin innan þeirra takmarka, sem hún ekki getr komizt út fyrir, og án náðarinnar hèr að ofan og ein síns liðs kemst hún, sem alt af er í umbrotum og vill komast niðr í öllu, í margs konar villur, sem oft og einatt veikja og brjóta það niðr, sem skynsemin var þegar búin að kenna oss að væri hið eina rètta. Stöðug reynsla er búin að sýna það, að svið villunnar er fjarskalega mikið og skynsemin á það á hættu, þótt hún gangi út frá fullkomlega rèttum hugsunarreglum, að fara vill vegar í ályktunum sínum, alt eins og skip, sem fer úr höfn út á rúmsjó og lætr þar stýrimannslaust berast fyrir veðri

1) Epist. Enc. Pii P. IX: „qvi pluribus“, 9. nov. 1846.

og vindi; það líðr ekki á löngu, áðr en slíkt skip verðr bylgjunum að bráð, af því alla stjórn vantar; eins er því varið með mannlega skynsemi; ef hún á ekkert nema sjálfa sig við að styðjast, þá kemst hún í hafvillur á ólgusjó vísindanna, ratar í myrkviðri og efasemdir, og óvissu slær yfir hana á allar hliðar og ber hærra hlut yfir henni. Þetta er því miðr alt of oft niðrstaðan í þeim vísindagreinum, er að eins snerta mannleg efni. En hvernig fer þá, Drottinn minn, þegar skynsemin, sem þú hefir gefið manninum til þess að læra að þekkja þig, að elska þig, gjörir sig að allsherjardrottning, setr sig upp á móti þèr, vill ekki láta stjórnast af þèr, og þykist vera þèr jafnsnjöll að vísdómi (það er sorglegt!), skynsemin reisir hvorki nè byggir neitt upp, hún brýtr miklu fremr niðr, hún ræðst á alt, og niðrstaðan er, að hún niðr brýtr sjálfa sig. Hver sá, sem dirfist að ganga í berhögg við þig, almáttugi Guð, hann hlýtr að bera lægra hlut, því þinn er máttrinn, enginn er yfir þèr, enginn jafnast við þig; þèr, þèr einum tilheyrir dýrðin og sigrinn um allar aldir alda.

Hra M. E. aðhyllist vissulega og fylgir hinni ókristilegu og óvitrlegu skynsemistrú; þó ber að taka það fram, að hann á heima í flokki hinna lítilsigldu og sjálfum sèr ósamkvæmu, sem vèr mintumst á hèr að framan, sem staðnæmast á miðri leið gagnvart þeim afleiðingum og ályktunum, sem eftir rèttum hugsunarreglum hljóta að leiða af fræðikerfi þeirra. Og hèr við bætir hra M. E. þeirri ósamkvæmni, sem þó er næsta kynleg, að hann, án efa af eins konar heiðvirðri hæversku eða blygðunarsemi, hafnar nafninu skynsemistrúarmaðr. Menn verða þrátt fyrir það að álíta, að honum beri þetta sorglega nafn með fullum rètti og

hann verðr að sætta sig við það, hvort sem honum er það að skapi eða ekki[1]. Eða hvernig getr hann skorazt undan því? Gjörir hann sig ekki fyrst og fremst að alvoldugum dómara yfir hinum h. Bókum, fleygir hann ekki, eins og honum býðr við að horfa, úr h. Ritningu, ýmsum köflum og enda heilum bókum, sem öll hin kristna fornöld hefir skoðað og álitið að innihèldi hreint og skýrt Guðsorð? Fer hann ekki með þetta Guðsorð, eins og það væri hans sèrstakleg eign, snýr hann því ekki í hendi sèr í allar áttir, útlistar hann það ekki eftir sínum hugþótta, og leggr hann ekki í það þann skilning, er honum sjálfum þóknast, eða með öðrum orðum, afbakar hann það ekki algjörlega? Ber hann ekki höfundi hins 4. guðspjalls á brýn, að hann fari með »lygi«[2], kallar hann hann ekki »falspostula«[3] osfrv., augsýnilega vegna þess að hans veika skynsemi getr ekki skilið hina guðlegu leyndardóma, er hinn h. Jóhannes kennir í þessu guðspjalli? Gjörir hann ekki sína veiku skynsemi að dómara yfir öllum þeim öldum Kristninnar, er þegar eru liðnar? Dróttar hann ekki að Kirkjufundinum í Nicæa, að hann hafi farið með lygi og undirhyggju?[4]. Ber hann ekki öllum Kristnum frá dögum Postulanna (því hvað sem hann segir, hefir öll Kristnin alt frá þeim tímum trúað á guðdóm J. K.) þann vitnisburð, að þeir hafi verið þeir fábjánar, að þeir hafi ekki haft vit á að gjöra mun á rèttu og röngu? Já meira að segja, alt það, er hinn kristni heimr hefir álitið hið ágætasta, allir þeir ágætismenn, sem hafa látið

1) Þetta nafn á að öðru leyti heima hjá hverjum þeim Prótestant, sem er samkvæmr sjálfum sèr. Vèr munum fá að sjá það bezt af því sem á eftir fylgir. — 2) Bls. 8 neðanm. — 3) Bls. 25. — 4) Bls. 14. og 15.

ljós þekkingar sinnar skína fyrir heiminum, gefið honum hið fegrsta dygðadæmi með sínum ágætu mannkostum, og oft lagt lífið í sölurnar fyrir trú sína á guðdóm J. K., allir þeir menn eru í hans munni ekki annað en heimskingjar og falsarar[1]. En það er bezt að láta hann sjálfan tala, því menn kynni annars að ímynda sèr, að vèr farim með ýkjur, og hann kemst þá þannig að orðum: »Börn Kirkjunnar... voru ekki fær um að dæma andlega.... þau voru orðin svo ófullveðja.... að þau vissu ekki að greina sannleikann frá villunni,... völdu annaðhvort villuna, eða álitu hvorttveggja jafngott«. (16) — þeim sæmir eigi annað nafn en »aular eða vitfirringar« (17), »þeir (þ. e. hinir kristnu menn) svívirtu og löstuðu Guð«[2], »þeir vildu ekki viðrkenna miskunsemi Guðs«, »voru hègómlegir«, »hjarta þeirra var skilningslaust, þeir þóttust vera vísir en voru heimskingjar... líkir heiðingjum«[3]. — »Höggormrinn, djöfullinn eða hvað það var... var, eftir þeirra skoðun, máttugri en Guð«[4] o.s.frv., og alt það lætr hann sèr um munn fara einungis fyrir þá skuld, að þeir kendu þá leyndardóma sem veikri skynsemi eru ofvaxnir. — Þannig dæmir hann allan hinn kristna heim. Og hvernig vill hann endrbæta Guðs verk, hið mikla og heilaga verk Guðs, er staðið hefir í meira en 18 aldir, einungis með skynseminni? En að öðru leyti, og hvað sem hann svo segir, hefir hann alt sitt vit úr ritum hinna þýzku skynsemistrúarmanna, hann hefir að eins aukið hugsmíðar þeirra með nokkrum þýðingarlausum smámunum. Þjóðverjar eru hans guðir, hann þekkir ekki aðra,

---

1) Hann eignar þeim og eins Kirkjunni margar fjarstæðar skoðanir, sem þeir hafa aldrei haft, til þess að geta gjört þá að athlægi á eftir! — 2) Bls. 49, 53. — 3) 51. — 4) 52.

hann dæmir alt fyrir þeirra munn. »Þjóðverjar, segir hann í einskonar guðmóði, — ÞESSAR 40 MILLJÓNIR — sem hafa skrifað meira um guðfræði en allar aðrar kristnar þjóðir til samans«[1]. Þeir eru eftir hans

1) Með leyfi að spyrja, hra M. E., eru þeir (Þjóðverjar, þessar 40 milíónir) þá allir guðfræðingar, eða eru þeir allir Prótestantar? Er ekki þriðjungr þeirra, að minsta kosti, katólskrar trúar? og meðal Katólskra finnast vissulega margir framúrskarandi guðfræðingar, og vèr leyfum með engu móti, að hra M. E. telji þá með skynsemistrúarmönnum. Svona fara menn með söguna, þegar maðr kallar sig M. E. kandídat í guðfræði!!! „þeir hafa skrifað meira um guðfræði en allar aðrar kristnar þjóðir til samans"! það er eins og maðr detti ofan úr skýjunum þegar maðr heyrir slíkt hjal . . . maðr skyldi halda, að þetta væri draumórar . . . En þau 3—400 stórbindi, er hinir h. Kirkjufeðr hafa látið eftir sig, eru þau ef til vill ekki guðfræðislegs efnis? svo og rit hins h. Bonaventúru, h. Thómásar o. s. frv.! Og hafa ef til vill ekki á þeim 3 seinustu öldum í Italíu, í Frakklandi, á Spáni, á Englandi o s. frv. verið margir ágætismenn katólskrar trúar, er hafa ritað um guðfræði? Hafa þeir ekki verið miklu fleiri, ritað meira og miklu betr en hinir þýzku Prótestantar og skynsemistrúarmenn hafa ritað? En hra M. E. þekkir ekki til þessara manna (og það er hann þó, sem segir, að aðrir sè blindir . . . í trúarefnum o. s. frv.!) Nei, hann þekkir ekki neitt annað en hina þýzku skynsemistrúarmenn; segir hann ekki, þegar ákafi kemr aftr í hann, um þessa guði sína: „það væri nokkuð skrítið, að hvorki De Wette o. s. frv. eða neinn af hinum lærðu guðfræðingum í seinni tíð . . . skyldi hafa nefnt Ignatíus og Klemens . . .?" það er í augum uppi, að hann viðrkennir ekki aðra sem lærða guðfræðinga, en hina þýzku; aumingjamaðrinn! En þetta er ekki skrítið, því þessir hans lærifeðr fara eins að og hann, þeir guma að því, er þeir ímynda sèr styðji þeirra málstað, en hafa gát á því að þegja um það, er geti áfelt þá; og þar eð hann hefir ekki lesið nema hina þýzku, þá er engi von að hann þekki hina; lesi hann rit Katólskra, og þá mun hann komast að raun um, að það eru til guðfræðingar, og það þeir sem vel eru að sèr, er vitna til hinna h. Ignatíus og Klemens; og þeir sanna, að skoðun þessara helgu manna á guðspjöllunum er miklu rèttari en skoðun hinna

skoðun hinir einu guðfræðingar, er til eru í veröldinni, eða hafa verið til. Eg vil biðja hra M. E. um að vera dálítið einlægari og að viðrkenna, að hann sjálfr hafi ekki fundið upp allar þær guðleysur, sem hèr liggja fyrir eftir hann. Hans aðalguðleysu þ. e. hans neitun á guðdómi J. K. hefir hann tekið upp eftir þeim Baur Schwegler o. s. frv. og hún var orðin til á undan honum, og hann er því ekki höfundr hennar; samhljóða Bretschneider, Baur o. s. frv. neitar hann ritvissu Jóhannesar guðspjalls; og hans afbökun á sögunni um það, er hann kallar Kristindóm, hefir hann tekið úr ritum þeirra Baurs og fleiri, og svona er því háttað með hvað eina af þeim atriðum, er hann vefengir, öll hafa verið rengd og vefengd af hinum þýzku skynsemistrúarmönnum á undan honum.

Og hvað annað hefir hann að styðjast við en sína veiku skynsemi til þess að kveða upp dóm yfir allri Kristninni og hinum h. Ritum? Það er ekki til neins fyrir hann að bera það fyrir[1], að hann hafi upp götvað alt það, er hann fer með, eins og »af tilviljun» og í »einskonar andlegri leiðslu»; enginn heilvita maðr verðr við það nokkru nær en áðr. Hver heimskinginn getr ímyndað sèr, að það sem hann segir og gjörir, hafi alt komið honum í hug af tilviljun eða einhverri andlegri leiðslu. Það er alt of mikið til af slíkri tilviljun og þess konar andlegri leiðslu í heiminum og einkum meðal Prótestanta, til þess að það geti komið til greina í vísindalegu tilliti eða í trú-

---

þýzku guðfræðinga, að M. E. meðtöldum — þegar sá maðr, er fer að rita í guðfræði, kemr með slíkar vitleysur og þessar, er vèr nú tölaðum um, þá er hann sjálfdæmdr.

1) Bls. 2.

arefnum, því að er auðsætt í þessu tilfelli, að sú *til-viljun og sú andlega leiðsla*, er hra M. E. vitnar til, er komin frá hinum þýzku skynsemistrúarmönnum. Ætli hra M. E. þori að segja, að hann dæmi ekki sjálfr, en að hann »láti ritninguna dæma sig sjálfa»[1], það er margt viðlíka fjarstætt, sem hra M. E. að öðru leyti ekki hefir sjálfum fyrst til hugar komið. Því það er það, sem Mótmælendr allir þykjast gjöra; þeir hafa tvo ritningarstaði, er sýnast að innihalda gagnstæðar kenningar, þeir setja þá hvorn andspænis öðrum og segja: það er auðsætt, að þessi er rèttr, en hinn rangr, og þeir kalla þetta »að láta ritninguna dæma sig sjálfa». Getr þetta átt sèr nokkurn stað? Ritningarstaðirnir segja alls ekkert! Það er Lúter, það er Kalvín, það er Baur, það er M. E. og hvað þeir allir heita sem dæma, en alls ekki ritningarstaðirnir. Tökum oss eitt dæmi: Þèr hafið tvo peninga, annan úr skíru gulli, hinn úr kopar; setjið þá hvorn andspænis öðrum, ætlið þèr þá í alvöru, að þeir muni fara að dæma hvor annan; að þessi muni kalla til hins segjandi: þú ert úr skíru gulli, og hinn aftr, að þessi sè úr kopar? Alls ekki! því fer fjarri, þèr eruð það sjálfir, sem við hafið þá þekkingu er þèr hafið um eiginlegleika koparsins og gullsins, og þar með úrskurðið, að annar peningrinn sè úr gulli og hinn úr kopar, en ef þèr ekki hefðið neina hugmynd um eiginlegleika kopars eða gulls, þá vildi eg skora á yðr, að bera peningana saman, og að því búnu, að skera úr því, hvor þeirra sè úr gulli og hvor úr kopar! Alt eins er því háttað með ritningarstaðina; Mótmælendr fullyrða, að þeir dæmi þá ekki, heldr segja þeir, að þeir láti þá dæma sín á milli, en þetta er fjarstætt öllum sanni.

1) Bls. 47 neðanm.

Þeir hafa skapað sèr nákvæma eða ónákvæma hugmynd um lærdóminn í h. Ritningu; tveir ritningarstaðir virðast þeim hvor öðrum gagnstæðir, þeir aðhyllast annan eins og Guðs orð, af því þeim virðist, að þessi staðr hafi þá eiginlegleika og einkenni, sem þeir ímynda sèr, með rèttu eða röngu, að Guðs orð hafi, en hinum ritningarstaðnum kasta þeir, af því hann skorti þessi einkenni. En þeir þykjast hafa látið ritningarstaðina dæma hvorn annan, en í raun rèttri er það skynsemi þeirra, er hefir lagt dóminn á; þeir láta drjúgt yfir því, hvað þeir sè hlutdráttarlausir, þeir villa sjónir þeirra, er ekki hafa vit á, eða ekki kæra sig um annað en hljómfögr og glæsileg orð, og ekki fara til botns í neinum hlut sjálfir, og með þessu er sagt það sem þarf!

Hra M. E. þarf ekki lengr að fara fögrum orðum um það, að hann hafi einskonar gneista af andlegri leiðslu, því vèr vitum, hvað það vill segja, og hvað vèr eigum að halda um þess konar andlega leiðslu. Hefir ekki hver einn Prótestant fyrir sig slíka andlega leiðslu eins og aðrir villutrúarmenn á fyrri öldum höfðu allir sína? Þó menn reki þá í vörðurnar, svo þeir ekki geti neinu svarað, þá skal enginn þó búast við því, að þeir láti undan, nei, það er öðru nær! Þeir kenna þá H. Anda um villur sínar; en hver þeirra hefir sinn Anda fyrir sig, er þýðir fyrir honum Ritninguna samkvæmt þeim skilningi, er hann vill leggja í Guðs orð. Lúter hafði sinn Anda, Kalvín sinn, og sömuleiðis Zvingli, og allir hinir mörgu prótestantisku trúarbragðaflokkar, er í lærdómum sínum og kenningu eru hver öðrum gagnstæðir; þannig hafði Lúter (og hans fylgismenn) sinn Anda, er kendi honum, að menn í h.

kvöldmáltíð, meðtaki sannarlega þann líkama, er hèkk á krossinum, o. s. frv.; en hra byskup P. Pètrsson hefir líka sinn Anda, og hann kennir honum, að menn í þessu h. sakramenti verði ekki hluttakandi í þeim líkama, sem hèkk á krossinum«[1]. Menn vita, að Lúterstrúarmenn hafa og sinn Anda, er fræðir þá um guðdóm J. K. Geta menn ætlað, að hra M. E. hafi í þessu efni verið afskiftr? Nei, einnig hann hefir sinn Anda, er segir honum, að J. K. sè ekki Guð; heyrum hann kallanda: »Það sem andlegt er, verðr andlega að dæmast«[2].

Þetta verðr hra M. E. nauðugr viljugr að játa, hann hefir með engu móti sannað (sem hann ætti þó fyrst og fremst að gjöra), að hann hafi sanna andlega leiðslu, fremr en Lúterskir, Kalvínistar, Kvekarar osfrv. o. s. frv.; hann hefir því ekkert fram yfir þá, og það er ekkert annað en hans skynsemi, sem er hans andlega leiðsla. Og vèr verðum reyndar að játa, að hann sjálfr kannast við þetta hreinskilnislega; þannig segir hann á bls. 45 í neðanmgr. »Hver maðr með nokkurn veginn heilbrigðri skynsemi ætti að geta skilið og fallizt á fyrirgefningarlærdóminn« (hinn nýja, sem hann kennir mönnum), og eins setr hann skynsemina sem dómara í trúarefnum, s. s. og bls. 47, 61, 94, og víðar.

Látum oss í fáum orðum taka fram aftr það er vèr höfum sagt: Fræðikerfi skynsemistrúarmanna er sorglegt, óskynsamlegt og á sandi bygt, og þó er það þetta fræðikerfi, er hra M. E. fylgir, því 1. gjörir hann skynsemina að æðsta dómara yfir öllum hinum kristna heimi,

1) Sjá Prèdik. eftir D. P. Pètrsson 1. útg. 1856, bls. 250 og „Lærdómsbók" útg. 1856. — 2) Bls. 13 og víðar.

alt frá dögum Postulanna og til nálægs tíma, 2. fylgir hann yfir höfuð að tala hinum þýzku skynsemistrúarmönnum, og 3. er það hans skynsemi sem sker úr því, hvort það, sem í h. Ritningu stendr, sè hreint Guðsorð eða ekki, og sem útþýðir h. Ritningu; það er skynsemin, sem metr og dæmir sannindi trúarinnar.

Vèr skulum nú leiða rök að því, að hra M. E. hefir rangt fyrir sèr, er hann ver fræðikerfi sitt, til þess að vefengja og hrekja hin háleitu sannindi trúarinnar. Vèr biðjum hann og lesendr vora að virða oss það til vorkunar, hafi oss orðið, eða verði oss það á, hèr eftir, að viðhafa eitthvert beiskyrði um hra M. E. Menn mega heldr ekki kippa sèr upp við það, þó vèr takim oss í munn nokkur bitryrði, þar sem hann hefir leyft sèr að viðhafa meiri frekyrði um trú allra kristinna manna og um hina helgu menn, er hafa upplýst mannkynið og tignað það, eða þótt vèr gagnvart slíkri frekju takim nokkuð djúpt í árinni. Hra M. E. og allir lesendr vorir geta verið sannfærðir um það, að vèr óskum einskis fremr, en að þeir ljúki augum sínum upp fyrir hinu sanna ljósi trúarinnar.

## 2. grein.

## UM GUÐDÓM JESÚ KRISTS ENDRLAUSNARA VORS.

Það eru nú liðnar meir en 18 aldir, síðan millíónir kristinna manna í hverskonar stètt og stöðu, voldugir jafnt og vesælir fóru að lesa, rannsaka og hugleiða líf J. K. og urðu og hafa orðið svo fullkomlega sannfærðir um guðdóm hans, að þeir hafa fyrir hans nafns sakir, lagt alt í sölurnar, þolað hvers konar þjáningar og margir látið lífið fyrir trú sína á hann. Hinn mikli grúi einsetumanna í einveru sinni og munka í klaustrunum

hafnaði öllum veraldlegum umsýslunum og gáfu sig alla við því, að komast niðr í h. Ritningu, sem enginn þó hefir fullkomlega skilið, en eins og af tilviljun og í eins konar andlegri leiðslu ásamt með hjálp hinna þýzku skynsemistrúarmanna hefir hra M. E. skilið J. K. betr en þeir allir; og því bregðr hann öllum hinum kristna heimi um vanþekkingu og heimsku, og lýsir því yfir, að allir hafi verið og sè blindir, er ætli sig að hafa lesið og lesa það í h. Ritningu, að J. K. sè Guð. Vèr ætlum nú að rannsaka, hvort það sè ekki hra M. E. sjálfr, er hèr fer villr vegar, og ætlum vèr í þessu efni einungis að halda oss til þeirra bóka h. Ritningar, er hann vitnar sjálfr til, þ. e. til G. T., til guðspjallabóka hinna h. Matteusar, Markúsar og Lúkasar, til Postulanna Gjörningabókar og til brèfa hins h. Páls. Hra M. E. vitnar sjálfr í þessar bækr gegn oss, og því hlýtr oss að vera heimilt að vitna til þeirra gegn honum.

1. Atriði. Eftir G. T. er J. K., eða Messías, Guð. Það kemr á mörgum stöðum fram hjá hra M. E., að honum þykir mikið varið í G. T.; vèr skulum nú taka fram fátt eitt af því; sem þar segir um J. K. eða hinn fyrirheitna Messías.

Þegar vorir fyrstu foreldrar voru fallnir í dauða syndarinnar og höfðu leitt synd og dauða yfir alla afkomendr sína, þá rètti hinn miskunsami og náðugi Guð manninum sína hjálparhönd og gaf honum fyrirheiti um Frelsara, er af konu fæddr, skyldi sundrmerja höggormsins höfuð og hrósa sigri yfir synd og dauða. Þar á eftir var þetta mikla og huggunarríka fyrirheiti oft ítrekað, og sèr í lagi fyrir þremr frægustu mönnum hins útvalda lýðs, nefnilega Abraham, Ísak og Jakob; og það má segja með sanni, að um þenna mikla atburð hafi, frá

því Guðs útvalda fólk varð til, verið einn og óslitinn spádómr; Patríarkarnir, löggjafarnir, höfuðprestarnir, einsetumennirnir, spámennirnir, endrtaka allir þetta fyrirheiti og taka æ betr og betr fram þær kringumstæður og þau atvik, er lúta að þessum guðdómlega atburði, ljúka allir upp einum munni, til þess að víðfrægja og vegsama dýrð Hans, er koma skyldi, Hans er þjóðirnar þráðu eftir, hins Helgasta meðal hinna heilögu, Hans, er allar þjóðir skyldu blessun af hljóta, friðar-Höfðingjans, hins Rèttláta, Hans er spratt upp af jörðinni og rigndi frá himni ofan til þess að sætta hvorttveggja með sinni meðalgöngu, Hans sem, eftir að hann hefði endrleyst mannkynið, skyldi stíga upp til Himins og koma þaðan í sinni dýrð á efsta degi til þess að dæma lifandi og dauða. Í einu orði, G. T. er fult af spádómum um Messías; hann er í allra munni og allir eru gagnteknir af honum.

Hefir hra M. E. nokkurn tíma lesið með athygli G. T.? Ef hann hefir gjört það og ef hann neitar ekki af ásetningi og af hleypidómum sèrhverri bók þess, ef hann hefir svo mikla heilbrigða skynsemi, sem hann lætr, og þá óhlutdrægni og hreinskilni, sem menn segja hann hafi til að bera, þá hlýtr hann að viðrkenna, að þó vèr ekki hefðim annað en G. T. til að sanna með guðdóm Drottins vors Frelsara, mundi það einsamalt nægja til þess. Því hvorki hann nè þeir skynsemistrúarmenn, er hann fylgir, munu nokkru sinni geta hrundið hinni miklu þýðingu þessa einstaka atburðar hjá þeirri þjóð, er, eftir Guðs boði, vonast eftir sínum Messíasi, hefir alt sitt traust á honum, og hefir ekki svo að segja tilveru sína nema fyrir hann, minnist hans og heimfærir alt til hans, í lögum sínum, í venjum sín-

um, friðþægingarfórnum, í öllum sínum tíðagjörðum, í einu orði, í öllu lífi sínu og tilveru. Sè Kristr ekki Guð, þá verðr ómögulegt að skilja nokkuð í G. T. og í lífi Gyðingalýðs. En hèr kemr þá sú spurning, er hra M. E. verðr að útskýra: hvernig stendr þá á því, ef Kristr er ekki Guð, að Guð hefir svo mörgum þúsund árum fyrirfram borið umhyggju fyrir því, að tilkoma hans yrði boðuð, og það með svo merkilegum, svo hátíðlegum og óvanalegum orðum; því ef Kristr er að eins »rèttr og slèttr maðr», ef hann er að eins »auðmjúkr Guðs þjónn» eða »trúr sendiboði Guðs» þá yrði alveg ómögulegt að skilja það, að Guði hefði þótt nauðsynlegt að láta boða þannig fyrir fram tilkomu hans, að láta vonast, eins og menn gjörðu, eftir honum; og einkum að hann hefði látið kalla hann þeim nöfnum, er ekki geta átt heima nema hjá Guði. Og satt að segja, ef menn álíta, að Kristr hafi ekki verið nema rèttr og slèttr maðr, þá hafa að vísu þeir menn verið uppi í heiminum, er líka voru auðmjúkir Guðs þjónar, trúir sendiboðar Guðs og, ef til vill, eigi síðr merkilegir en Kristr var, þegar hann er skoðaðr einungis sem maðr, t. a. m. Abraham, Ísak, Jakob, Móses, Davíð og fleiri; þeir hafa vakið öllu meiri eftirtekt á sèr en J. K. gjörði; hvers vegna lèt Guð ekki fyrirfram boða tilkomu þessara manna? hvers vegna lèt hann ekki fyrir fram ryðja þeim veg? Hvað kemr til þess, að þeir þvert á móti allir hafa boðað tilkomu J. K.? Hvers vegna hafa þeir allir vegsamað hans dýrð og mikilleika? hvernig eigum vèr að skilja það, að alt hjá þessum merkilegu mönnum, enda hinar minstu athafnir þeirra, er ekki virðast að standa á neinu í sjálfu sèr, hafa táknað, boðað og sagt fyrir til-

komu J. K. rètt eins og þessir menn hefði ekki verið uppi á jörðunni nema vegna J. K. og fyrir hann? Vèr biðjum hra M. E. að gjöra svo vel að útskýra alt þetta öðruvísi og betr en með því að játa guðdóm J. K. Því betr sem menn lesa, hugleiða, rannsaka G. T., því glöggvara sjá menn og verða sannfærðir um, að ef K. er ekki Guð, þá er alt um leið orðið óljóst, óskiljanlegt, eintóm ráðgáta, hlægilegt og ósamboðið Guðs óendanlegu hátign, sem ekkert gjörir nema af skynsömum ástæðum. En aftr á móti, þegar vèr viðrkennum, að K. sè Guð þá er alt ljóst, alt skiljanlegt, alt er þá ein keðja, alt er í hinni dásamlegustu samhljóðun, þá sjá menn í G. T. aðdáanlega fyrirætlun, furðuverk Guðs almættis, vísdóms og óendanlegu gæzku, miðandi til að búa heiminn undir, til að taka á móti hans eingetna, elskulega syni, konungi dýrðarinnar, hinum allrahelgasta, sem er Guð eins og Faðirinn er Guð.

Þeir meðal skynsemistrúarmanna, er nokkra alvöru bera í brjósti sèr, og ekki eru komnir svo langt áfram á neitunarinnar vegi, að þeir álíti G. T. sem fánýtar og hègómlegar skröksögur, hljóta að sjá í því, hvort sem þeir vilja það eða ekki, hið mesta og óskiljanlegasta undrunarverk, sem aldrei getr orðið útskýrt nè skilið nema með því móti að viðrkenna Guðdóm J. K.[1]

1) Menn verða að gæta þess, að vèr segjum ekki, að allir Gyðingar og hver og einn hafi haft ljósa og glöggva þekkingu á leyndardómi h. þrenningar; hinir upplýstustu meðal þeirra hafa án efa haft nokkra þekkingu á þessum leyndardómi; en það var ætlað J. K., að opinbera hann mönnunum. En vèr segjum, að fyrir oss kristna menn, er höfum fengið glöggva opinberun þessa h. leyndardóms, sè það auðskilið og auðsætt, að hann er þar opinberaðr og að alt G. T, sè óskiljanlegt fyrir þá menn, er ekki gjöra fyrst og fremst ráð fyrir, að J. K. sè Guð.

Eftir að vèr þannig höfum farið þessum fáu orðum um G. T. í heild sinni, skulum vèr taka fram úr því nokkra staði, sem sanna á órækan hátt guðdóm J. K.

Vèr skulum byrja með því að tilfæra nokkur orð úr spádómsbók Malakíasar, sem er hinn seinasti af spámönnunum. Gyðingar voru orðnir leiðir á því, að margt gekk að óskum fyrir óvinum þeirra, og með óþolinmæði væntu þeir eftir tilkomu hins fyrirheitna Frelsara þeirra, og möglandi kalla þeir upp og segja: »Hvar er sá Guð, er dæmir«[1] þ. e. hvar er sá Guð er á að dæma allar þjóðir, vinna sigr á óvinum þeirra. Guð svarar lýð sínum fyrir munn spámanns síns: »sjáið! eg sendi minn engil, er grèiða skal veginn fyrir mínu augliti; bráðum skal hann koma til síns musteris sá Herra (Drottinn), hvers þèr leitið, sá sáttmálans engill, hvers þèr æskið. Sjáið! hann kemr, segir Drottinn allsherjar«[2]. Sanna ekki þessi orð guðdóm J. K? Hver er sá sem Gyðingar væntu? Messías þeirra sjálfsagt; engill sáttmálans, sá Herra. Hvað kalla þeir hann? Þann Guð er dæmir. Er þetta ekki ljóst og skýrt? Þetta nægir vissulega, þar sem Messías er hèr kallaðr Guð. En höldum áfram; hver er það, sem hèr svarar Gyðingum? Það er Jehovah sjálfr, Drottinn allsherjar[2]. Og hvað talar hann til þeirra. Þessi eftirtektaverðu orð: Sjáið! eg sendi minn engil; þ. e. Messíasar fyrirrennara, »hann skal greiða veginn fyrir mínu augliti«. Menn

Vèr biðjum hra M. E. (og þá menn sem eru færir til þess) að lesa með athygli „Samtal" hins h. Justinus' við Tryphon; þar mun hann sjá, með hversu aðdáanlegu móti hann fer í gegnum alt G. T. til þess að sannfæra Tryphon um guðdóm J. K. Og hra M. E. mun sjálfr sannfærast um, að hinn h. Justinus kallar oft J. K. Guð.

1) Malak. II, 17. — 2) S. s. III, 1.

verða að gæta þess hèr, að Drottinn allsherjar segir ekki, að engillinn skuli greiða veginn fyrir augliti Messíasar, heldr segir hann »fyrir mínu augliti«, og þetta sýnir ljóslega, að Messías, sá Drottinn er Gyðingar leituðu, og Drottinn allsherjar, eru eitt og hið sama, þ. e. að Messías er hins sama eðlis og sá, er sendir sinn engil, sinn fyrirrennara, þ. e. sama eðlis sem Jehovah, sem Drottinn allsherjar. Og þar sem Jehovah, þegar er hann hefir sagt: »eg sendi minn engil fyrir mínu augliti« bætir þessu við: «bráðum skal hann koma til síns musteris, sá Herra, hvers þèr leitið, leiðir þar af, að sá Herra hvers þeir leituðu, er sá, fyrir hvers augliti engillinn er sendr til undirbúnings; en þar eð þessi engill er sendr fyrir augliti Jehovah, leiðir þar af einnig beinlínis, að sá Herra og Jehovah eru eins og hins sama eðlis. Þetta verðr og ljóst, ef menn gefa gaum að þessum orðum: »hann skal koma til síns musteris«, því musterið er álitið í allri H. Ritningu að vera sèrleg eign Ísraels Guðs, hans hlutr, hans allrahelgasta; en þar eð Jehovah segir um Messías: »hann skal koma til síns musteris«, þá er þar af auðsætt, að Messías er Ísraels Guð. Eins er og, þar sem hann er kallaðr: »sá Herra«[1]. Það þýðir: Drottinn, er dæmir lifandi og dauða, og þessi eiginlegleiki er líka tileinkaðr honum s. s. v. 2, 3, 5, og 7; og þetta vald að dæma lifandi og dauða er aldrei tileinkað öðrum í G. T. en hinum eina og sanna Guði. Vèr sjáum því hèr, að það er Jehovah, sem talar og segir sjálfr að Messías sè Guð, og

1) Í hebreskunni stendr „Adon“ með greininum, þ. e. Herra og dómari lifanda og dauðra, og er það haft í Ritningunni til þess að tákna hinn eina og sanna Guð; eins og gefr að skilja, er það Guð einn, er getr kallazt Dómari lifanda og dauðra.

þó er það ekki Jehovah, er kemr sjálfr, eða sem er Messías, og þetta sýnir ljóslega tvær persónur aðgreindar hvora frá annari í einu og sama guðlegu eðli; þetta er enn tekið ljóslega fram, þar eð Jehovah er kallaðr: Drottinn allsherjar og Messías: sá Herra þ. e. Drottinn er dæmir lifandi og dauða, þetta aðgreinir þá, að því er persónuna snertir, en sameinar þá að eðlinu til.

Vèr leiðum hjá oss, þó oss sè það sárnauðugt, að tilgreina hinar ágætu sannanir, er finnast hjá spámönnunum Zakarías og Haggæus, og það einungis af því það þyrfti alt of langar útskýringar til þess að sýna allan kraft þeirra.

Vèr komum þá til Mikeasar spámanns; hann tilbað einnig hinn komanda Frelsara. Spámaðrinn boðar Zíóns dóttur, þ. e. öllum hinum útvalda lýð, að orustan muni nú bráðum byrja, að óvinirnir undirbúi þegar vopn sín[1]. Hann lítr til Betlehems, Davíðsborgar, hann sèr, hversu lítill flokkr vopnfærra manna þar er fyrir, en hann hughreystir hana með þessum orðum. »Og þú Betlehem í Effrata hèraði, þú ert lítil meðal borganna í Júdeu, en út frá þèr skal þó ganga sá sem vera skal yfirhöfðingi Ísraelsmanna, hans uppruni er frá alda öðli, í frá dögum eilífðarinnar«[2]. Hèr ræðir vissulega um hinn fyrirheitna Messías, er fæddist sem maðr í Betlehem, en þessi Messías, er fæddist af konu í fyllingu tímans, er meiri en maðr, hann hefir æðra en náttúrlegt eðli, hann var til áðr en hann fæddist í Betlehem, því hans uppruni er frá alda öðli, í frá dögum eilífðarinnar. Hann getr því sagt með sanni: »Eg er sá sem er« hann er ætíð til, hann er í frá dögum eilífðarinnar; hann er Guð,

1) Kap. IV, 13, 14. — 2) Mik. V, 1.

því Guð einn er frá dögum eilífðarinnar. Getr nú hra M. E. heimfært þessi orð spámannsins til síns trúa Guðs þjóns? Nei, það getr hann með engu móti, því hann heldr, að þessi trúi Guðs þjónn sinn hafi »aldrei verið til áðr en hann fæddist af Maríu mey«, bls. 4. En hèr er þó vissulegu talað um Messías, um Krist, og þá er auðsætt, að þessi hans Guðs þjónn er ekki Kristr, hann er ekki hinn fyrirheitni Messías. Vèr biðjum hra M. E. að hugleiða með athygli þessa svo ljósu, svo merkilegu spádóma, og þá mun hann að líkindum komast að raun um, að hann verðr að koma fram með margar vitleysur og mótsagnir til þess að geta komizt að því, að neita guðdómi hins fyrirheitna Messíasar. En það dugar ekki að neita sólinni, þegar hún er hæst á lofti og í hádegisstað.

Heyrum nú orð Hóseasar spámanns; Guð lætr Ísraelslýð vita fyrir munn spámannsins, að hann muni refsa honum vegna synda hans, og því verðr hann þá án konungs, án höfðingja, án fórnar, án altaris ...... en sá tími mun koma að Ísraels synir skulu snúa sèr og leita Drottins síns Guðs og Davíðs síns konungs; þeir skulu flýja á náðir Drottins og til hans miskunar á hinum síðustu tímum«[1]. Hvernig stendr á því að spámaðrinn segir: »Þeir skulu leita Davíðs konungs síns« Því þá var Davíð þegar fyrir löngu dáinn? Minnumst nú þeirra eftirtektaverðu orða, er Jehovah hefir áðr talað fyrir munn þjóns síns Ezekíels: »Eg vil hjálpa minni hjörð, svo hún verði eigi framar að herfangi .... Eg vil uppvekja þeim einn einkahirði, sem skal ala þá, minn þjón Davíð, hann skal fæða þá, hann skal verða þeirra hirðir«[2]. Geta menn

1) Hós. III, 5. — Ezek. XXXIV, 22, 23.

vilzt í þessu? Er það ekki deginum ljósara? Davíð konungr þeirra, sem Ísraels synir leita, sá sami sem Jehovah kallar sinn þjón Davíð, hann er sá fyrirheitni einkahirðir, er skal koma og fæða sauði hinnar helgu þjóðar, það er Messías, er átti að fæðast af Davíðs ætt, er á að taka við arfi hans, og þess vegna er hann svo oft kallaðr Davíð, og það er einnig vegna þess að í honum eiga að uppfyllast loforð þau, er Davíð hafa gefin verið. Af þeirri sömu ástæðu er Messías kallaðr Davíð hjá Jeremías spámanni[1]. Ætlar hra M. E. að vera blindari en Gyðingar, því þeir »skulu á síðustu tímum leita Drottins síns Guðs, Davíðs síns konungs«? Ætlar hann ekki að opna augu sín, og meðan enn nú er tími til, að viðrkenna þann einkahirði, er ekki vill annað en fæða alla sauði sína á hinu grösuga haglendi hinna ríkulegu náðargjafa, er streyma frá sárum hans, eins og frá uppsprettulind, er aldrei þornar upp?

Vèr skulum eigi staðar nema við hina mjög svo merkilegu spádóma Daníels, Ezekíels, Baruks og Jeremíasar, því það þyrfti að rita heila bók, þó menn að eins vildi velja úr þeim þá staði, er ljóslega sýna og sanna, að J. K. sè Guð, en vèr megum ekki vera of margorðir.

Þó getum vèr ekki hlaupið yfir Esaías, hinn merkilega, háfleyga Esaías, yfir hann, sem menn geta með sanni kallað öllum fremr spámann Messíasar, sem hefir sagt fyrir hvað eina, jafnvel hin smálegustu atvik í Jesú lífi. Og hans orð eru ljós og sannfærandi. »Á þeim degi« segir hann, þ. e. á þeim degi, sem svo oft hefir verið sagðr fyrir, á þeim sæla degi, er menn vonast eftir með svo miklum áhuga; »á þeim sama degi mun

1) K. XXX, 9.

kvistr Drottins prýðilegr og veglegr verða, og ávöxtr jarðarinnar hár og fagr fyrir þá, er frelsaðir verða af Ísraelslýð»[1]. Skilr hra M. E. ekki þessi orð? Eru þau ekki töluð um hinn fyrirheitna Messías? Er hèr ekki sagt með berum orðum, að hann hafi tvær náttúrur; guðdómlega náttúru, því hann er kvistr Drottins, sannarlegr sonr hans, þ. e. Guð eins og hann; en hann er einnig ávöxtr jarðarinnar, þ. e. hann mun íklæðast mannlegu eðli. Heyrum orð spámannsins: »Mun hinn Alvaldi gefa yðr teikn sjálfr». En seg þú oss, blessaðr spámaðr, hvað er teikn það, er Drottinn í sinni miskunsemi mun gefa oss? »Sjá! Mey nokkur mun verða barnshafandi og son fæða». Hèr sjáum vèr þá, mikli spámaðr, þá einu og náðarfullu meyju, er sköpunarbókin talar um. Og hún mun son fæða, það er hennar einkason, er mun sundrmerja höggormsins höfuð, en hvað er hann, þessi meyjarsonr? Er hann að eins rèttr og slèttr maðr, að eins trúr Guðs þjónn? Getr þú frætt oss um það? Þessi sonr! beygið þèr knè yðar fyrir honum og tilbiðjið hann með auðmýkt, »því hann mun heita Emmanú-El«[2]; hèr sjáum vèr vorn Krist, vorn Frelsara Jesú fyrir oss. Heyrið þèr, kristnir menn, Meyjarsonrinn er líka Emmanú-El, þ. e. Guð með oss. Er það ekki öldungis hið sama eins og stendr hjá hinum h. Jóhannesi: »Orðið, (sem var Guð), varð hold og bjó með oss?« Hver getr misskilið þetta eða vilzt í þessu? En ekki er alt þar með búið, Esaías útlistar á enn ljósara hátt orð sín, svo að skynsemistrúarmenn hljóta að byrgja fyrir augu sín, ef þeir ekki eiga að geta sèð þetta ljós. Sjáið spámanninn, hann fellr á knè fyrir

1) Es. IV, 2. — 2) Es. VII, 14.

Messías, sjáið hversu hann er fullr af undrun, heyrið rödd hans, hún er háfleyg: »Eitt barn er oss fætt, segir hann, sonr er oss gefinn, á hans herðum skal höfðingjadómrinn hvíla; hann skal heita hinn Undrunarlegi, Ráðgjafi, Guð, hinn Voldugi, Faðir eilífðarinnar, friðar-Höfðingi«[1]. Er þetta ekki fullljóst? Hvað stoðar það hra M. E. að neita guðspjalli h. Jóhannesar? Esaías lifði löngu fyrir Krist, og hann talar um hann öldungis eins og h. Jóhannes talar; hann segir hann sè Emmanú-El, Guð með oss; Orðið var Guð, ... og Orðið bjó með oss! Esaías kallar J. K. Guð, Föður eilífðarinnar! Ætlar hra M. E. að vefengja Esaías?

Heyrum nú hinn konunglega spámann; hra. M. E. sýnist að þykja mikið í hann varið, og hann tekr heilar blaðsíður úr honum; hví skyldi hann þá eigi trúa honum, þegar hann vottar, að sá, er muni fæðast af hans sæði, sè ekki að eins rèttr og slèttr maðr? Spámaðrinn sèr í anda fyrirfram, að óvinir Guðs smurða mundu rísa upp á móti honum; hann kallar upp: »hví æða þjóðirnar? hví bruggar fólkið fánýtar ráðagjörðir?« því það er til einskis að þeir eru að berjast fyrir því, að hrinda Kristí úr sínu guðdóms sæti, »því hann, er í himninum býr, hlær að þeim, Drottinn gjörir að þeim gys«! »Eg hefi sjálfr, segir Jehovah, smurt minn konung yfir mitt heilaga fjall Zíon«; og þess vegna er alt forgefins; heyrið Messías sjálfan: »Eg vil kunngjöra ályktun Drottins; hann sagði við mig: þú ert minn sonr; í dag ól eg þig«[2]. Messías lýsir sjálfr hátíðlega yfir því, að hann sè sonr Guðs, ekki í óeiginlegum skilningi, eins og allir dygðugir menn eru það,

1) Es. IX, 6, og eftirf. — 2) Sálm. II; 1, 4, 6, 7.

heldr að hann sè það í orðsins eiginlega og náttúrlega skilningi; því *Guð ól hann*, þ. e. hann er sonr Guðs, getinn af eðli hans, og hann er því þess sama eðlis, sem hinn himneski Faðir, hann er Guð eins og Faðirinn er Guð. — Lesum nú hinn XLIV sálm[1]: »Eg vil flytja, segir hið h. Skáld, hljóð konunginum«, hver er þá þessi konungr? Það er konungr Dýrðarinnar, það er hinn fyrirheitni Messías. »Fríðari ertu heldr en börn mannanna« segir spámaðrinn, og heldr hann svo áfram mörgum og fögrum lofsorðum, þangað til hann, v. 6, hefr upp rödd sína, og eins og frá sèr numinn kallar til *Messíasar*«. Hásæti þitt, ó *Guð*, stendr æ og æ«. Getr hra M. E. vefengt svo ljós orð spámannsins? hvernig fer hann að ráða fram úr þessu? því það er þó ómögulegt að hugsa, að hann hafi ekki þekt þessi orð, og svo mörg önnur; en ef hann ekki þekkir þau, hvernig hefir honum þá getað dottið í hug að rita um svo háleitt efni, án þess að viðrkenna vanmátt sinn, og án þess að hafa kynt sèr efnið til hlítar, svo hann geti talað um það? Já, það er vissulega hörmulegt að sjá og heyra, að menn neita svo ljósum orðum; það er svo óskiljanlegt, að menn geta varla trúað sjálfum sèr, menn rannsaka orðin, og það sem á undan er og á eftir fer, til þess að sjá, hvort þeim skjátlist ekki, og hvort það sè eins og þeim sýnist; en hèr er það þó svo, það stendr stöðugt, að þessi þýðingarmiklu orð eru töluð um Messías, og það er alveg ómögulegt, að þau sè töluð um annan en hann, því eftir að spámaðrinn hefir ávarpað Messías með þessum orðum: »Hásæti þitt, ó Guð, stendr æ og æ«, þá bætir hann við »þíns ríkis sproti er rèttlætisins sproti; þú elskar

1) Sem er hinn XLV. í íslenzkum Biblíum.

rèttvísi, og hatar óguðlegleika, þess vegna hefir Guð, þinn Guð, *smurt* þig með fagnaðarins viðsmjöri«. Er þetta ekki nógu ljóst? sá sem hèr á undan var kallaðr *Guð*, er nú kallaðr *Guðs smurði*, það er að segja, að messías er bæði Guð og maðr, hann er Guð, eilífr Sonr hins eilífa Föður, en sem maðr er hann sonr Maríu meyjar; en hans heilaga manneðli var fult af vegsemd og náð fyrir sakir hans guðdómlegleika, eftir það að H. Andi hefir yfirskygt hina h. Meyju; og það er einmitt það, sem spámaðrinn kallar *smurningu með fagnaðarins viðsmjöri*. Hver kristinn maðr gæti útskýrt trú sína á J. K. sem *Guð* og *mann* betr en hèr er gjört? — Áðr en vèr skiljum við G. T., skulum vèr þó taka enn fram einn stað úr því, en það er hinn CIX. sálmr[1]. — Eins og hinn h. Páll, er var upp hafinn til 3. himins, heyrði leyndardómsfull orð, er opnuðu fyrir honum leyndardóma Guðdómsins, eins hefir hinn konunglegi spámaðr heyrt hina guðdómlegu rödd sjálfs Jehovah, er ávarpaði son sinn elskulegan: »*Drottinn*, þannig segir Davíð, sagði *mínum Drottni*«. Hver getr neitað því, að það sè Messías, sem Davíð hèr kallar *sinn Drottin?* En þó var Messías Sonr Davíðs, og niðji hans. Að hèr sè eigi talað um neinn jarðneskan konung, eða neinn annan Son Davíðs, en um Messías, um Krist, sýna þessi orð er á eftir koma, v. 4: »Þú ert prestr að eilífu«. Hvernig sem menn velta þessum orðum fyrir sèr, þá getr þó enginn dregið út úr þeim annan skilning, en að Davíð segi, að Messías, sem sè eða muni verða sinn sonr eftir holdinu, sè þó *hans Drottinn*, af því hann sè Ísraels Guð. Þetta verðr deginum ljósara af því, er í sálminum stendr. Hvað segir

1) Sem er hinn CX. í íslenzkum Biblíum.

Jehovah *Drottni Davíðs?* »Set þig mèr til hægri handar«. Þessi orð hafa jafnan haft í austrlenzkum málum, og hafa enn þann dag í dag hjá Aröbum, þá merkingu, að sá sem *sitr einhverjum konungi til hægri handar*, taki með honum hlutdeild í ríkisstjórninni, hafi öldungis sama vald og hann, sè alveg jafn honum, svo að, þar sem Jehovah segir við Messías: *Set þig mèr til hægri handar*, þá vill hann þar með gefa til kynna, að hann ríki með sèr og hafi öldungis hið sama vald og hann, sè honum jafn, og Guð eins og hann er Guð. Og þessi spádómr Davíðs hefir uppfylzt í manndómi Frelsara vors, þegar hann eftir hans hörðu pínu og kvalafullan dauða, eftir að hafa sigrað helvíti og dauða, reis upp úr gröfinni í allri sinni dýrð og kom fram fyrir hásæti síns himneska Föður. Þetta segir hann einnig sjálfr, þá er hann, áðr en hann stè til himins, fèkk Kirkju sinni í hendr bæði vald til að kenna og til að stjórna í hans nafni: »Mèr er gefið alt vald á himni og jörðu«[1]. Þessi orð minna oss einnig á spádóm Daníels, þá er hann sá í anda soninn hins Eilífa koma dýrðarsamlega fram fyrir sinn himneska Föður: »sá eg, að einhver kom i skýjum himins, líkr *mannsins syni;* hann kom þangað, sem hinn gamli (þ. e. Guð) var fyrir, og var leiddr fram fyrir hann, honum var *gefið vald*, heiðr og ríki, svo að honum skyldu þjóna allar þjóðir og allir lýðir, hverrar tungu sem væri; hans vald er eilíft vald, það skal aldrei undir lok líða, og hans ríki aldrei til grunna ganga«[2].

---

1) Jóh. XX, 21. — 2) Dan. VII, 13, 14. Vèr biðjum menn að lesa með athygli í G. T. einkum Spámennina yfir höfuð, og þessa Davíðs sálma: II, VIII, XV, XXI, XXIII, XLIV, LXXI, og LXXXVIII, í íslenzkum Biblíum.

Hèr verðum vèr að fara nokkrum orðum um þær mótsagnir, er hra M. E. gjörir svo mikið úr, og ímyndar sèr, eða að minsta kosti segist, finna í hinu 4. guðspjalli[1], viðvíkjandi persónu J. K., af því þar segir, að hann sè undir eins *Guð og Guðs smurði*. Þegar menn heyra hra M. E. tala eins og hann gjörir, þá mundu menn sannarlega ímynda sèr, að það kæmi fram í þessum hans vitleysum og ástæðulausu öfgum heilbrigð skynsemi og hinar rèttustu hugsunarreglur. En heyrum nú, hvernig honum fara orð: »Mundu menn ekki álíta, segir hann, þann mann aula eða vitfirring, sem segði eða kendi að .... *sjórinn yrði að vætast*, því hann væri í sjálfum sèr ekki nógu votr, og að *sólin yrði að upplýsast betr*, því hún væri í sjálfri sèr ekki nógu björt«. Að koma með þessar vitleysur, það er þá það sama í hans munni, sem að segja, að J. K. sè undir eins *Guð og Guðs smurði*. Vèr leyfum oss að spyrja hra M. E. að þessum spurningum: 1. Er það ekki satt, að Kristr, eða Messías, sè sonr Davíðs? 2. Er það og ekki satt, að Kristr eða Messías sè Drottinn Davíðs? Ef hra M. E. játar þessu, þá getr hann ekki gjört annað, en að kasta riti sínu í eldinn, því rit hans er einungis bygt á því, að hann neitar algjörlega hinni síðari spurningu. Hann mun vissulega segja, að Kristr sè sonr en ekki Drottinn Davíðs, en hann verðr þá ekki einungis að neita orðum Davíðs, er segir með berum orðum, að Messías sè sinn Drottinn[2], hann verðr þá ekki einungis að neita vitnisburði J. K., er heimfærir til sín þessi orð hins konunglega spámanns og segir, að hann sè bæði sonr og Drottinn hans[3], hann

1) Sjá hjá hra M. E. bls. 16 og 17. — 2) Sjá hèr að framan bls. 33. — 3) Matt. XXII, 42—45; Mark. XII, 35—37; Lúk. XX, 41—44.

verðr þá ekki einungis að neita því, er stendr í hinum 3 fyrstu guðspjöllum, sem taka upp hin sömu orð Davíðs og J. K., heldr verðr hann að kasta allri h. Ritningu, bæði hinu G. og hinu N. T., sem hvort um sig er grundvallað og bygt á þessum sannindum, eins og auðsætt er fyrir hvern þann mann, er les þau hindrvitnalaust, og eins og vèr höfum þegar sèð og munum sjá hèr á eftir. En ef Kristr er *undir eins Sonr og Drottinn Davíðs,* þá er auðsætt, að hann getr verið undir eins *Guð og Guðs smurði,* Guð sem Drottinn Davíðs, og Guðs smurði sem Sonr Davíðs. Og hvað vill nú hra M. E. með samlíkingum sínum? Þær eru beinlínis vitlausar, og hafa ekkert við að styðjast, og ekkert að þýða. Hann þarf alls ekki að kenna oss, að það sè vitleysa, að segja að *sjórinn sè eigi nógu votr og sólin eigi nógu björt.* Vèr vissum það áðr, sem hann læst ætla að kenna oss, að það er vitleysa að segja að það sem er *vott* sè undir eins *þurt,* að *ljósið* sè í einu bæði ljós og *myrkr.* En með leyfi að spyrja: er það sama að segja, að J. K. sè undir eins Guð og maðr, og að segja að það sem er vott sè undir eins þurt? Eða er það sama að segja, að hið guðdómlega eðli og hið mannlega eðli sameinuð í J. K. myndi eina og sömu persónu, og að segja, að ljósið sè undir eins bæði ljós og myrkr? Ef það er mótsögn og vitleysa að segja, að J. K. sè undir eins Guð og maðr, að í hans persónu sè sameinuð hið guðdómlega eðli við hið mannlega, hvað kemr þá til þess að hra M. E. hefir ekki, í staðinn fyrir að koma með þessar þýðingarlausu samlíkingar, beitt hinum rèttu grundvallarreglum hugsunarfræðinnar, og það alvarlega, og látið menn eins og þreifa á þessari mótsögn og þessari vitleysu? Hvað veldr

þessu? Hann hefir auðsjáanlega verið sannfærðr um það með sjálfum sèr, að hann væri ekki fær um það og honum hefir þótt betra að fylgja þeirri aðferð, er allir þeir hafa viðhaft, sem eru óvinir sannleikans. En þessi aðferð, sem er bæði óverðug og svívirðileg, er innifalin í því, að gjöra kenningu mótstöðumanna sinna að vitleysu, með því að afbaka hana og gjöra hana að allri annari, en hún er í raun og veru, til þess að gjöra sèr hægra fyrir að hrinda henni og gjöra hana að athlægi[1]. Því hvað gjörir hra M. E. þegar hann vill leggja oss þau orð í munn, að »Kristr, er var eilíf, guðdómleg vera .... og í veru sinni andlegr .... þyrfti að .... taka á móti andlegri smurning, til þess að vera nógu andlegr«? Hann lætr oss auðsjáanlega segja, að það hafi verið hið guðdómlega eðli J. K., sem hafi tekið á móti hinni andlegu smurningu, og það lítr út eins og hann vilji láta oss segja, að J. K. hafi að eins verið Guð, en ekki maðr. Vèr vitum ekki til þess, að nokkur af Mótmælöndum hafi leyft sèr að taka sèr þessi orð í munn, og vèr getum ekki ímyndað oss, að svo hafi verið. Og hver hefir sá katólskrar trúar maðr verið til, er nokkru sinni hafi sagt, að J. K. hafi að eins verið Guð, að það sè hið guðdómlega eðli í honum, sem hafi tekið á móti hinni andlegu smurningu; Og það er þó það, sem hra M. E. lætr oss segja! En vèr segjum og trúum, að J. K. sè bæði Guð og maðr,

---

1) Þessa aðferð viðhafa allir mótstöðumenn katólsku Kirkjunnar. Vèr erum þegar búnir að sýna í „Útskýringu“ vorri, að hra S. Melsteð hafi því nær ekki gjört annað, í bók sinni, „Samanburði“, en að afmynda og affæra kenningu kat. Kirkjunnar. Vèr höfum og sýnt í ritlingi vorum „Svari„ os. frv., að hra Eiríkr Magnússon fetar, í „Parísarbrèfi“ sínu, öldungis í sömu fótspor.

og vèr segjum ekki, að það sè hið guðdómlega eðli J. K., sem hafi tekið á móti andlegri smurningu, heldr hafi það verið hans mannlega eðli. Og vèr höfum hèr að framan útlistað, hvernig þetta á að skilja. Þannig er það auðsætt, 1. að hra M. E. styðr sig hèr við hugsunarfræðisreglur, er í eðli sínu eru aumkunarverðar, þar sem hann kemr fram með þessar samlíkingar, er með engu móti eiga við efnið. Hann sýnir 2. þá aðferð, sem er óverðug fyrir hvern heiðvirðan mann, er hann rangfærir kenningu kristinna manna. Hann hefir alls ekki leyfi til að leggja oss það í munn, að það sè hið guðdómlega eðli J. K., sem hafi tekið á móti andlegri smurningu, því vèr segjum það ekki... Ef hra M. E. vill á annað borð ráðast á og hrekja kenningu vora, þá gjöri hann það með því að taka hana eins og hún er og liggr fyrir frá vorri hálfu, en hann má ekki umsnúa henni. En með því að viðhafa slíka aðferð er hann hefir, þá sannar hann sjálfr og ber að sèr böndin, að hann hafi ekki á rèttu máli að standa, og þannig dæmir hann sig bezt sjálfan.

Vèr ætlum nú ekki að tilfæra fleiri staði úr G. T. Það er sjálfsagt, að vèr gætim tilfært miklu fleiri, er sanna guðdóm Frelsara vors. En bæði er það, að fáir staðir nægja, þegar þeir eru skýrir og ljósir, til þess að sannfæra hvern þann, er með hreinum hug hugsar um þetta mál, og svo geta hinir, er gjöra sèr far um að skýra fyrir sèr hin háleitu trúarefni, sjálfir fundið marga aðra staði í G. T., er ómótmælanlega sanna það mál, er vèr hèr höfum tekið oss hèr fyrir hendr að verja. En það sem hra M. E. snertir, getum vèr ekki, því er miðr, sèð annað, en að hann, veslingsmaðrinn, ekki sjái nema það eina, sem hann fyrir fram er búinn að ásetja

sèr að sjá. Ó hvað vèr vildim vinna til þess að geta frelsað hans ógæfusömu sál og sálir þeirra allra, er hann fylgir, sem allar eru dýru verði keyptar, keyptar með blóði vors blíða Endrlausnara og Guðs.

Vèr höfum nú sèð, að G. T. inniheldr aðdáanlega keðju af spádómum, er allir lúta að því og hljóða um það, að J. K. sè Guð. Þessi keðja hófst með Adam og hefir síðan ekki slitnað í 40 aldir. Spádómarnir urðu, eftir því sem þeir fjölguðu, æ ljósari og skýrari, og loks kom fram sannleiki þeirra í uppfyllingu þeirra. En menn eiga einkum að athuga þá undrunarverðu samhljóðun og samanhengi, sem er í þessum spádómum, því í því er einkum fólgin sú sönnun, sem ekkert verðr í móti haft og enginn getr hrundið. Vèr höfum sèð, að allir spámenn hinnar helgu þjóðar, upplýstir af H. Anda, fara um Messías þeim vegsemdar orðum, er ekki eiga heima nema hjá Guði; þeir kalla allir upp í einu hljóði, að »konunnar sæði», að »Sá sem mun koma», »stjarna Jakobs», »náttfallið er á að vökva jörðina», sè náttúrlegr og einkasonr hins Alvalda, og ef þeim auðnaðist að birtast aftr meðal vor, þá mundu þeir án efa allir verða samróma öllum trúuðum og einlægum kristnum mönnum, þeir mundu allir syngja á þeirra hörpu lof og dýrð hinum blíða Frelsara vorum og Guði, þeir mundu allir saman kalla upp og segja: »Hásæti þitt, ó Guð, stendr æ og æ; þú ert sá sem er hinn Undrunarlegi, Ráðgjafi, Guð, hinn Voldugi, Faðir eilífðarinnar, friðar-Höfðingi», er Jehovah hefir lofað heiminum fyrir munn þeirra. En hvað mundu þeir, ó Emmanú-El, ó Guð minn, segja við þá hina hvatvísu skynsemistrúarmenn, er áreita þig, ganga í berhögg við þig? þeir mundu ljúka upp einum munni með Davíð og segja: »Hann, er í himninum býr,

hlær, Drottinn gjörir ǵys að þeim» og »eins og draumr þá maðr er vaknaðr, þannig mun Drottinn, þegar hann vaknar, fyrirlíta þeirra mynd».

Lofum nú góðan Guð og Frelsara vorn J. K. fyrir það, að hann af gæzku sinni hefir upp vakið þessa miklu og heilögu spámenn, er hafa kunngert oss svo mörgum þúsund árum fyrirfram dýrð hans og guðdóm og þannig bundið fyrir munn þeirra Celsus', Julíanus', Aríus', Socianistanna, skynsemistrúarmanna og allra Magnúsa; og heyrum nú orð þeirra, er hafa sèð og heyrt til Hans, er þjóðirnar þráðu eftir, og talað við hann, því þeir gjöra einnig hið sama, sem fyrirrennari þeirra, þeir kunngjöra oss hans dýrð og hans guðdóm.

2. Atriði. *Hin 3 fyrstu guðspjöll sanna guðdóm J. K.*

Vèr biðjum lesarann að minnast þess, er vèr höfum þegar sagt í þessum ritlingi og í »Útskýringu« vorri að Kirkjan er stofnsett til þess að útbreiða kenningu hins guðdómlega Frelsara vors, og að hún ein hefir fengið þann starfa í hendr, og því stendr það stöðugt, að þó vèr ekki fyndim neitt í Guðspjöllunum til að sanna með guðdóm J. K., þá væri þó allir menn eins skyldugir fyrir því, að trúa því, að hann er Guð, því Kirkjan hefir jafnan frætt mennina um þenna sannleika[1]. En vèr skulum bráðum komast að raun um, að

1) Hra M. E. segir bls. 87: „Kirkjan hefir fylt mæli syndanna, hennar tími er kominn . . . . hún skal hrynja, hrynja svo algjörlega að þar standi ekki steinn yfir steini“. Vèr vitum ekki, hvort hra M. E. blandar hèr saman hinni katólsku Kirkju við hina svo kölluðu reformertu evangelisku Kirkju. Ef hann lèti sèr nægja, að segja fyrir fall hinnar síðarnefndu, þá mundim vèr vissulega eigi mæla á móti því; en það er hina kat. Kirkju snertir, biðjum vèr hann að stilla ofrlítið ákafa sinn, og þótt hann þykist hafa „andlega leiðslu“, og

það er ekki að eins sá eða sá staðr, sem gefr oss órœka sönnun í þessu efni, heldr er hèr öldungis eins ástatt eins og með G. T., og að það er einkum í heild þeirra, sem hin 3 fyrstu guðspjöll lýsa skýrt yfir guðdómi vors Endrlausnara, því þau eru öll frá upphafi til enda órœk sönnun upp á þenna sannleika, og það er eins og að draga nokkuð úr sönnunum þeirra, að taka að eins einstaka staði út af fyrir

þótt hann segi, að „Forsjónin hafi látið hann sjá hvað fram eigi að koma“ (s.s.), þá erum vèr alls eigi hræddir við það. Hann hlýtr að vita, að vèr höfum heyrt marga aðra þvílíka spádóma og það af hálfu þeirra manna, er einnig hafa þótzt hafa andlega leiðslu, eins og t. d. Lúter og fleiri. Vèr höfum og heyrt spádóma Voltaire-s og Júlíans trúarníðings, og svo margra annara er allir hafa spáð, að kat. Kirkjan mundi bráðum líða undir lok; en þeir eru allir undir lok liðnir, og spádómar þeirra með þeim, en kat. Kirkjan stendr enn í dag. En hra M. E. hefði átt að skilja, með því hann hlýtr, að þekkja hvernig þessum spádómum hefir reitt af, að meira þarf af hans hálfu en tómar fullyrðingar, til þess að fá menn til að trúa sèr. Vèr Katólskir höfum sýnt hvernig Kirkjan er stofnuð, og hvernig hún hefir fengið vald til að boða kenningu J. K., og það höfum vèr sannað með orðum J. K. sjálfs, og með því að skírskota til allra Kirkjufeðra, og með sönnunum, er leiddar eru af skynseminni sjálfri. Hra M. E. hefir eigi hrundið neinni þeirra, hann hefir jafnvel eigi reynt til þess og enda eigi hugsað um það, og það er þó það, sem hann fyrst og fremst hefði átt að gjöra, og því næst að sanna, að hann hafi sjálfr sanna „andlega leiðslu“ og sendingu sem spámaðr, því það er það, sem allir hinir sönnu spámenn hafa gert. þangað til hann hefir gert allt þetta, hlýtr hra M. E. að leyfa oss að halda, að hann sè ekki spámaðr fremr en Lúter og allir hinir. Hann hlýtr og að leyfa oss að trúa orðum þess, er sagði við Kirkjuna í persónu Postulanna: „Eg er með yðr alla daga, alt til enda veraldar“, því orð hra M. E. og allra hinna munu forganga eins og alt, er mannlegt er, en orð J. K. munu ekki forganga, og kat. Kirkjan mun því standa alt til enda veraldar, þrátt fyrir alla spádóma hra M. E.

sig. En þar sem vèr ekki getum að þessu sinni tekið hvert guðspjall fyrir sig og gert síðan úr þeim öllum eina heild, er gefi í fyllingu sinni þá sönnun, er vèr gætim dregið út úr henni, vonum vèr að þeir staðir, er vèr nú munum tilgreina, sè einhlítir til að sanna málstað vorn.

Hra M. E. segir: »hin (þ. e. hin 3 fyrstu) guðspjöllin vita ekki neitt um, að Kristr hafi verið til á nokkurn hátt áðr en hann fæddist af Maríu mey, eða að hann hafi verið Guði jafn« (bls. 4). Hèr sitr nú hra M. E. í *andlegri leiðslu* sinni á yfirdómstólnum, og leggr dóm á, hver sè rèttr skilningr Guðspjallanna, og kveðr upp þenna dóm, eins og hann ætti ekki að verða aftr tekinn, og á þann hátt, er hann vissulega mundi áfella kat. Kirkjuna fyrir, ef hún færi eins að, hún sem þó er stofnuð til þess að vera dómari í þessum efnum. En þessi dómr er að öllu leyti falskr og rangr og það skulum vèr þegar sanna.

Og vèr spyrjum þá fyrst og fremst: á hverju byggir hra M. E. dóm sinn? Það er, segir hann, einkum á þeim þremr stöðum, nefnilega: Mat. XIX, 17, Mark. X, 18 og XIII, 32, (bls. 3). — En vèr ætlum einmitt að vitna í tvo af þessum sömu stöðum til þess að sanna guðdóm J. K., og á hinum 3. felst í orðum J. K. ekkert það, er menn geti haft sem mótbáru gegn guðdómi hans.

Frelsarinn talar á hinum tilvitnaða stað, Mark. XIII, 32, um dómsdag, og segir: »Þann dag eðr stund veit enginn, hvorki englar á himni nè sonrinn, og enginn, nema Faðirinn«[1]. Þessi staðr sýnist í fyrsta áliti að

1) Hra M. E. hefir „nema faðirinn einn". En þetta orð einn, stendr ekki í grískunni; það stendr að vísu í fleirum íslenzkum útgáfum, og jafnvel í Oxfords útgáfunni.

vera nokkuð þungskilinn; og hra M. E. hefir auðsjáanlega hugsað sèr, að fáir mundu geta komizt fram úr honum og skilið hann; en Katólskir hafa nú þegar fyrir löngu hrundið þessari mótbáru Aríustrúarmanna, eins og hra M. E. hefði getað sèð hjá flestöllum Kirkjufeðrum, ef hann hefði gert sèr far um að kynna sèr rit þeirra, en honum er að öllum líkindum ekki um það, honum geðjast betr að hinum þýzku Prótestöntum. Menn verða, til þess að skilja þenna stað, að aðgreina tvent í J. K. Hann er maðr, mannsins sonr, og hann er Guð. 1. Sem maðr eða mannsins *sonr* er hann kennari, lærifaðir, sendiboði Guðs, og það er sem slíkan, nefnilega sem lærifööur, sem lærisveinar hans aðspyrja hann sjá, s. s. v. 1—4; þar er hann ávarpaðr af þeim sem Meistari. En sem lærifaðir, sem sendiboði Guðs, sem mannsins sonr, þekti hann að eins það sem Faðirinn, þá er hann sendi hann, hafði boðið honum að kunngjöra; og þannig er hèr svo ástatt, að mannsins sonr, er aðspurðr er sem lærifaðir, sem sendiboði Guðs, getr viðvíkjandi því er honum var ekki boðið að kunngjöra mönnunum, rèttilega og með sanni svarað, að hann þekti það ekki. 2. Verða menn hèr að taka til greina, að J. K. er Guð, af einu og sama eðli sem Faðirinn, og þá eins og hann alvitr, og sem Guð þekti hann vissulega *þann dag eðr stund.* Og það sýnir annaðhvort óhreinskilni eða vankunnáttu hjá hra M. E. (hann þykist þó vera mjög vel að sèr í hinum 3 fyrstu guðspjöllum), er hann kemr með þessa mótbáru Aríustrúarmanna, þar sem hin 3 fyrstu guðspjöll taka fram með berum orðum, að Kristr hafi sagt fyrir þann *dag og stund* og tekið fram með fylstu nákvæmni bæði stað og stund og allar þær kring-

umstæður, er skyldi ganga á undan[1]. Og því segjum vèr hra M. E. með hinum h. Ambrosíus: »hvernig geta menn sagt, að Kristr hafi ekkert vitað um dómsdag, hann sem þó tók fram stað hans, auðkenni og orsakir!«[2] En af því J. K. hèr var að eins aðspurðr sem lærifaðir, sem sendiboði Guðs, en ekki sem Guð, svarar hann skýrt og rètt segjandi: »þann dag eðr stund veit enginn«, án þess hann þyrfti hèr að bera saman eðli sitt og eðli Föðurins, en sýndi að eins það, að hann hafði ekki sem Guðs sendiboði neina skipun eða leyfi til þess að kunngjöra það, sem lærisveinar hans spurðu hann um. Þannig sannar hra M. E. ekkert með því að vitna í þann stað, því af honum geta menn með engu móti ályktað neitt um veru Sonarins og allra sízt fundið í honum nokkra mótbáru gegn guðdómi hans, heldr miklu fremr hið gagnstæða.

Það sem hina staðina snertir, nefnilega Mat. XIX, 17, Mark. X, 18. hlýtr sá maðr, er finnr í þeim nokkuð það, er geti vakið efa um guðdóm J. K. að vera orðinn mjög gagntekinn af hleypidómum og þeir að vera orðnir honum eins og að annari náttúru. Hvað ræðir um á þessum stöðum? Ungr maðr og auðigr mjög, guðhræddr, hreinskilinn og ráðvandr, kom til Jesú, fèll á knè fyrir honum, og ávarpaði hann með þessum orðum: »góði meistari, hvað á eg að gjöra, til þess að geta öðlazt eilíft líf«? Hinn blíði Frelsari fèkk, er hann sá fyrir sèr svo góðan mann, ást á honum, og svaraði honum blíðlega: »hví kallar þú mig góðan? Enginn er *góðr* nema *Guð*«. Hver getr sèð í þess-

1) Sjá fyrst þenna sama XIII. Kapít. hjá Mark. v. 14—32 og Matt. XXIV, 14—36; Lúk. XVII, 20—37 og XXI, 25—30. — 2) De fide, L. V. c. 16.

um orðum neitun um guðdóm J. K.? Frelsarinn segir hèr þvert á móti, að hann sè sannarlega Guð og orð hans eru allljós og skiljanleg, ef menn gæta þess, er á eftir kemr. Hinn ungi maðr kallar Jesú *góðan meistara,* og með því að falla á knè fyrir honum gefr hann til kynna, að hann áliti, að Jesús sè æðra eðlis; og svar það, er Jesús gefr honum, sýnir, að hann vildi upplýsa hann og leiða hann til að viðrkenna sig fullkomlega fyrir það sem hann er. Þú kallar mig *góðan,* segir hann, en ef eg er eigi nema þinn meistari, þá get eg ekki tekið á móti þessu heiðrsávarpi; þú hefir að vísu satt að mæla, er þú kallar mig *góðan,* en athuga þú þá vel, hvað það þýðir, að vera *góðr,* og gættu þess, að það er ekki nema *einn,* sem er *góðr,* það er Guð, en ef þú vilt viðrkenna mig skýrt og fullkomlega, kalla þú mig þá *góðan* í þeirri einu merkingu, er Guð er *góðr* í, þ. e. viðrkendu mig sem þinn Guð, er alt gott kemr frá; þú kallar mig *góðan,* fylgdu þá því, er liggr í þessum orðum þínum, og þá muntu þekkja mig fullkomlega, og þá hefir þú fundið sannleika þann er þú leitar eftir[1]. Að þessi útþýðing á hinum nefndu Ritn-

---

1) Hvernig vill hra M. E. annars koma mönnum til að trúa, að J. Kr. hafi eigi viljað láta kalla sig g ó ð a n. Höfum vèr eigi sèð, að Kristr, Messías er í G. T. kallaðr „Drottinn, er dæmir lifandi og dauða“, „Emmanú-El“, „Guð“, „hinn Voldugi“, „hinn „Rèttláti“ (Esa. XLV, 8 og víðar í G. T.). Og eru honum eigi eignaðir hinir sömu eiginlegleikar í N. T.? H. Pètr kallar hann „hinn Rèttláta og hinn Helga“ (Post. Gjörn. III, 14, og svo víðar í N. T.). Það er því Heilagr Andi, það er Guð sjálfr, er gefr honum öll þessi nöfn, er eigi verða eignuð öðrum en Guði einum. Og mundi hra M. E. vilja koma mönnum til að trúa, að J. K. hafi hèr eigi viljað láta kalla sig g ó ð a n — (þó er hann hèr eigi kallaðr h i n n g ó ð i, eins og hann er annars staðar kallaðr h i n n Rètt-

ingarstöðum sè sú eina rètta, er auðsætt af því, er á eftir kemr, v. 21: »Sel þú alt, hvað þú hefir, ...... og fylg þú mèr eftir; »og v. 29 segir Kristr Postulunum enn fremr, að sá, er yfirgefi alt fyrir *sína skuld,* muni öðlast eilíft líf; menn mega eigi gleyma því, að hinn ungi maðr hafði spurt Jesú um, hvað hann ætti að gjöra, til þess að öðlast eilíft líf; og svarið til hans er öldungis það sama, sem til Postulanna: *yfirgef þú alt, fylgdu mèr eftir.* En ef J. K. var að eins *rèttr og slèttr maðr,* ef hann var ekki Guð, hvernig gat hann þá heitið þeim eilífu lífi, er yfirgæfi alt fyrir hans skuld og fylgdi honum eftir. Geta menn ímyndað sèr, að hra M. E. geti kallað þann mann, er leyfði sèr að taka sèr þessi orð í munn: *sannauðmjúkan Guðs þjón, fyrirmynd allra sannra Guðs barna o. s. frv.?* [1]Það gegnir sannarlega furðu, hvernig þeir menn lesa h. Ritningu, er setja sig upp á móti Kristindóminum, og það væri alveg óskiljanlegt, ef menn ekki vissi jafnframt, að þeir svífast einskis, til þess að geta ráðizt á vorn tilheiðlsu-

láti, hinn Helgi, o. s. frv., heldr einungis góðr), og mundi hra M. E. látast ætla að leiða þar af sönnun móti guðdómi J. K.! En þetta er víst ekki alvara! Annaðhvort veit ekki hra M. E., hvað hann er að segja, eða hann ætlar að gabba lesendr sína.

1) Bls. 3. Vèr leyfum oss hèr að gjöra eina athugasemd: Vèr getum ekki gert oss í hugarlund, að þó hra M. E. þykist hafa köllun til að leiðrètta og hreinsa Kirkjuna, þó hann þykist vera í „andlegri leiðslu, og spámaðr“, og vera kallaðr til að leiða alt mannkynið, er hingað til hafi farið vilt vegar, til sannleikans viðrkenningar, og að vera þess ljós („það ljós er kemr frá Norðri“ bls. 100) og leiðtogi, vissuloga eigi síðr en J. K. hafi verið það, þá trúum vèr því ekki, að hans andlega drambsemi muni fara svo langt, að hann dirfist að segja mönnum: yfirgefið alt fyrir mínar sakir, fylgið mèr eftir, og ef þèr gjörið það, skuluð þèr erfa eilíft líf.

verða Endrlausnara, og vorn góða meistara, já það gegnir furðu, með hve miklu þori þeir dirfast, til þess að vefengja guðdóm J. K., að vitna einmitt í þá Ritningarstaði, er svo ljóslega sanna guðdóm hans. En það er líka orðið. Ljóst í meir en 1800 ár, að þeir menn, er hafa ásett sèr að ganga í berhögg við sannleikann, hafa ekkert að bera fyrir sig á móti honum annað en eintómar markleysur; en þeir eru líka ósparir á þeim mótbárum, þeir taka þær upp aftr og aftr, og láta í veðri vaka, að þær hafi ekki komið fram áðr, ef verða mætti, að einhver skyldi fallast á þær, þótt það sè margsinnis búið að hrinda þeim algjörlega.

Vèr erum nú búnir að leiða rök að því, að þeir staðir, er hra M. E. hefir borið fyrir sig, sanna alls ekki málstað hans, og vèr ætlum að sýna fram á, að hin 3 fyrstu guðspjöll lýsa skýrt yfir því, að J. K. er Guð. Það er miklum vanda bundið, að velja úr guðspjöllunum einungis þá staði, er bezt sanna, að J. K. sè Guð. Vèr gætim tekið það, sem fyrst verðr fyrir oss, en undir eins og vèr ljúkum upp N. T. verða fyrstu orðin í því fyrir oss, og þau eru fyrstu orðin hjá h. Matteusi. »Ættartala Jesú Krists, sonar Davíðs, sonar Abrahams». Þ. e. Kristr, er fæddist í Betlehem, er hinn sanni Messías; hann er sá, er hefir fyrirheitinn verið Abraham og Davíð sem afkomandi þeirra. Og þessi orð mundu vissulega nægja til þess að sanna guðdóm J. K. eftir því sem vèr höfum sèð í G. T. En vèr höfum í þessu tilliti ljósari og skýrari orð, og þurfum ekki að fara langt til að leita að þeim. Hinn h. Mat. heimfærir til J. K. þessi orð hins mikla Esaíasar:» Sjá! mey mun barnshafandi verða og son fæða; hann mun heita Emmanu-El, er þýðir: *Guð með oss* (Mat. I, 23)».

Hèr af er auðsætt, að guðspjallamaðrinn skoðar Frelsarann sem *Guð með oss*, þ. e. sem Guð, er frá allri eilífð var í skauti síns himneska Föður og hefir í fyllingu tímans íklætt sig voru dauðlega holdi, til þess að búa hjá oss með sínum guðdómlegu eiginlegleikum og undir nafninu Jesús, þ. e. Frelsari frá Jehovah, hinn eilífi erfingi að ríki Davíðs, hann, er átti að koma til þess að frelsa Ísraelslýð frá hans syndum. Já, viðrkennum það með innilegu þakklæti, að Jesús Kristr vor er Emmanú-El, er Esaías talar um, og það er guðspjallamaðrinn, hinn h. Matt., er fræðir oss um það. Hvað segir hra M. E. um það? höfum vèr farið villir vegar, þá er vèr höfum heimfært til J. K. þenna merkilega spádóm?

Vèr skulum sleppa því að tala um það, sem hvert mannsbarn veit, þó hra M. E. sýnist annaðhvort ekki að þekkja það eða heyrandi að leiða það hjá sèr með vilja og af ásetningi, þ. e., hvernig fæðing hins guðdómlega barns Jesú var opinberlega og hátíðlega kunngerð hirðurunum, er komu undir eins til hans og *tilbáðu* hann, og sèr í lagi hvernig hinir austrlenzku vitringar, fyrir náð H. Anda, gátu þekt hina blessuðu Jakobsstjörnu, hverrar tilkomu Balaam forðum hafði sagt fyrir, hvernig þeir flýttu sèr að finna barnið, fèllu fram fyrir þessum konungi konunganna og *tilbáðu* hann, báru fram fyrir hann þær fórnir er, eftir austrlenzkum sið, að eins mátti bera fram fyrir konunga og guði. Og nú viljum vèr að eins spyrja hra M. E.: ef J. K. er einungis *rèttr og slèttr maðr*, hvernig stendr á því, að hann hafi þurft að vera getinn af H. Anda? hvers vegna hefir hann þurft að vera getinn í Meyjar lífi? hvernig hefir það verið hið merkilega *teikn, er hinn Alvaldi vildi gefa lýð sínum?* hvernig stendr á því,

að Jóhannes skírari, við nærveru hans »hrærðist af gleði í móðurlífi? En vèr getum eigi farið fram hjá því eina atriði hins fyrsta hlutar lífs Jesú, er oss er kunnugt. Jesús var kominn á Páskahátíðinni til Jórsalaborgar með móður sinni og fóstrföður sínum; hann var þá orðinn tólf ára að aldri; en »alla, sem heyrðu til hans, furðaði á skilningi hans og andsvörum«. Á þetta, ef til vill, heima hjá þeim, sem er að eins *rèttr og slèttr maðr,* þó hann sè *sannauðmjúkr Guðs þjónn?* og einkum hjá þeim, er ekki hafði verið til mentunar settr! Að þetta barn, á þessum unga aldri, þá er skilningrinn enn er óþroskaðr, gæti verið búið að fá svo yfirtaksmikla þekkingu, getr hra M. E. gert oss þetta skiljanlegt með öðru móti en því, að viðrkenna með oss, að J. K. sè Guð? vèr ætlum það fjarri fara. Og það, er hann ætti fyrst og fremst að gjöra, það er að útskýra alt þetta, sem vèr hèr höfum tekið fram, því ef hann er ekki alveg blindaðr af hindrvitnum, hlýtr hann að viðrkenna, að þetta alt saman, í heild sinni tekið, hefir aldrei að borið og mun aldrei að bera fyrir neitt mannsbarn, hversu mikill og göfugr sem hann svo kann að vera; já það er alt þetta, er hra M. E. á að útskýra fyrir mönnum, til þess að geta haft nokkra átyllu til að neita guðdómi J. K. Því hvað gagnar honum að vitna í tvo eða þrjá staði úr bókum, er hann ekki skilr neitt í? Nei, ef hann vill halda áfram í því að neita guðdómi J. K., neyðist hann til að hrinda öllu því, er í Guðspjöllunum stendr, og gjöra það, er þar er tekið fram með berum orðum, öðruvísi skiljanlegt en allir kristnir menn hingað til hafa skilið það; og það gjörir hann alls ekki með því að eins að segja aftr og aftr,

að þeir allir sè *»blindir, ófærir til að dæma andlega .... til að greina sannleikann frá villunni«*[1].

En J. K. ætlar nú að byrja að uppfylla sína háleitu köllun, og því mun hinn eilífi Faðir hans kunngjöra hann heiminum hátíðlega. Hinn h. Jóhannes prèdikaði, og skírði í Jórdan .... þángað kemr Jesús, til þess að hefja upp kenningu sína með því að gefa oss auðmýktar eftirdæmi. Jóhannes hafði aldrei sèð auglit hins guðdómlega meistara, en hann hafði, áðr en hann fæddist, fundið til nærveru hans og »hrærzt af gleði«; en í þetta sinn finnr hann í sálu sinni fyrir verk H. Anda, að sá sem til hans kemr, er Guðslamb, Messías, hinn eilífi Sonr Guðs. Jóhannes er gagntekinn af lotningu og af lofsamlegum ótta fyrir slíkri hátign; og hann, svo lítils umkominn, þorir ekki að veita Jesú skírn, honum, er einn er mikill og voldugr, heldr færist hann undan með mikilli hógværð, en Jesús skorar á hann og Jóhannes lætr að ósk meistara síns og skírir hann; og sjá! þegar Jesús hafði lokið bæn sinni, þá opnaðist himininn »og H. Andi steig niðr í líkamlegri mynd, eins og dúfa yfir

---

1) Bls. 16. En vèr biðjum hra M. E. einkum vel að athuga þau orð, er Guðspjöllin segja oss um líf J. K., frá því hann fanst í musterinu og alt þangað til hann byrjaði sitt opinberlega líf: „Hann var þeim (þ. e. Maríu og Jósep) hlýðinn“ (Lúk. II, 51); þetta er vissulega mikill leyndardómr, er hra M. E. hefir ekki skilið fremr eða betr en alla hina leyndardómana, er hann vefengir, ef menn dæma hann eftir því sem hann hefir ritað í íslenzku bókinni. Þetta líf J. K., sem ekkert bar á, er leyndardómr mikillar auðmýktar, guðlegt eftirdæmi mikilvægrar dygðar, er Kr. gefr oss til þess að vèr fetim eftir því; og það er hjartans einlægni, er vèr biðjum hra M. E. vel að hugleiða þenna leyndardóm, og auðnist honum að skilja hann, þá mun hann komast að raun um, að eigi er svo erfitt að aðhyllast hina leyndardómana og þeir eigi svo þungskildir fyrir skynsemina.

hann; þá heyrðist og rödd af himnum, er sagði: *þú ert Sonr minn elskulegr;* á þèr hefi eg velþóknan«. Hver er sá, er geti neitað krafti þessara orða? Hver mun dirfast að neita því, að hinn himneski Faðir viðrkenni hèr hátíðlega Jesú, Frelsara vorn, fyrir sinn eiginn son, sinn eðlilega son, getinn af hans guðdómlega eðli? Vèr biðjum vel athugað, að orðin í frumritinu verða eigi vefengd, hèr kemst engin hártogan að, og skynsemistrúarmennirnir fá hèr engu áorkað með áreitni sinni, því í grískunni stendr ekki: *Sonr,* υἱός, heldr *Sonrinn* ὁ υἱός μου, eins og það stæði: *þú einn* ert Sonr minn, þú ert sá *eini* Sonr, er eg á; í gríska textanum stendr heldr ekki *elskulegr,* ἀγαπητὸς, heldr hinn *elskulegi* ὁ ἀγαπητὸς, þ. e. minn *eini* elskulegi, sá *eini,* er eg elska. Hra M. E. fer því fram, að J. K., hèr eins og annarstaðar, hafi verið kallaðr *Sonr Guðs,* að eins í *óeiginlegum* skilningi, eins og sagt er um alla guðrækna menn, sem eru Guði þóknanlegir. En þetta nær engri átt, og það væri öldungis fráleitt að vilja halda því fram, að hin áðrnefndu orð geti skilizt þannig, það væri að misbjóða hinum einföldustu frumreglum hinnar grísku tungu. Ef hinn himneski Faðir hefði viljað lýsa yfir því, að Jesús væri ekki nema óbreyttr maðr, er hann elskaði vegna dygða hans, þá hefði guðspjallamaðrinn látið greininn úti, og orðin hljóðað þannig: υἱός μου ἀγαπητὸς, þ. e.: þú ert einn af þeim, er mèr eru þóknanlegir, og eg, fyrir þá skuld, kalla mína syni, er eg elska. Þannig kemst að orðum hinn heiðni hundraðshöfðingi, er furðaði sig svo mjög á hinum þýðingarmiklu teiknum, er urðu við dauða Frelsarans, og var frá sèr numinn og óttafullr, af því hann hugsaði, að Guð væri orðinn reiðr og vildi hefna dauða hins

saklausa manns, er hann elskaði, og fór þá á burt með þessum orðum: »Sannarlega er þessi maðr (einhver) Guðs Sonr«[1] (Θεοῦ υἱὸς, án greinisins); og hinn h. Lúkas gefr þessum orðum hina rèttu merkingu, er hann lætr hundraðshöfðingjann segja: »Sannliga hefir þessi maðr verið rèttlátr«[2]. Hver maðr, er hefir nokkurt skynbragð á grísku máli, hlýtr að taka eptir þeim mikla mismun, sem er á milli orðanna: ὁ υἱός μου ὁ ἀγαπητὸς, sem hin himneska rödd ávarpaði Jesú með, og þessara: Θεοῦ υἱὸς eða υἱὸς ἀγαπητὸς, er hra M. E., með hinu mikla frjálslyndi sínu og guðrækni, er hann lætr í veðri vaka, vill ávarpa vorn Frelsara með, eins og hinn heiðni hundraðshöfðingi forðum.

Eins og allir geta nú sèð, lýsir hinn himneski Faðir yfir því sjálfr hátíðlega, að Jesús, vor elskulegi meistari, sè hans *eðlilegr* og *einka*-sonr, þ. e. hann kunngjörir oss, að hann sè getinn frá allri eilífð, Guð, eins og hann sjálfr er Guð[3]. Og J.K. lýsir síðan sjálfr

1) Mark. XV, 39. — 2) Lúk. XXIII, 47. — 3) Vèr biðjum menn að lesa með athygli dæmisöguna hjá Mat. XXI, 33, um víngarðsmennina, er myrtu sendimenn húsbóndans. Þar segir Jesús með berum orðum, að hann sè einkasonr Guðs, því þjónarnir, er húsbóndinn sendi til víngarðsmannanna, eru spámennirnir, en einkasonr hans, er hann sendi síðast, er vissulega J. K., er Gyðíngar líflètu, eins og þeir líflètu marga af spámönnunum. Hra M. E. geðjast mjög að dæmisögunum; „af orðum þeirra (segir hann), er ekki hafa skrifað sjálfir, er ekkert svo áreiðanlegt sem dæmisögurnar“ (bls. 49); hann hlýtr því að viðrkenna, að Kristr hèr nefnir sig einkason Guðs, og lýsir yfir því, að hann sè Guð eins og Faðirinn; því hèr nefnir hann sjálfan sig Guðs son miklu berlegar heldr en nokkru sinni er sagt um spámennina; þess vegna getr hra M. E. ekki sagt, að Kristr hafi verið að eins Sonr Guðs, eins og sagt er um spámennina.

yfir því, að hann sè sonr Guðs í þeim sama skilningi, hann *kennir* og *sannar* það, að hann sè Guð.

Einu sinni var Jesús staddr í Nazaret, menn flytja til hans limafallssjúkan mann, er lá í sæng sinni, þetta var á Sabbatsdegi; lögin skipuðu Gyðingum stranglega að halda þenna dag helgan, og það gjörðu þeir nákvæmlega. En er Jesús sá hina styrku trú þeirra, er komu með sjúka manninn, sagði hann til hans: »Sonr, þínar syndir eru þèr fyrirgefnar«[1]. En þar sátu nokkrir af hinum skriftlærðu og hugsuðu með sèr: »Hví talar maðr þessi slíkar guðlastanir? Hver getr fyrirgefið syndirnar nema Guð einn?« Og það sögðu þeir satt, því Guði einum heyrir til að fyrirgefa syndirnar í *sínu eigin nafni og með sínu eigin valdi*, eins og Kristr hafði nú gert, (eins og þeir kannast við sjálfir). En jafnskjótt fann Jesús í *anda sínum,* að þeir hugsuðu þetta í hjörtum þeirra. Vèr biðjum hra M. E. að útskýra, hvernig Jesús gat *fundið þetta í anda sínum*, ef hann er að eins *rèttr og slèttr maðr*. Því Guð einn »rannsakar hjörtun« og »skilr hugsanir þeirra, og Guð einn er, »hjartnanna rannsakári«; því ekki segir hinn h. guðspjallamaðr, að Kristr hafi sèð það fyrir Guðs innblástr, heldr segir hann, að hann *hafi fundið það í anda sínum*, svo að guðspjallamaðrinn lýsir með berum orðum yfir því, að Jesús sè Guð. En hinir skriftlærðu og Faríseararnir neyða sjálfir Jesú að sanna það, að hann sè Guð. Jesús hafði sagt sjúka manninum: »syndir þínar eru þèr fyrirgefnar«. Enginn gat dregið út af þessum orðum, að Jesús væri Guð, því þó hann hefði að eins verið spámaðr, þá hefði hann getað, fyrir Guðs innblástr, sèð, að syndir hins sjúka manns væri

1) Mark. II, 5 og eftirfylg.

fyrirgefnar. En hinir skriftlærðu, hinir vantrúuðu og skynsemistrúarmenn þessara tíma, vilja áfella Jesú fyrir alt, og því segja þeir: »hví talar maðr þessi slíkar guðlastanir? Hver getr fyrirgefið syndirnar, nema Guð einn?« Óvinir Jesú, er eigi vildu sjá í honum nema óbreyttan mann, ætla sèr auðsjáanlega að gefa honum að sök, að hann gjöri sig Guði jafnan, og þá sjálfsagt Guð. Átti nú Jesús ekki, ef hann er að eins *rèttr og slèttr maðr*, en *sannauðmjúkr Guðs þjónn*, að lýsa yfir því, að hann hafði ekki *sjálfr*, af sínu *eigin valdi*, fyrirgefið hinum sjúka manni hans syndir? Átti hann ekki, ef hann var »af hjarta lítillátr«, ef hann gaf »Guði einum dýrðina« og leitaði »ekki sinnar eigin dýrðar«[1], átti

1) Sjá hjá hra M. E. bls. 2., 3. og víðar. Og menn verða hèr að taka eftir þessu orði: „Mannsins sonr" er J. K. við hefir. Það er eins og hann vildi segja: þèr sjáið ekki í mèr nema Mannsins son, eða manninn, en eg er bæði Guð og maðr, og maðrinn í mèr *fær* af Guði það vald, er Guði einum tilheyrir, og hann neyðir þá til að viðrkenna það, með því að lesa í hjörtum þeirra, og með því að lækna hinn limafallssjúka mann, til þess að sýna, að hann hafi fyrirgefið honum syndir hans. Og J. K. gjörði hið áðrnefnda kraftaverk á Sabbatsdegi, og út af því sagði hann við hina skriftlærðu, er gátu engu svarað honum, og tóku til að ásaka hann fyrir það, að hann vanhelgaði þannig hvíldardaginn, þessi eftirtektaverðu orð (Matt. XII, 5.): „Eg segi yðr, að hèr er sá, er meiri er en musterið", og v. 8: „Mannsins sonr er herra hvíldardagsins". En hver var hjá Gyðingum „meiri en musterið"? Enginn nema Guð sjálfr, því honum einum heyrði musterið til. Og hver gat verið „herra hvíldardagsins"? Enginn nema sá, er hafði tilskipað Sabbatsdaginn, og boðið sínu fólki að halda hann helgan í minningu sköpunarinnar. Og með þessum orðum sannar J. K. á órækan hátt, að hann sè Guð. Þannig verða fyrir oss á hverri blaðsíðu í Guðspjöllunum, þau orð og yfirlýsingar, er vèr með engu móti getum skilið í, eða fundið nokkurn stað, heldr hljóta að verða oss helber vitleysa, nema því að eins, að sá, er talaði þau, sè sannr Guð.

hann ekki að viðrkenna, að hann hefði að eins sèð fyrir Guðs innblástr, að syndir hins sjúka manns væri honum fyrirgefnar, og að hann hefði ekki *fyrirgefið þær sjálfr?* Það er efalaust það, sem hann átti að gjöra; en gjörir hann það? Því fer fjarri! »hví hugsið þèr slíkt, segir hann þeim, í yðrum hjörtum? Hvort er auðveldara að segja við hinn limafallssjúka: syndir þínar eru þèr fyrirgefnar, eða segja: statt upp, tak sæng þína og gakk«? Er það ekki auðsætt af þessum orðum, að Jesús lýsir yfir því, að hann hafi sjálfr, af sínu eigin valdi fyrirgefið hinum sjúka manni syndir hans? Það er vissulega eigi torveldara, og það er enda auðveldara að lækna limafallssjúkan mann, en að fyrirgefa syndirnar. En það er torveldara að blekkja menn á lækningu limafallssýkinnar, en á fyrirgefningu syndanna, af því menn sjá lækninguna með augunum, en ekki fyrirgefningu syndanna. En lækningin, er menn eru vissir um, gefr þeim sönnun fyrir fyrirgefningu syndanna, er menn ekki sjá. Og því segir Jesús hinum skriftlærðu »svo að þèr vitið, að Mannsins sonr hefir vald til að fyrirgefa syndirnar á jörðu; statt upp, segir hann hinum limafallssjúka, tak sæng þína og far til þíns húss«. Það er auðskilið, að Kristr hefði getað gert kraftaverk með Guðs hjálp og leyfi, og það án þess að vera Guð sjálfr, en hèr tekr hann sjálfr fram, að hann gjöri sjálfr, með *sínum eigin krafti,* þetta kraftaverk og að hann *gjöri það til þess* að sanna, að hann hafi vald til að fyrirgefa syndirnar, og af þessu leiðir, að J. K., ef hann ekki dregr á tálar, er hann segir hinum limafallssjúka: »statt upp, tak sæng þína og gakk«, gjörir það heldr ekki, er hann segir: »syndir þínar eru þèr fyrirgefnar«, því sá segir ómótmælanlega

satt, er gjörir ómótmælanlegt kraftaverk, til þess að sanna það, er hann segir. Eins og nú má sjá glögglega, eru óvinir Krists hèr komnir í kröggur, sem þeir með engu móti geta komizt út úr; þeir hljóta nauðsynlega að viðrkenna guðdóm hans, því ef þeir neita honum, þá komast þeir í ókljúfandi vandræði, sem þeir ekki geta ráðið fram úr, því einn erfiðleikinn rekr sig á annan, og alt kemst í bága hvað við annað. Þeir mega þá ekki kalla J. K. *sannauðmjúkan Guðspjón, fyrirmynd allra Guðsbarna,* þeir geta eigi sagt, að hann sè af *hjarta lítillátr,* að hann gefi *Guði einum dýrðina* og leiti ekki *sinnar eigin dýrðar,* því ef J. K. er ekki Guð (og vèr biðjum kristinn lesara, að hneyxlast ekki á því, þó vèr látim oss þessi orð um munn fara) ef J. K. er ekki Guð, þá hefir hann verið hinn mesti falsari og metnaðarmaðr, er verið hefir uppi, því hann hefði, ef hann er ekki Guð, átt að kannast við það fyrir hinum skriftlærðu, að hann hefði ekki fyrirgefið hinum limafallssjúka syndir hans, eða að minsta kosti hefði hann átt að játa það, að hann hefði fyrirgefið honum syndir hans í Guðs nafni og með hans valdi, en það er það, sem hann með engu móti gjörir, heldr sannar hann þvert á móti undir eins með kraftaverki, að »Mannsins sonr hafi á jörðunni vald til að fyrirgefa syndirnar«. Og með því að lesa í hjörtum þeirra, með því að lækna hinn limafallssjúka mann, neyðir hann þá til að viðrkenna, að hann hafi einnig fyrirgefið honum syndir hans, og það alt saman í sínu eigin nafni, og með sínu eigin valdi og krafti.' En hvað sögðu nú hinir skriftlærðu, er ætíð neyttu hvers tækifæris á móti J. K.? þeir þögðu . . . Og vèr skulum sjá, hvað hra M. E. segir, hann sem er einn af hinum skriftlærðu

vorra daga, við þenna stað og svo marga aðra. En vèr kristnir menn eigum, með fólkinu er dáðist að þessu dásemdarverki, að vegsama Guð, er þannig hefir borið umhyggju fyrir, að J. K. einkasonr hans og vor góði Endrlausnari staðfesti þannig bæði með orðum og verkum guðdóm sinn, og hefir þannig látið þá menn til skammar verða, er dirfast að ganga í berhögg við hann.

Allir menn þekkja svar Pètrs (Matt. XVI, 13. og eftirfylg.), þegar J. K. hafði spurt læriseina sína um, hvað menn segði um Mannsins son. Þeir svöruðu: »Nokkrir segja, að þú sèrt Jóhannes skírari, aðrir Elías, aðrir Jeremías, eða einhver af spámönnunum. En þèr, segir Jesús, hver segið þèr eg sè«? Eflaust svara þeir nú allir í einu hljóði, eins og hra M. E. mundi gert hafa: þú ert *sannauðmjúkr Guðs þjónn, fyrirmynd allra Guðs barna, trúr sendiboði Guðs,* eða einhver sonr Guðs, eins og allir góðir menn eru það. Nei! því fer fjarri! Símon Pètr tekr fyrstr af öllum til máls, og svarar með miklum krafti: »Þú ert Kristr, sonr Guðs lifanda:« ὁ Χριστὸς, þ. e. sá Kristr, er heimrinn vonaði eftir, Messías, er fyrirheitinn var síðan Adam fèll, ὁ υἱὸς τοῦ Θεοῦ τοῦ ζῶντος, þ. e.: sá eini Guðs Sonr, hans eiginlegi og eðlilegi Sonr, getinn af hans eðli, Guð af Guði. Er það annars ekki auðsætt af þessum orðum, að J. K. er í alt öðrum og æðra skilningi sonr Guðs en Jóhannes skírari, Elías, Jeremías og aðrir spámenn, og þannig ekki að eins hans óskabarn, heldr hans eiginlegr sonr?

Mundi nú J. K. reka þessi orð Pètrs sem þau væri guðlast? Mundi hann draga nokkuð úr þeim ákafa, sem kominn var í Símon Pètr? Mundi hann gjöra honum alvarlegar ávítur fyrir það, að hann hefði álitið

hann að vera æðra eðlis en hann í sannleika var? Nei, þvert á móti, Jesús tekr orðum hans blíðlega, og svarar: »*Sæll ert þú*, Símon Jónasson, því það er hvorki *hold nè blóð*, sem hefir birt þèr þetta, heldr *Faðir minn*, sem er á himnum«[1]. Hvernig er þetta að skilja? þurfti þess við, að hinn himneski Faðir birti fyrir Pètri, að Jesús væri *sannauðmjúkr þjónn hans*, ef hann var að eins *rèttr og slèttr maðr?* Sá Pètr hann ekki dagsdaglega láta öllum velgjörðir sínar ríkulega í tè, og vera aðstoð öllum þeim, er bágt áttu? Sá hann ekki dagsdaglega, hvernig hann þjónaði Guði í orðum og verkum, í anda og sannleika? Elskum vèr nú sannleikann og viðrkennum, að ef hinn eilífi Faðir hefir þurft að birta fyrir Pètri, að Jesús væri Sonr sinn, þá er það af því að Jesús er ekki að eins einn af þeim sonum, er hann elskar, af því þeir gjöra alt, er í þeirra valdi stendr, til þess að þóknast honum, heldr af því að Jesús er einkasonr hans, getinn af hans eðli, og því Guð eins og hann sjálfr. Pètr þurfti auðsjáanlega ekki að fá neina birtingu frá Guði til þess að sannfærast um, að Kristr væri góðr maðr. Það er óskiljanlegt, hvernig skynsemistrúarmönnum getr dottið það í hug að vefengja svo ljós og skýr orð og neita þeim; það er vissulega, að neita hinum auðsæjustu sannindum.

En ekki er alt hèr með búið; Pètr fær trú sína umbunaða, því Jesús segir honum: »Og eg segi þèr: Þú ert Pètr (hellusteinn) og á þessari hellu mun eg

1) Vèr gætim líka tekið það fram hèr, að sú sæla Pètrs væri ekki mikil, þar eð hún væri að eins innifalin í því að sjá og skilja það, sem allir menn gátu sèð og skilið af sjálfsdáðum.

reisa Kirkju mína[1] ..... Og *eg mun* gefa þèr lykla að ríki himnanna, og alt er þú bindr á jörðu, skal *á himnum bundið vera,* og alt það, er þú leysir á jörðu, skal á himnum leyst vera«. Hvernig er nú þetta að skilja? Hvernig gæti *rèttr og slèttr maðr* gefið sínum líka lykla að ríki himnanna? Eða hefir nokkur lykla að ríki himnanna og getr nokkur gefið þá nema Guð einn? Og það sem meira er, getr nokkur *rèttr og slèttr maðr* heitið öðrum manni því, að alt sem hann muni *binda* eða *leysa á jörðunni,* muni verða *bundið* eða *leyst á himnum?* Hvernig getr nokkur *óbreyttr maðr* tekið sèr það vald, er Guði einum tilheyrir? Er það mögulegt, að nokkur maðr dirfist að gjöra það? Vèr leyfum oss að spyrja hvern þann, er hefir heilbrigða skynsemi, hvort nokkur dauðlegr maðr gæti tekið sèr slíkt mál í munn? Svarið liggr beint fyrir. Guð einn getr talað sem Guð.

En fylgjum nú J. K. og heyrum á orð hans, er hann stóð fyrir dómöndum sínum[2]. Vitnunum kom ekki, eins og eðlilegt var, saman, því þeir báru upp ljúgvitni, síðast stóð hinn æðsti prestr upp og mælti til Jesú: »Eg særi þig við enn lifanda Guð, að þú segir oss það, ef þú ert *Kristr, Sonr Guðs*«. Þetta er í sannleika hátíðlegt augnablik, Kaífas vill, eins og menn sjá, útkljá málið, og hann gripr aðalatriði þess. Ef Jesús segir sig að vera *Krist, Son Guðs,* þá guðlastar hann, og hvers vegna er það guðlast, nema af því að Gyðingar hugsuðu sèr með þessum orðum *eiginlegan og eðlilegan einkason Guðs, Guð eins og hann?* Kristr

1) Hèr kallar J. K. Kirkjuna, Kirkju sína; og víðar í N. T. er hún kölluð Kirkja Guðs; um það verðr talað hèr á eftir. — 2) Matt. XXVI, 63. og eftirfylg.

hlýtr hèr að tala ljóslega, því tvírætt svar hefði verið afbrot, og hann hefði gjört sig meðsekan, eða þó heldr verið upphafsmaðr að því morði, er Gyðingar höfðu í hyggju að drýgja. En hvað gjörir hann? Útskýrir hann að minsta kosti, hvernig hann skilr þessi orð: *Guðs Son?* Heyrum nú hverju hann svarar. »Eg særi þig, hafði Kaífas sagt, við enn lifanda Guð, að þú segir oss það, ef þú ert *Kristr, Sonr Guðs?*« Jesús svarar: »*Svo er sem þú sagðir*«. Og til þess að staðfesta þessa yfirlýsingu sína með hátignarfullum orðum bætir hann því undir eins við: »Og þèr munuð sjá *Mannsins son sitjanda til hægri handar* hins Alvalda Guðs og *komanda* í skýjum himins«[1]. Kristr sver hèr dýran eið, að hann sè sannarlega *Guðs eiginn Sonr*. Og sjáið hinn æðsta prest: »hann rífr klæði sín«, og segir: »Hann (Jesús) guðlastar, hvað þurfum vèr nú framar vitnanna við? Nú heyrðuð þèr sjálfir guðlöstun hans, hvað lízt yðr? En þeir kváðu hann allir dauðasekan«, og það af því hann guðlastaði með því að segja sig að vera *Son Guðs*. En gat þá merking þessara orða verið að eins sú, að Kristr væri *Guðs Sonr* í þeim sama skilningi sem guðræknir og góðir menn eru það? Gat hún verið sú, að Kristr væri að eins *Sonr Guðs* eins og allir spámennirnir hafa verið það? Nei, þetta er öldungis ómögulegt. Og hefði það verið hinn rètti skilningr orðanna,

1) Vèr höfum þegar sèð, hèr að framan, að það „að sitja Guði til hægri handar", er það sama sem að vera Guði jafn. Og hvað vill nú J. K. tákna með orðunum: að hann muni koma í skýjum himins"? Hann vill auðsjáanlega tákna dómsdag, þá er hann á að koma til að „dæma lifandi og dauða". En vèr höfum einnig sèð að það „að dæma lifandi og dauða" heyrir ekki nema Guði einum til, svo að J. K. sannar hèr á órækan hátt fyrir Gyðingum, að hann sè sannarlega Guð.

þá hefði Kristr átt að útskýra það ýtarlegar. En merking orðanna var sú, að Kristr lýsti yfir því, að hann væri *eiginn* og *eðlilegr einkasonr Guðs*, þ. e. *Guð*. Og í því eina var, að áliti Gyðinga, guðlöstunin innifalin. En Kristr var dæmdr til dauða, og það vildi þessi góði meistari og Guð, að það einmitt yrði málalyktir; hann vildi deyja fyrir játningu þessa háleita og undirstöðulega sannleika, því hann vildi gefa hinum mörgu þúsundum píslarvotta, er hann sá fyrir, að þegar mundu láta lífið og deyja hinum kvalafylsta dauða fyrir trúna á hans heilaga og tilbeiðsluverða guðdóm, dæmi til eftirbreytnis[1].

Fáein orð enn þá. Það er búið að krossfesta Jesú og hann er að dauða kominn; annar af ræningjum þeim, er krossfestir voru með honum, er hrifinn af iðrunartilfinningum; hann biðr Jesú miskunar og segir: »Minst þú mín, Herra, þá er þú kemr í ríki *þitt*«[2]. Sjá! þessi maðr viðrkennir, fyrir náð Guðs, að ríki himnanna heyri Jesú til, og með því, auðsjáanlega, að hann sè Guð.

---

1) Það er bágt, að hra M. E. ekki var þá uppi og viðstaddr til þess að koma Gyðingum í hinu rètta skilning, er J. K. lagði í þessi orð sín! Þeir hefði þá ekki gert sig seka í lífláti J. K. Kristr hafði kent hinum skriftlærðu og Fariseunum, að hann og Faðirinn væri eitt þ. e. ein og sama vera; og þetta kemr á fleirum stöðum fyrir í 4. guðspjallinu og einnig hjá hinum h. Matteusi, t. a. m. þegar Jesús segir (XI, 27.): „Enginn þekkir Soninn nema Faðirinn, og enginn Föðurinn nema Sonrinn“. Og því er það, að þegar Jesús kallar sig, fyrir dómurum sínum, Son Guðs, eða Guð, þá brýtr hann ekki, á nokkurn hátt, með því niðr trúarlærdóminu um einingu hinnar guðlegu náttúru; en hinir hræsnisfullu óvinir hans telja lýðnum trú um, að hann brjóti niðr einingu Guðdómsins og kenni marggyðistrú; og slíkr kennari var, í augum Gyðinga, falsspámaðr, guðlastari og dauða sekr. — 2) Lúk. XXIII, 40 og eftirf.

En hvað gjörir nú J. K.? Neitar hann því, að ríki himnanna heyri sèr til, sè *sitt?* Nei, engan veginn! heyrum svar hans: »Og Jesús sagði við hann: *sannlega segi eg þèr*: í dag *skaltu* vera með *mèr í Paradís*«. J. K. staðfestir því með þessum orðum viðrkenningu ræningjans, og játar því það, að ríki himnanna sè *sitt*. Og vèr þorum að fullyrða, að sá óbreyttr maðr hefir aldrei verið til, og er ekki til og mun aldrei verða til, er geti haft þá dirfsku að taka sèr þessi orð í munn, því þetta er mál Guðs *eins*. Og hvað stoðar það hra M. E. að neita guðspjalli h. Jóhannesar, af því Kristr er þar sagðr Guð, af því hann segist þar vera Guð? Er J. K. hèr ekki sagðr Guð? Gjörir hann sig hèr ekki sjálfan að Guði? Og þetta er þó tekið úr hinum fyrstu guðspjöllum! »Setr hann sig hèr ekki við hliðina á Guði?«[1] Þekkir hra M. E. hèr sinn *auðmjúka Guðsþjón?* sinn *trúa sendiboða Guðs*, er *fyrirmynd er allra Guðs barna*, og *ekki leitar sinnar eigin dýrðar, er gefr Guði einum dýrðina?*[2]

J. K. ætlar að fara að skilja við jörðina, Kirkjan, er kölluð er til þess, eftir hann, að uppfylla jörðina með dásemdarverkum sínum, liggr fyrir fótum hans þar sem Postularnir eru í einum flokki; hann segir þeim: »Farið og kennið öllum þjóðum og skírið þær í *nafni Föður og Sonar og H. Anda*«[3]. Ætlan J. K.

---

1) Sjá hra M. E. bls. 3 og víðar. — 2) Bls. 2, 3 og víðar. — 3) Vèr verðum að taka það fram, að oss hefir yfirsèzt lítið eitt í „Útakýringu“ vorri (bls. 51, lín. 27) þegar vèr tilfærðum þenna Ritningarstað; vèr fylgdum sumsè Oxforðs útgáfunni, er sleppir, án þess vèr tækim eftir því, samtengingarorðinu og á eftir „Föður“ og hljóða því orðin þannig: „J nafni Föður... Sonar og H. Anda“! En að öðru leyti er þessu samtengingarorði (sem þó er þýðingarmikið) slept í öllum, eða í flestöllum íslenzkum útgáfum af N. T.

hefir vissulega aldrei verið að láta skíra hina trúuðu í *annars nafni en Guðs,* og ekki heldr, að helga þá öðrum en Guði, en í orðum hans eru þó greindar 3 persónur, og það er í nafni þeirra, sem hann vill að menn sè skírðir, og þess vegna hlýtr hver þeirra persóna að vera sannarlega Guð, án þess þó það sè 3 guðir; þar af leiðir, að hið guðdómlega eðli er sameiginlegt fyrir þær 3 persónur án þess það sè sundrdreift. Og því sjáum vèr, að allir Kirkjufeðr taka til greina, að J. K. hefir sagt: »*Í nafni*«, *í eintölu,* en ekki í fleirtölu, til þess að sýna að hið guðdómlega eðli er að eins *eitt,* og að hann bætir því við.: »*Föður og Sonar og H. Anda*«, og tekr upp aftr samtengingar orðið, *og,* milli persónanna, til þess að sýna, að hinar 3 guðdómlegu persónur eru hver annari jafnar. Og öll minnismerki fornaldarinnar votta í einu hljóði, að skírnin hefir ávalt verið framkvæmd samkvæmt orðum Guðspjallsins, þ. e.: *Í nafni Föður og Sonar og H. Anda;* h. Jústínus segir í varnarriti sínu (*Apologia*), sömuleiðis Tertullianus í ýmsum ritum sínum, h. Klemens frá Alexandríu, í riti sínu, er heitir *Strómata,* og í útdrætti af Theodotus, og aðrir fleiri segja, að þessi venja hafi upptök sín frá tímum Postulanna, og að það sè lögmál, er J. K. hafi boðið sjálfr[1]. Og allir þeir,

---

1) Er það ekki kynlegt að rekja uppruna trúarlærdóms hinnar H. þrenningar til heiðingja, þar sem menn hafa fyrir sèr í Guðspjallabókunum og hvervetna í N. T. svo marga staði, er skýlaust og á órækan hátt sýna og sanna þenna trúarlærdóm? því á ótal stöðum hefir J. K. kent, að Guð væri vissulega einn í sinni veru; en jafnframt að í þessari einni Guðs veru væri þrjár persónur. En hvað veldr því, að hra M. E. ekki hefir jafnvel nefnt einn einasta af þessum mörgu stöðum, er kristnir menn nú í meir en 18 aldir hafa bygt á og sannað með trú sína á lærdóm H. þrenningar?

er áttu að skírast, voru fullkomlega uppfræddir um trúarlærdóm hinnar H. Þrenningar, er var undirstöðu trúarlærdómr Kristninnar og kristilegrar trúar. H. Jústínus segir, meðal margra annara, um það: »Skírnin er að eins veitt þeim, er láta í ljósi, að þeir sè sannfærðir um sannleika trúarinnar« (og án efa um leyndardóm H. Þrenningar) »og trúi honum og lofi að lifa samkvæmt boðum hans«[1]. Og ef nokkur hlutr er ljós, auðsær og öldungis efalaus, þá er það það, að kristnir menn hafi þegar frá tímum Postulanna trúað því að *Guð* væri *einn* og í *3 persónum*. Trúarjátningar þeirra, tíðagjörðir, bænir, allar kristilegar venjur, já alt líf kristinna manna, frá því þeir tóku skírn, er opnaði þeim dyr Kristindómsins, og jafnvel dauði margra þeirra, er hafa úthelt blóði sínu til þess að bera þessum sannleika vitni, sýna og sanna það.

Þeir, er hafa ritað frásögnina um píslarvætti hins h. Ignatíus', er byskup var í Antiokíu alt frá á. 66, eða 68, enda hana þannig: »Vèr vegsömum Drottin vorn J. K., fyrir *hvern* og með *hverjum* dýrðin og máttrinn tilheyrir *Föðurnum* með *H. Anda* um aldir alda«. Og þessi trú er sú hin sama, sem hinn heilagi píslarvottr hafði, og menn verða að gæta þess, að hann var lærisveinn hinna h. Pètrs og Jóhannesar[2]. Heyrum

---

það virðist þó auðsætt, að hann hefði átt fyrst og fremst að sýna fram á það, að þeir hafi rangt í því; en hann leiðir það, þó ótrúlegt sè, algjörlega hjá sèr; hann lætr öldungis eins og það standi ekki eitt einasta orð, er bèr að lúti neinstaðar í N. T. Kemr þetta af fávizku? eða af undirhyggju, af ósvífni?... Vèr skulum ekki leggja neinn dóm á það!

1) Apolog. I, n. 61. — 2) Martyr. S. Ignat. n. 7. Þeir menn, er hafa ritað þessa frásögu til kirkjunnar í Antiokíu, voru sjálfir sjónarvottar að dauða hins h. Ignatíus'. — En hann skrifar sjálfr

einnig hinn h. Polykarpus, er hafði verið lærisveinn hins h. Jóhannesar, hann kallar á bálinu: Faðir hins vegsemlega Sonar þíns J. K.... Eg lofa Þig... vegsama Þig... með hinum *eilífa*... J. K. þínum elskulega Syni, með *hverjum Þèr* og *H. Anda* tilheyrir dýrðin bæði nú og um hinar ókomnu aldir. Amen«[1]. Og það er þó þessi trúarlærdómr um hina H. Þrenningu, er hra M. E. vill láta menn halda að hafi komið frá heiðingjum; og sem »Kirkjufeðr hafa hjálpað til að *útspekúlera* (!) og búa til«[2]. En hvernig getr þetta átt sèr stað um þann trúarlærdóm, er var hin eina undirstaða kristilegrar trúar. Vèr óskum þá, að þessi mikli neitari hinna auðsæjustu sanninda útskýri, hvernig menn eiga að trúa honum fremr en öllum Kirkjufeðrunum; eða er hann, ef til vill, guðræknari eða hreinskilnari en allir þessir heilögu Kirkjufeðr er hafa látið deyða sig og margar þúsundir kristinna manna með þeim, til þess að bera vitni um sannleika þessa trúarlærdóms, er *þeir hefði hjálpað til að ÚTSPEKÚLERA?* Eða er hann þá færari en þeir, er notið hafa kenningar Postulanna, eins og h. Ignatíus og h. Polykarpus, er þektu,

kristnum í Magnesíu á þessa leið: „Kappkostið,... svo að þèr styrkist í kenningu Drottins og Postulanna og að alt er þèr gjörið, gangi yðr gæfusamlega... í sannri trú á Soninn, Föðurinn og H. Anda, frá upphafi til enda“ (Epist. ad Magn. n. 13.) Vèr gætim vitnað í og tilfært fleiri staði, sem eru fult eins ljósir, úr brèfum þeim, er allir óhlutdrægir menn, er vel eru að sèr í sögu hinna fyrstu alda Kristninnar, eigna hinum h. Ignatius, og sömuleiðis úr brèfum hins h. Polykarpus' (vèr tilfærum að eins einn stað eftir hann); hann var aldavinr Ignatius', og var brendr fyrir trú sína á J. K. á. 166, 95 ára gamall.

1) Martyr. S. Polyc. n. 14. — 2) Bls. 35, 36 og víðar. M. E. sýnir hèr og víðar, að hann talar öldungis eins og hann hugsar.

svo að segja, til allra kirkna heimsins, svo og þeir Kirkjufeðr, er komu næst eftir þá, þótt þeir væri frá 3., 4. og 5. öld, já, er hra M. E. færari en þeir allir, um að vita það, er Kirkjan hafði jafnan kent, og sem þeir sjálfir kendu og framkvæmdu? Vèr óskum, að hann útlisti, hvernig hinn kristni heimr hefði getað fengið þenna trúarlærdóm frá heiðingjum, hvernig Kirkjufeðrnir hefði getað »*útspekulerað* og búið hann til«, hvernig þetta hefði framfarið smátt og smátt um 2 eða 3 aldir án þess *nokkur maðr jafnvel nefni* það, og það þótt einfaldr ágreiningr um Kirkjusiði væri nógr til að hleypa Kirkjunni allri í bál og brand?[1] Já, hvernig stendr á því, að menn heyra ekki hin minstu mótmæli, nema af hálfu nokkurra trúarvillumanna?[2] Það er alt þetta, er hra M. E. þarf að útlista, áðr en hann getr vonazt eftir, að menn trúi hinni *andlegu leiðslu* hans; því hann hlýtr þó að geta skilið, að tóm fullyrðing (án nokkurrar sönnunar) af hans hálfu, og jafnvel hin svo kallaða *andlega leiðsla* hans megna ekki að brjóta það niðr, er *öll sagan* sýnir að hafi jafnan átt sèr stað hjá kristnum mönnum. En heyrum orð hans: »Með því að styðjast við heiðna heimspeki.:.. og með grufli og heilaspuna komust menn að því: að sá eilífi, ósýnilegi Guð væri í 3 persónum .... og að ein þeirra hafi orðið maðr eins og vèr. Þá var Guð sýnilegr á jörðunni«[3]. Hver hefir sagt það? Já, hver hefir nokkurn tíma sagt, að Guð hafi verið sýnilegr í J. K.? Hra M. E. ætti þó að skilja, að til þess að eigna mönnum slíkar vitleysur,

1) T. a. m. ágreiningrinn um daginn, er menn ætti að halda Páskahátíðina á. — 2) Og þó hafa þeir aldrei neitað því, að Postularnir sjálfir hafi kent þenna trúarlærdóm, heldr að eins sagt, að þeir hafi í þessu farið villir vegar. — 3) Bls. 36 neðanm.

þá þyrfti hann að geta sannað þær. Segi hann þá, hver sá kristinn maðr sè, að minsta kosti sá katólskr maðr, er nokkurn tíma hafi sagt, að *vera* Guðs væri sýnileg í J. K.; því það er það, sem hann vill segja, þar sem hann bætir við rètt á eftir »og samt *trúðu*« þeir sömu »menn, eins eftir sem áðr, að Guð væri *ósýnileg* vera«! Að kristnir menn hafi getað sagt, að sèrhver óhlutdrægr maðr ætti að sjá Guð í J. K. *sökum verka hans,* eins og sèrhver skynsamr maðr sèr Guð í verkum sköpunarinnar, það er vissulega alt annað en að segja, að *vera* Guðs, er *ósýnileg* er, eins og kristnir menn trúa, hafi verið *sýnileg* í J. K., að »*menn hafi getað sèð hana og þreifað á henni*« (s. s.). Hra M. E. má gjarna trúa vitleysum og kenna þær, en hann má alls ekki, vèr segjum honum það aftr, rangfæra kenningu kristinna manna til þess að veita sèr þá auðveldu gleði, að hrinda henni, þegar hann er búinn að gjöra hana hlægilega og fráleita.

Hra M. E. á mikið bágt með trúarjátninguna, er kölluð er *hin athanasianska,* hún tekr frá honum alt vitið. Með því hann finnr mikið vel, að hann getr ekki hrundið henni, hefir hann ætíð hina sömu aðferð, hann rangfærir! Þessi aðferð er í öllum mentuðum löndum fyrirdæmd af öllum dómstólum, er kalla hana *fals í opinberum ritum,* og sá, er viðhefir hana, missir alla virðingu sína, orð hans eru upp frá því skoðuð ómæt af öllum heiðvirðum mönnum. Og það er þessi aðferð, er hra M. E. viðhefir, þegar ræða er um hina opinberu trú alls hins kristna heims í meir en 1800 ár! Hin athanasíanska trúarjátning segir: »Guð *Faðir,* Guð *Sonr,* Guð *H. Andi, en þó ekki þrír guðir heldr einn Guð*«. En hra M. E. lætr hana segja»: *þeir* (Faðirinn,

Sonrinn og H. Andi) *eru allir guðir*, og þó *ekki þrír guðir*, heldr *einn Guð*»» (bls. 37). Rangfæringin er auðsæ; trúarjátningin segir: það er EIN *guðleg vera* en *ekki* ÞRJÁR, þess vegna eru ekki *þrír* guðir heldr *einn* Guð; en hra M. E. vill auðsjáanlega láta hana segja, að *hver persóna* fyrir *sig* sè Guð, og finna þannig 3 *guði*. En hvernig getr trúarjátningin sagt: Guð Faðir, Guð Sonr, Guð H. Andi, en þó ekki *þrír* guðir heldr *einn* Guð? Þetta er mjög einfalt, það er *eining* í tilliti til *guðlegrar náttúru, einn* Guð; það er *þrenning* í tilliti til *persónanna, þrjár* persónur. Þegar því kristnir menn segja: í Guði er *eining*, þá lýtr þetta orð, *eining*, að hinni *guðlegu náttúru*; og þegar þeir segja: í Guði er *þrenning*, þá lýtr þetta orð, *þrenning*, *ekki* til hinnar *guðlegu náttúru*, heldr til *persónanna*, en hra M. E. útlistar kenningu kristinna manna eftir sínum eigin geðþótta, og lætr þá segja um hina *guðlegu náttúru*, *það* sem þeir segja um *persónurnar*, og í því er fólgin hjá honum sú rangfæring, er vèr berum honum á brýn. Þegar vèr því segjum: hin *guðlega náttúra*, sem er *ein*, er fólgin í *þremr* persónum, lætr hann oss segja: hin guðlega náttúra, sem er *ein*, er fólgin í *þremr guðlegum náttúrum* eða í *þremr guðum*. En ef það er mótsögn að segja, að í Guði sè ein einasta guðleg náttúra og þrenning persónanna, hví hefir þá hra M. E. ekki sýnt þessa mótsögn með því að beita grundvallarreglum hinnar sönnu heimsspeki og heilbrigðrar skynsemi[1]?

---

1) Hann ætti þó að vita, að margir bæði af heimspekingum og skynsemistrúarmönnum o. s. frv., sem eru miklu skarpari en hann, hafa reynt það og beitt öllu mögulegu, en hafa þó aldrei komizt til þess að sýna, með skynsamlegu móti, að mótsögn eða vitleysa sè í leyndardómi H. Þrenningar.

Aumingja maðrinn! hann hefir án efa sèð, að hann ekki gat það! og því hefir hann heldr viljað rangfæra hina kristnu kenningu, gjöra hana fráleita og að því búnu kalla upp og segja: kristnir menn eru allir saman *aular og vitfirringar!* o. s. frv. Eins og hægt er að sjá, er þessi aðferð sèrlega einföld og hæg fyrir þann, er hvorki ber virðingu fyrir sjálfum sèr nè lesöndum sínum, en það er sá galli á henni, að hún þóknast ekki heiðvirðum mönnum. Ekki erum vèr þó enn búnir að sýna allar rangfæringar hra M. E.

Í hinni sömu trúarjarjátningu stendr: »Af Föðurnum einum er Sonrinn, hvorki gjörðr, nè skapaðr, heldr getinn. Af Föðurnum og Syninum er H. Andi, hvorki gjörðr, nè skapaðr, nè getinn, heldr framgangandi. Og allar hinar þrjár guðlegu persónur eru hver annari jafneilífar«. En hra M. E. lætr trúarjátninguna segja: »Sonrinn er *fæddr* af Föðurnum og Andinn útgenginn af báðum« o. frv., og þá kallar hann upp og segir: »Að nú það, sem er getið og fætt eða útgengið af öðru, geti verið *jafngamalt* því, sem það er getið og fætt af (hvort sem það er andlegt eða líkamlegt) getr enginn *óvitlaus* maðr hugsað sèr, því það stríðir á móti öllum lögum heilbrigðra og skynsamra hugsana«. Gott og vel! þetta er mikið skynsamlega talað! og vèr, kristnir menn, værim vissulega *aular* og *vitfirringar,* o. frv., ef vèr segðim það, er hra M. E. vill láta oss segja. En vèr segjum ekki, eins og hann lætr oss segja, að Sonrinn sè *fæddr* af Föðurnum, því trúarjátningin segir, að hann sè *getinn,* en ekki *fæddr,* af Föðurnum. Og það sem meira er, vill hra M. E. láta menn trúa því, að vèr segim, að *Sonrinn* sè *fæddr* af Föðurnum á þann sama hátt sem allir synir, allir menn

eru *fæddir*. Og það er það, sem vèr með engu móti segjum[1], nei vèr erum alls ekki svo *vitlausir*, og ekki *hinir verstu vitfirringar*, sem hann segir að vèr sèim; vèr biðjum hann að fara dálítið hægra, og heyra, hvað vèr segjum (en vèr erum mjög hræddir um, að alt það er hann segir um oss, eigi einmitt heima hjá honum!) Vèr segjum, að *Guð*, eða hin *guðlega vera*, sè *eilíf;* en *Guðs vera* er ekki undirorpin neins konar breytingu, og því er hún frá eilífð það sem hún nú er; vèr vonum, að hra M. E. kannist við það, (eða er það ekki svo?); en hin *guðlega vera*, það er vor trú, er *fólgin* í *premr* persónum, og þannig er hin guðlega vera eða Guðdómrinn í þremr persónum frá allri eilífð; að öllu leyti svo, eins og trúarjátningin segir, er Faðirinn *eilífr sem Faðir*, eða *Faðir frá allri eilífð;* en aftr, ef Faðirinn er Faðir frá allri eilífð, þá er auðsætt, að Sonrinn er til frá allri eilífð, því Faðir er ekki til án sonar, eða er sólin, ef til vill, eldri en geislar hennar? Er rósin, ef til vill, eldri en ilmr hennar? Sanni hra M. E. það, ef hann getr, að nokkur vera geti verið *faðir án þess að hafa son,* sanni hann, að faðirinn í hinni H. Þrenningu hafi *byrjað* að vera Faðir, og þá skulum vèr játa, að Faðirinn, sem faðir, sè eldri en Sonrinn, og þá, að mótsögn eða vitleysa finnist í kenningu vorri. En hra M. E. getr auðsjáanlega með engu móti sýnt, að nokkur sè *faðir* án þess að hafa *son,* og þá verðr hann að leyfa oss að taka oss í munn hans eigin orð, og að snúa þeim upp á hann sjálfan, og segja honum: »*Að það sem getr eða fæðir . . . geti verið getandi eða fæð-*

1) Og orðið: getinn, sem trúarjátningin viðhefir um Soninn, í staðinn fyrir að hafa orðið: fæddr, hefði átt að láta hann skilja, að það er alt öðruvísi ástatt með Guðdóminn heldr en með menn.

*andi . . . áðr en það sem getið er og fætt (hvort sem það er andlegt eða líkamlegt) sè til, getr enginn óvitlaus maðr hugsað sèr, því það stríðir á móti öllum lögum heilbrigðra og skynsamra hugsana». Slíka vitleysu*, skulum vèr bæta við með hans eigin orðum, er snúa sèr sjálf upp á hann, *»slíka vitleysu geta því að eins þeir menn fallizt á, sem eru orðnir svo ruglaðir og formyrkvaðir í anda, að þeir álíta það, sem stríðir á móti allri skynsamlegri hugsun, fyrir æðri vísdóm og speki. Á þenna hátt sýna menn sig reyndar skiptingum heimskari»* (sjá M. E. bls. 37 og 38, neðanm.) og *það gjörir* hra M. E., *þegar hann segir,* að *Faðirinn* sem *Faðir* sè *eldri* en *Sonrinn,* eða að nokkur *geti verið faðir* án þess að *hafa son*[1]. Þannig eru, eins og hverjum manni

1) Hra M. E. gjörir mikið úr 2 stöðum í brèfum hins h. Páls, eins og hann útiloki á þeim stöðum hina H. þrenningu. Á öðrum af þeim stöðum 1. Kor. VIII, 6. segir, eftir hra M. E.: „Vèr höfum ekki nema einn Guð, Föðurinn, og einn Herra, J. K.“ Og út af þeim stað ætti, eftir skoðun hans, að eins Faðirinn að vera Guð, og Sonrinn Herra, en ekki bæði Herra og Guð, og postulinn ætti ekki að þekkja hinar 3 guðdómspersónurnar, er hver fyrir sig er Guð, og ekki 3 Herrar. Það er vissulega Sonrinn, sem hèr er sá eini Herra eða Drottinn, en kallar postulinn ekki Föðurinn Herra á ótal öðrum stöðum, eins og allir hínir helgu rithöfundar? Það er því auðsætt, að merking orðanna getr hèr ekki verið sú, að Faðirinn sè ekki Herra, og eins getr því ekki merking þessara orða: „vèr höfum ekki nema einn Guð Föðurinn“, verið sú, að J. K. sè ekki Guð; og þetta er annars auðsætt af þessum stað í heild sinni; hinn h. Páll er að tala um, að hjá heiðingjum sè margir guðir, og margir drottnar, „en vèr“, segir hann, „höfum ekki nema einn Guð, Föðurinn, frá hverjum alt er, og vèr honum (til dýrðar), og einn Drottin, J. K., fyrir hvern alt er, vèr einnig“. Á þeim stað er J. K. Drottinn eða Herra, og á ótal öðrum stöðum hjá hinum h. Páli er Faðirinn Herra, og þó er ekki nema einn Herra; af því leiðir, að trúarjátningin hefir einmitt tekið þau sömu orðatiltæki sem post-

er auðsætt, mótbárur þær, er hra M. E. styðr sig við, gegn leyndardómi hinnar H. Þrenningar, allar bygðar á vesællegum afbökunum á trú kristinna manna; taki menn kenningu vora, eins og hún liggr fyrir frá vorri hendi, og mótbárur hra M. E. detta undir eins um koll af sjálfum sèr.

Af því, er vèr þegar erum búnir að taka fram, er það auðsætt, að skírnarformálinn, er J. K. gaf lærisveinum sínum, er sönnun fyrir tilveru leyndardómsins um hina H. Þrenningu, hann sannar, að Guð sè *einn*, og að hann sè í *þremr* persónum; alveg eins sannar hann einnig guðdóm Drottins vors J. K. En mörgum af lesöndum vorum, er ekki þekkja til þess, hvernig hinir ótrúuðu fara að ráði sínu, kynni nú að virðast það gegna furðu, að hra M. E. hefir ekki með *einu orði* minzt á skírnarformálann, eins og á svo marga aðra staði, er vèr höfum þegar tilgreint og vitnað til, og vèr hèr á eftir munum tilfæra; en það er þó hægt að skilja það, er honum hefir gengið til þessa. Hann hefir nefnilega sèð fram á það, að hann gæti með engu móti komizt

---

ulinn viðhefir, eða hvað sýnist hra M. E.? Og þar sem postulinn segir: „vèr höfum ekki nema einn Guð, Föðurinn", þá útilokar hann ekki Soninn frá Guðdóminum; orðið Faðir, heyrir hèr til allra hluta, af því Faðirinn er uppruni allra hluta, eins Sonarins og H. Anda, eins og allra annara hluta. Og það sèst glögt af þessum orðum á þeim sama stað: „einn Drottin, J. K., fyrir hvern alt er". Í þeim orðum er tekið beinlínis fram, að J. K. hefir skapað alt, og því, að hann er Guð. En hvað kemr til þess, að hra M. E. hefir ekki tilfært þenna stað í heild sinni? Vèr þurfum ekki að tala um hinn staðinn (Ef. IV, 5, 6.), hann hljóðar þannig: „Einn Herra, ein trú, ein skírn, einn Guð og Faðir allra". Af þeim stað getr hra M. E. auðsjáanlega ekki dregið neitt á móti trúarlærdómi hinnar H. Þrenningar.

frá þýðingu þessara orða, og þess vegna hefir honum þótt það hagfeldara, að láta eins og þau væri ekki til. Sömuleiðis, að rangsnúa orðunum þegar þess er nokkur kostr, og að leiða hjá sèr og sleppa því, er ekki verðr rangsnúið eða útþýtt, það er sú aðferð, sem hra M. E. hefir valið sèr, hefir við og temr sèr, en vèr endrtökum það jafnframt, að slík aðferð er vansæmandi, svívirðileg og öldungis óhafandi meðal mentaðra manna, í hverju máli sem er, en þó einkum þá er ræðir um svo háleitt efni sem trúarbrögðin eru.

J. K. hefir í hinum 3 fyrstu guðspjöllum talað sem Guð, hann hefir með berum orðum sagt, að hann væri Guð. En mörg af kraftaverkum hans sanna á órækan hátt, að hann var Guð, og mörg af þeim gjörði hann auðsjáanlega til þess að sanna guðdóm sinn, og því ætlum vèr að velja nokkur dæmi af þeim, er finnast í hinum 3 fyrstu guðspjöllum. En vèr verðum fyrst og fremst að gjöra nokkrar athugasemdir.

Kraftaverkið er sýnilegt afbrigði frá almennum reglum hinnar sköpuðu náttúru; Guðs almætti kemr þar fram á óvenjulegan hátt. Guð, sem hefir skapað alt, lætr, yfir höfuð að tala, náttúruna stjórnast eftir þeim grundvallarlögum, er hann sjálfr hefir upphaflega tilsett, og hann haggar ekki þessum upprunalegu grundvallarlögum nema við einstakleg og hátíðleg tækifæri, þegar hann vill auglýsa mönnum dýrð sína og miskunsemi. Hann einn getr breytt sjálfr þessum lögum, er hann sjálfr hefir tilsett, og því er það ætíð Guð sjálfr, sem gjörir kraftaverkin, þegar þau eiga sèr stað, annaðhvort beinlínis sjálfr, eða óbeinlínis, með því að leyfa það helgum mönnum sínum, sem þá eru ekki annað en verkfæri hans, og því hafa hinir helgu menn, er gjörðu

kraftaverk, ætíð tekið það fram með berum orðum, að þeir gjörðu þau ekki í *sínu eigin nafni,* heldr í *nafni hans,* og fyrir *kraft hans,* er heldr í hendi sinni öllum lögum náttúrunnar, og einn getr breytt þeim frá fastsettri rás þeirra. En þau kraftaverk, er J. K. gjörði, hafa einstakleg einkenni, er honum einum eru eiginleg; hann gjörði þau án þess að biðja í *neinu öðru nafni,* með *sínum eigin krafti,* hann skipaði sjálfr, og í *sínu eigin nafni,* allri náttúrunni, og hún hlýddi honum eins og Herra sínum. Vèr höfum þegar sèð eitt af kraftaverkum hans, þ. e. lækningu hins limafallssjúka, og Kristr gjörði þetta kraftaverk í *sínu eigin nafni* og með *sínum eigin krafti,* til þess að sannfæra menn um, að hann hefði sjálfr fyrirgefið sjúka manninum syndirnar, og með því sannaði hann guðdóm sinn.

Lesi menn með athygli frásöguna um Jesú, er hann vakti son ekkjunnar í Naím upp frá dauðum. Jesús segir honum: »*Eg býð* þèr, ungi maðr, rís þú upp, og jafnskjótt *reis* sá *upp,* er dauðr var«.[1]

Lesi menn lækningu hins líkþráa manns; hinn líkþrái segir við Jesú: »*Ef þú vilt,* þá *getr þú* læknað mig. Jesús svarar: »*Eg vil,* vertu heill, og jafnskjótt *var hann heilbrigðr*«.[2]

Lesi menn frásöguna um dóttur Jaírusar. Jesús segir til hennar: »Stúlka, *eg skipa* þèr, rís þú upp, og jafnskjótt *reis hún upp*[3].

Vèr gætim vissulega tekið fram mörg önnur af þeim kraftaverkum, er J. K. gjörði, en þar eð það mundi ætíð verða það sama, þar eð vèr sjáum, að Jesús ætíð skipar *í sínu eigin nafni,* annaðhvort djöflunum, eða sjúkdómunum eða höfuðskepnunum o. s. frv., og að alt

1) Lúk. VII, 11—16. — 2) Mark. I, 40—45. — 3) Mark. V, 35—43.

hlýðir orði hans, þá sýnist oss ekki nauðsynlegt að tilfæra fleiri af kraftaverkum hans, vèr biðjum að eins menn að lesa með athygli nokkur af öðrum kraftaverkum hans, er vèr tilgreinum hèr í neðanmgr.[1].

Hèr er lítið sýnishorn af þeim kraftaverkum, er Jesús gjörði, en þar eð hann gjörði þau í *sínu eigin nafni* og með *sínum eigin krafti,* þá sanna þau á órækan hátt guðdóm hans.

Vèr höfum nú í fáum orðum tekið fram, hvernig hin 3 fyrstu guðspjöll tala um guðdóm Frelsara vors J. K. Vèr höfum einnig heyrt nokkur af orðum hans, og af þeim vitnisburðum, er hann gaf um sjálfan sig, rannsakað fáein af kraftaverkum þeim, er hann gjörði til þess að sannfæra menn um guðdóm sinn. En það er ekki, eins og vèr höfum þegar athugað, þessi eða þessi Ritningarstaðr tekinn út af fyrir sig, er gefr oss, í öllum sínum krafti, sönnun fyrir guðdómi hins mildiríka Frelsara vors, heldr eru það guðspjöllin í heild sinni, já frá upphafi til enda, er gefa oss þessa fullu sönnun. Vèr viljum nú spyrja hvern þann mann, er gæddr er heilbrigðri skynsemi, hleypidómalaus og óhlutdrægr: er það *rèttr* og *slèttr maðr,* eða að eins einhver *sannauðmjúkr Guðs þjónn,* einkum *trúr sendiboði Guðs,* sem fer svo feldum orðum: »hver er meðtekr þvílíkt barn í *mínu nafni,* hann meðtekr *mig,* en hver sem meðtekr *mig*... meðtekr einnig þann er mig sendi. Lofið manni að gjöra kraftaverk í *mínu nafni;* hver sem gefr yðr vatnsdrykk, vegna *mín,* vegna þess að þèr *heyrið Kristi til,* sannlega segi eg yðr, honum mun það *ekki ólaun-*

1) Mark. I, 21 eftirf.; IV, 39; V, 25; VI, 37; VIII, 4. —Mat. VIII, 31 eftirf.; XII, 13 og 22; XV, 22; XX, 30. — Lúk. IV, 39 eftirf.; VII, 7; XII, 11; XIV, 2; XVII, 12; XVIII, 35.

*að* verða«[1]. »Hver, sem týnir lífi sínu fyrir *mínar... sakir,* mun fá því borgið«[2]. »Hinir trúuðu: »skulu í *mínu nafni* djöfla út reka, tala nýjum tungum, taka upp höggorma; ef þeir drekka eitthvað banvænt, þá skal það þeim ekki granda; yfir sjúka skulu þeir hendr leggja, og mun þeim þá batna«[3]. »Ekki munu allir þeir, er til mín segja, Herra, Herra, koma í himnaríki, heldr þeir einir, er gjöra vilja míns himneska Föður. Á þeim degi munu margir segja til *mín*: Herra, Herra, höfum vèr ekki í *þínu umboði* kent, rekið djöfla út og gjört mörg kraftaverk. En *eg mun* segja þeim: aldrei *þekta eg* yðr, farið *frá mèr*«[4]. »Hver sem elskar föður eða móður *meir* en *mig,* hann er *mín ekki verðr*«[5]. »*Mannsins sonr* mun senda engla *sína,* og þeir munu samansafna úr *ríki hans*... þeim, er ranglæti fremja, og kasta þeim í ofn glóanda«[6]. »*Mannsins sonr* mun koma með dýrð síns Föður, og englum *sínum,* og þá mun *hann* gjalda sèrhverjum eftir hans verkum«[7]. »Hvar sem tveir eða þrír eru saman komnir í *mínu nafni,* þar vil *eg* vera mitt á meðal þeirra«[8]. »Hver sem helzt, sem yfirgefið hefir hús, systur, föður.... eðr eignir fyrir *mínar sakir,* mun... *öðlast eilíft líf*«[9], »því, sjá, *eg* mun senda til yðar spámenn« o. s. frv.«[10] »Alt er mèr af mínum Föður í vald gefið, og enginn þekkir *Soninn* nema *Faðirinn,* og enginn *Föðurinn* nema *Sonrinn,* og sá sem *Sonrinn vill* það auglýsa«[11]. »Himin og jörð munu forganga, en *mín* orð munu *ekki* forganga«[12]. »Vegna þessa segi *eg* þèr það, að hennar

1) Mark. IX, 36—40. — 2) S. s. VII, 35. — 3) S. s. XVI, 17, 18. — 4) Matt. VII, 21, 22, 23. — 5) S. s. X, 37. — 6) S, s. XIII, 41, 42. — 7) S. s. XVI, 27. — 8) S. s. XVIII, 20. — 9) S. s. XIX, 29. — 10) S. s. XXIII, 34. — 11) XI, 27. — 12) S.s. XXIV, 35.

mörgu syndir eru henni fyrirgefnar, með því hún elskaði svo mikið« (*hann sjálfan;* merking orðanna getr með engu móti önnur verið)[1]. »Sjá, *eg gef* yðr vald til að fótumtroða höggorma og sporðdreka, og alt óvinarins veldi«[2], »*Eg mun gefa* yðr málsnilli og vizku, sem allir mótstöðumenn yðar ekki munu megna að mótmæla«[3]. »Farið og kennið öllum þjóðum og skírið þær í nafni Föður og Sonar og Heilags Anda: og bjóðið þeim að gæta alls þess, er *eg hefi boðið* yðr; og sjá, *eg er* með yðr alla daga, alt til enda veraldar«[4]. Ef þessi orð J. K., og mörg önnur, er vèr gætim tilfært, innihalda ekki öll, ljósa, ákveðna, skýra og skorinorða yfirlýsingu á guðdómi hans, þá er það auðsætt, að menn geta ekki fundið neina hugsun í neinum orðum. Og ef þessi orð kæmi fram í nokkurs annars munni en hins Alvalda og Eilífa Guðs, þá gæti þau ekki verið skoðuð öðruvísi en hið argasta guðlast, er hugsazt getr. Og því er það, að enginn hefir misskilið merkingu þessara orða, og mikilvægi þeirrar yfirlýsingar, er þau gefa, hvorki Gyðingar, er vildu grýta Jesú, af því hann »kallaði sig *Son Guðs,* og gjörði sig Guði jafnan«, sögðu þeir[5], nè hinn æðsti dómsrèttr, er kallaði upp fyrir munn Kaífasar: »hann (Jesús) guðlastar«! nè hinn kristni heimr, er hefir nú meir en í 18 aldir fundið í þeim orðum og í þeirri yfirlýsingu hina öflugustu fullvissu og undirstöðu fyrir trú sinni, og aðalhuggun sína, nei, enginn hefir misskilið þessi orð J. K. nema nokkrir villutrúarmenn á hinum fyrstu öldum Kristninnar, eins og Aríustrúarmenn o. s. frv., og á hinum seinustu 3 öldum margir meðal Prótestanta, eins og Socin og

1) Lúk. VII, 35. — 2) S. s. X. 19. — 3) S. s. XXI, 15. — 4) Matt. XXVIII, 19, 20. — 5) Jóhan. X, 18; V, 33.

fylgismenn hans, og aðrir þeirra líkar, svo að segja allir úr flokki Mótmælanda, og seinast hra M. E.

Þessir Ritningarstaðir, er vèr höfum talið og tekið fram, og mikill fjöldi annara staða, leiða allir til sömu ályktunar og niðrstöðu, er vèr höfum komizt að, og það sè það 1., að hin 3 fyrstu guðspjöll kenna oss með ljósum orðum guðdóm Frelsara vors J. K. 2., að hinn góði Frelsari vor kennir oss sjálfr skýlaust, að hann sè Guð með því *a*) hann talar eins og Guð og sannar, að hann sè það, og með því *b*) hann sannar orð sín með órækum kraftaverkum, er hann gjörir í *sínu eigin nafni* og með *sínum eigin krafti.* Allar yfirlýsingar, er J. K. gefr um guðdóm sinn, eru svo ljósar í hinum 3 fyrstu guðspjöllum, að þær renna, ef menn mega svo að orði kveða, eins og straumr af hans munni; það er sól, er kunngjörir sig fyrir hvern af geislum hennar; og að halda nú því fram, að Kristr hafi aldrei haft þá heilögu dirfzku, að kalla sig Guð, það er því hin mesta og hræðilegasta ósvífni, er komið hefir nokkru sinni fram. Og það er því öldungis fráleitt og hlægilegt að segja mönnum, eins og hra M. E. gjörir, »að hin 3 fyrstu guðspjöll *viti ekki neitt um,* að *Kristr* .... hafi *verið Guði jafn*« (bls. 4.), eða að »Kristr, yfir höfuð að tala, sè *allr annar* í Jóhannesarguðspjalli en í hinum þremr fyrri« (bls. 2.), eðr og, að Kristr, í þeim sömu guðspjöllum, »setji sig *aldrei* við *hliðina á Guði*« (bls. 3. og víðar), og svo margt annað, er kemr víða fyrir í bók hans.

Þannig hefir J. K. talað eins og Guð og lýst yfir því, hvað sem hra M. E. segir, að hann sè Guð, og hann hefir fært sönnur á orð sín. En ef J. K. er ekki Guð, þá hefir hann annaðhvort dregið sjálfan sig eðr

mannkynið á tálar. Dirfist nú hra M. E. að segja, að J. K. hafi táldregið mannkynið? Nei! því hann kallar Jesú *»sannauðmjúkan Guðs þjón«* o. s. frv. Þorir hann að segja, að Kristr hafi dregið sig sjálfan á tálar? það er ekki fremr mögulegt en hitt, og að öðru leyti hefði Guði, ef J. K. væri ekki Guð, yfirsèzt mjög svo, þá er hann sendi hann í heiminn, þar sem hann hlaut að sjá það fyrir í vísdómi sínum, að Kristr mundi tala og kenna eins og hann gjörði, og að kristnir menn mundi þegar fara að tilbiðja hann eins og Guð og að »leggja *flekkóttar bætr úr heiðnum heilaspuna* á þenna hvíta kyrtil hinnar einföldu trúar«, (M. E. bls. 63.) og þá hefði Guð ekki átt að senda J. K. til að kenna þá trú, er ekki lá annað fyrir, en að breytast skömmu síðar í hræðilegt fleirgyði.

2. Atriði. *Postulanna Gjörningabók og brèf hins h. Páls postula sanna guðdóm J. K.*

Hra M. E. dirfist að fullyrða bls. 12, »að höfundr 4. guðspjallsins gjöri Krist að *allri annari veru* en hann auðsjáanlega var eftir hinni fyrstu kenningu Postulanna«, og hann segir margt því um líkt. Vèr höfum nú þegar heyrt og sèð, hver að sè kenning hinna 3 fyrstu guðspjalla um J. K., og þetta gefr án alls efa mönnum að skilja, hvað Postularnir hafi kent í þessu efni, og það er óhætt að fullyrða, að ekkert sè eins frábrugðið og gagnstætt kenningu þeirra um J. K. eins og það, sem hra M. E. hefir haft dirfsku til að bera á borð fyrir lesendr sína, og boða mönnum sem óbrigðul sannindi. Vèr gætim að vísu látið hèr staðar nema, því röksemdir þær og sannanir, er vèr erum búnir að tilgreina úr G. T. og hinum 3 fyrstu guðspjöllum, eru þess eðlis, að þeim verðr eigi hrundið. En vèr viljum

ekki, að hra M. E. geti ímyndað sèr, að vèr sèim hræddir við að rannsaka með honum hinar h. Bækr. En gjörum fyrst eina athugasemd.

Á bls. 63., 64., 65. o. s. frv. neitar hra M. E. vissulega því, að menn eigi að biðja, eða geti beðið í *Jesú nafni*, því þó hann gjöri það ekki með þeim sömu orðum, er vèr viðhöfum hèr, er það þó merkingin í öllum orðum hans á þessum blaðsíðum, og reyndar víðar í bók hans. En hann þykist þó *bjóða* mönnum hina *sömu* kenningu, er Postularnir fluttu, því hann segist »álíta alt, sem *stríðir móti hinni* einföldu *upprunalegu kenningu Postulanna, ókristilegt* og *falsað*«[1]. En vèr skulum sjá, að Postularnir gjörðu svo að segja alt og hvað eina í *Jesú nafni!* Þessi orð »*í Jesú nafni*« koma fram í Postulanna Gjörningabók og í brèfum hins h. Páls *meir* en *45 sinnum (!)* og ætíð í hinni sömu merkingu, að Postularnir annaðhvort *biðja* eða *gjöra eitthvert verk* í *Jesú nafni*[2].

Til þess að sanna, að »4. guðspjallið gjöri Krist að *allri annari veru* en hann auðsjáanlega er, eftir hinni fyrstu kenningu Postulanna«, bendir hra M. E. sèr í lagi til ræðna hins h. Pètrs[3], og vèr skulum því byrja með því að fara fáum orðum um þessar ræður. En hra M. E. verðr að leyfa oss að spyrja hann að einu, og það er, hvort hann einu sinni þekkir þessa staði (þ. e. ræður h. Pètrs), er hann nefnir hèr, og lætr öldungis eins og hann vildi vitna til þeirra til þess að sanna mál sitt! Vèr getum ekki betr sèð en að hra M. E. geti að eins fundið eitt eða tvö orð í ræðum hins h. Pètrs, er hann, ef til vill, *getr ímyndað sèr* að

---

1) Bls. 12. þarna er hann mjög góðr og sannkristinn maðr!! — 2) Og það var, að öðru leyti, eftir K. boði. — 3) Bls. 12.

styðji málstað hans; og vèr skulum undir eins rannsaka þessi tvö orð; þau standa í 2. ræðu h. Pètrs[1]. Í þessari ræðu kallar h. Pètr J. K. »*mann*«, hann segir, að Guð hafi »*uppvakið hann* frá dauðum«, og *gert að Drottni og að Kristi þenna Jesú*«. En köllum vèr, kristnir menn, ekki J. K. *mann?* Og þegar vèr skoðum hann sem *mann*, getum vèr þá ekki sagt, að Guð hafi vakið hann upp frá dauðum, og gert hann að *Drottni* og að *Kristi?* Er nokkur mótsögn í því? Nei alls ekki; mótsögnin ætti sèr stað hèr, ef vèr tryðim því ekki, að í J. K. sè tvö eðli, hið guðdómlega og hið mannlega; og því getr hinn h. Pètr vel (og vèr með honum) þannig komizt að orðum; og með þessum orðum útilokar hann á engan hátt guðdóm J. K., og gjörir hann heldr ekki »að *allri annari veru* en 4. guðspjallið«, er oft kallar hann einnig *mann*, og heimfærir til hans mannlega eðlið, alt er mannlegt er, nema syndina; og í þessu getr engin mótsögn verið, ekki fremr en að segja, að í Kristi sè sameinað bæði hið guðdómlega og hið mannlega eðli[2]. En hinn h. Pètr kall-

1) Post. Gjörn. II, 14 og eftirf. og í nokkrum öðrum ræðum h. Pètrs. — 2) M. E. tínir (bls. 5 neðanm) til marga Ritningarstaði (16 að tölu!) og tilgreinir þá alla til að sanna, að „Guð hafi vakið Jesú upp“, en hví lætr hann svo? Segjum vèr ekki það sama? Það er því öldungis eins og hann væri að sanna gegn oss, að Guð sè til, eða að J. K. sè maðr! En þetta er þó hjá honum ekki svo vitlaust, sem það, að fyrsta áliti, sýnist að vera. Þetta er hjá honum vesalleg undirhyggja; hann vill skifta um hlutinn, og reyna, án þess menn verði þess varir, að hlaupa fram hjá því, er hann einmitt ætti að sanna, og þ. e., að vèr getim ekki sagt, án þess að mótsegja oss sjálfum, að Guð hafi vakið Jesú upp, og undir eins að Jesús hafi vakið sig upp sjálfr, og þar eð hann ekki getr fært sönnur fyrir því, þá kemr hann með margar greinir, er sanna hitt, sem hann alls ekki þarf að sanna. Já vèr segjum, þegar

ar alls ekki, hvorki í þessari ræðu nè á öðrum stöðum, J. K. *rèttan* og *slèttan mann,* og útilokar með engu móti guðdóm hans, og getr hra M. E. enga ályktun dregið úr orðum h. Pètrs málstað sínum til sönnunar.

vèr skoðum Jesú, sem mann, að Guð hafi reist hann upp; en J. K. er ekki að eins maðr, hann er líka Guð, ein af þeim 3 persónum hinnar H. þrenningar, og þar eð Guðdómrinn er einn, þó hinar guðlegu persónur sè 3, þá er auðsætt, að hver þeirra gjörir það, sem ein af þeim gjörir, og því getum vèr sagt, að Jesús hafi vakið sig upp sjálfr, jafnvel þó vèr ekki fyndim annað í N. T. en það, að Guð hafi vakið hann upp. En er það satt, eins og hra M. E. segir (bls. 4., 5., 6.), að það standi ekki nema í 4. guðspjallinu, að Jesús hafi reist sig upp sjálfr? þekkir hra M. E. ekki þá staði hjá Matt., XXVI, 61, og Mark. XIV, 58., þar sem hinir hræsnisfullu óvinir Jesú gefa honum það að sök, að hann sagði, að hann mundi brjóta niðr musteri Guðs, og æsa með því fólkið upp á móti honum? Eða er þar ekki beinlínis bent á þenna stað í 4. guðspjallinu (II, 19, 20, 21): „brjótið niðr þetta musteri, og eg mun reisa það á 3 dögum . . . og hann (J.K.) talaði um musteri síns líkama"? Er það ekki auðsætt, að þó Matt. og Mark. ekki tæki fram þessi orð J. K., gjöra þeir ráð fyrir, að hann hafi talað þau? og taka þeir það ekki fram, að Gyðingar hafi borið ljúgvitni á móti Jesú, með því að láta hann tala um Musteri Guðs, það er hann sagði um sinn líkama? Og þar eð svo er nú ástatt, að Matt. og Mark. gjöra auðsjáanlega ráð fyrir, að Jesús hafi talað þessi orð, þá er það aftr auðsætt, að þegar hinir h. „Rithöfundar segja um K. (eða láta hann segja): að hann muni rísa upp á 3. degi" (Lúk. XVIII, 33 og víðar), þá er auðsætt, segjum vèr, að menn geta skilið þessi orð þannig, að þeir tákni með þeim, að Jesús muni reisa sig upp sjálfr, og þá getum vèr, á móti þeim 16 stöðum, er hra M. E. kemr með, borið fyrir oss meir en 30 Ritningarstaði úr hinum 3 fyrstu guðspjöllum, úr Post. Gjörn. og úr brèfum hins h. Páls. En hvernig hefir hra M. E. getað sagt, að að eins 4. guðspjallið tali um það, að K. hafi getað reist sig upp sjálfr, því hvað sem öllu líðr, verðr hann að útskýra þessi orð hjá hinum h. Matt. og Mark.: að K. mundi byggja aftr musteri líkama síns; og hann verðr að sanna, að mótsögn sè í því að segja, að K. sè undir eins Guð og maðr, eða, sem er öldungis það sama, að Guð

En hefir hra M. E. ekki gleymt því að lesa þessa 2. ræðu h. Pètrs frá upphafi til enda? Heimfærir postulinn ekki upp á J. K. þessi orð Davíðs: »Ætíð hefi eg Drottin fyrir augum mèr«. En hvernig gat Davíð *ætíð haft Drottin Jesú fyrir augum sèr,* ef J. K. er að eins *óbreyttr maðr* og ef hann, eins og hra M. E. kemst að orði, »hefir *ekki verið til á nokkurn hátt, áðr* en hann fæddist af Maríu mey?«[1] Vèr biðjum hra M. E. að gjöra svo vel, að útskýra það fyrir lesöndum sínum. En til þess að hjálpa honum, biðjum vèr hann að taka eftir því, að h. Pètr í hinni sömu ræðu heimfærir líka upp á J. K. þessi merkilegu orð hins sama spámanns: »Drottinn sagði mínum Drottni: Set þig mèr til hægri handar« o. s. frv.[2], og gleymi hann heldr ekki að athuga það, er h. Pètr segir við menn, er hann á tal við: »hver yðar láti skíra sig *í nafni J. K.* til fyrirgefningar syndanna. Þá munuð þèr öðlast gjöf H. Anda«. Heldr hra M. E., að hinn h. Pètr hafi viljað ráða mönnum að helga sig og helga þá sjálfr öðrum en Guði?[3]

Ekki getum vèr sèð, að hra M. E. geti fundið eitt

---

hafi reist hann upp, og að hann hafi reist sig upp sjálfr. Og hra M. E. hefði gert betr að útskýra það, heldr en að skamma menn út, og það alveg ástæðulaust, eins og hann gerir optast nær.

1) Bls. 4. — 2) Gleymi hann ekki því, er vèr sögðum áðr, að J. K. vitnaði sjálfr í þenna stað, til þess að sanna guðdóm sinn. — 3) Origenes († 253) útskýrir þessi orð „að skíra í Jesú nafni". Þegar hann er búinn að sanna, að menn eigi að skíra í „nafni Föður og Sonar og H. Anda", þá bætir hann við: „það er tíðkan postulans að tilgreina ekki, þegar hann vitnar í einhvern Ritningarstað, staðinn í heild sinni, heldr að eins það úr honum, er þurfti til þess að leiða sönnur á það mál, er um var að ræða, eins og á sèr stað hèr" (In. Ep. ad. Rom. l. V, n. 8.). Það sama segir h. Cyprían, († 258) í hinu merkilega brèfi sínu til Jubaianus', (Ep. LXXIII).

einasta orð í hinni 1. ræðu h. Pètrs, er geti gefið honum ástæðu til að fara því fram, með nokkrum sanni, að hinn h. Pètr »*gjöri Krist að allri annari veru* en 4. guðspjallið, því hægt væri að finna í þessari ræðu hið gagnstæða, þar eð spádómar Davíðs eru þar heimfærðir upp á J. K., eins og hver og einn getr sèð, er gjörir sèr ant um að lesa þessa ræðu[1].

Vèr biðjum hra M. E. að lesa með athygli hina 3. ræðu h. Pètrs, og segja svo með hjartans einlægni, hvort hann geti úr henni fengið eitt einasta orð, er styðji málstað hans[2]. Í þessari ræðu gjörir h. Pètr fólkinu grein fyrir lækningu manns þess, er »haltr var frá móðurlífi»; »starið þèr eigi á okkr» segir hann við fólkið, eins og við hefðim af sjálfskrafti ... áorkað, að þessi gengr. Guð feðra vorra hefir vegsamað *son sinn Jesú*». Menn verða að gæta þess, að h. Pètr sagði við hinn halta mann: »*Í nafni J. K.* frá Nazaret, statt upp og gakk». Og vèr biðjum menn að muna það, er vèr sögðum áðan, að Guð einn getr gert kraftaverk og þar eð hinn h. Pètr gjörir þetta kraftaverk með því að eins að ákalla *Jesú nafn,* sannar hann með því, að J. K. sè Guð. Og það er annars auðsætt af allri þessari ræðu hans, að hann skoðar J. K. sem Guð, þar eð hann kallar hann (er hann hefir áðr sagt að vera *Guðs Son)* hinn *Rèttláta,* hinn *Heilaga,* og *höfund lífsins.* En hver getr verið hinn *Rèttláti,* hinn *Heilagi, höfundr* lífsins, nema Guð einn?

Í hinni 4. ræðu sinni[3], er hann er að verja sig fyrir ráðinu, segir hinn h. Pètr öldungis það sama,

---

1) Post. Gjörn. I, 15—22. — 2) Hún finst í Post. Gjörn., III, 12—26. — 3) Hra M. E. getr fundið hana í Post. Gjörn., IV, 8 —12.

nema hvað hann bætir því við, að þessi J. K. frá Nazaret, í *nafni hvers* hann gjörði þetta kraftaverk, sè sá *steinn*, er byggingarsmiðirnir (Gyðinga prestar og hinir skriftlærðu) einkis mõttu, og sè nú orðinn að *hyrningarsteini*, og »af engum öðrum, segir hann, er hjálpræðis að vænta, því meðal manna gefst ekki nokkur annar .... fyrir hvers fullting oss sè ætlað hólpnum að verða». Og *Ráðið* bannar þeim Pètri harðlega »að kenna í *Jesú nafni*. En Pètr og Jóhannes svöruðu þeim: »Dæmið sjálfir, hvort það sè rètt fyrir augum Guðs að hlýðnast yðr fremr en Guði». Og því sama svörum vèr hra M. E.: Vèr sjáum hèr, að hinn h. Pètr gjörir kraftaverk í *nafni J. K.*, kallar hann hinn *Rèttláta*, hinn *Heilaga* o. s. frv., segir, að »af engum öðrum sè hjálpræðis að vænta»; eigum vèr þá að hlýðnast Guði, er segir oss alt þetta sjálfr, því Pètr, er hann talaði þessi orð, var »fullr af h. Anda»[1], eða hra M. E., er segir oss, að það sè »*villa* og *lygi*» að *ákalla* Guð í *Jesú nafni*, og að *biðja* í *Jesú nafni*, það sè eins og að »*drekka óhreint vatn*, fult af saurindum eða banvænum efnum»[2].

En vèr grátbænum hra M. E. að lesa með athygli hina 5. ræðu h. Pètrs[3]; í henni segir Postulinn, að hin kristilega kenning »boði *frið* fyrir *J. K.*, sem að er *Drottinn allra*»; og meðal annars segir hann enn fremr, að »um *Jesú* vitni *allir* spámenn, að fyrir *hans nafns sakir* fái hver, sem á *hann trúi, synda kvittun*». Getr hra M. E. ekki fengið öfluga röksemd úr þessum orðum málstað sínum til sönnunar?

Nú kemr hin 6. ræða h. Pètrs[4]; í henni ver hann samneyti sitt við heiðingja; og þar tekr hann fram, að

---

1) K IV, 8. — 2) Bls 64. — 3) Hann getr fundið hana í Post. Gjörn., X, 34 og eftirf. — 4) Kap. XI.

Kornelíus hafi sèð engil, er sagði honum: »láttu sækja Símon Pètr... Hann mun segja þèr þau sannindi, er munu gjöra þig og alt þitt hús hólpið«. Og þessi sannindi eru, eins og vèr höfum sèð, að Pètr *boðaði* honum *frið fyrir J. K.*, sem er *Drottinn allra* o. s. frv. Og loks er eftir hin 7. ræða h. Pètrs á þíngi því er Postularnir hèldu í Jórsalaborg, og þar segir hann: *Vèr trúum* því, að *vèr verðim hólpnir* fyrir *náð Drottins Jesú*«[1]. Og ekki getum vèr skilið betr, en að þessi orð, er vèr tilfærum úr ræðum hins h. Pètrs, sanni lítt, eða heldr engan veginn, málstað hra M. E. En hvað kemr nú til þess, að hann ekki hefir tilfært hina tilvitnuðu staði í heild sinni? hvað kemr til þess, að hann jafnvel ekki hefir tilgreint þá, sagt hvar þá væri að finna? Því hefði hann gert það, þá hefði verið hægra að dæma um það, hvort hann hefði rètt mál að verja. Nei, ekki hefir hann gert það. Vèr sjáum vel, hvað undir þessu liggr; hann hefir hugsað, að þeir mundi fáir verða, er mundi fara að leita allra þessara staða, og þetta fyllir þá töluna í augum þorrans og hra M. E. stærir sig af því, að hinn h. Pètr tali í ræðum sínum um J. K. eins og *hann*, og »gjöri Endrlausnara vorn að *allri annari veru*, en 4. Guðspjallið«! Og þá þykist hann vera búinn að ná því, er hann ætlar sèr[2]! En vèr sjáum, að hinn h. Pètr hefir ekki að

1) Kap XV, 7. og eftirf. — 2) En vèr munum ekki láta honum haldast uppi að villa sjónir manna með slíkri undirhyggju, heldr ætlum vèr að gjöra óskammfeilni hans heyrum kunna. Aðferð hans hèr er engu betri en sú, sem vèr höfum þegar tekið fram, þar sem hann rangfærir kenningu vora. Eins og hèr stendr á, vill hann fá menn til að trúa því, að hinn h. Pètr hafi kent, að J. K. sè ekki Guð; en hví tilgreinir hann ekki öll þessi orð postulans í heild sinni? Ef þau sanna mál hans, þá hefði hann getað talað djarft úr flokki!

eins kent guðdóm J. K. og í *nafni hans;* því vèr höfum þegar sèð, að hann læknaði hinn halta mann í *nafni J. K.* Eins segir hann Eneasi hinum limafallssjúka: »*J. K. læknar* þig, stattu upp...; og jafnskjótt stóð hann upp«[1]. Heyrum einnig á orð hins h. píslarvotts Stefáns; Gyðingar ásækja hann. »En hann, *fullr af H. Anda,* horfði til himins og leit Guðs dýrð, og Jesú standa við Guðs hægri hönd«, öldungis eins og spámaðrinn Davíð hafði sèð hann. Og er Gyðingar grýta hann, ákallar hann hann með þessum orðum: »Drottinn Jesú, meðtak þú minn anda«[2].

Allir þekkja, hvernig Sál snerist til kristilegrar trúar, og varð Páll postuli;[3] það eru kraftaverk á kraftaverk ofan, er *Jesús Kristr* gjörir *sjálfr* til þess að Páll prèdiki *hans nafn* fyrir heiðnum þjóðum; og því tekr Postulinn þegar að kenna, að Kristr »væri *Sonr Guðs*[4].

---

Hvernig stendr á því, að hann forðast að tilgreina þau, eins og heitan eld? það kemr auðsýnilega af því, að hann hefir sèð fram á það, að þeir Ritningarstaðir, er hann í ofdirfsku sinni vitnar í, og vill sanna með mál sitt, einmitt mundi brjóta orð hans á bak aftr (eins og vèr höfum sèð). Og því fer hann ekki lengra út í það, heldr segir svona fortakslaust (sèr er hver sönnunin!): „Sjá ræður Pètrs í Post. Gjörn."! (bls. 12). því hann hefir gengið að því vísu, að allr þorri lesanda ekki mundi ímynda sèr, að hann færi með svo blygðunarlausa undirhyggju. Að öðru leyti ætlast menn til þess af hverjum rithöfundi, að hann hafi einhvern snefil af ráðvendni og siðferðislegu velsæmi; og því næst er það, að þegar lygðin og undirhyggjan fer svona fram úr öllu hófi, þar sem þó er svo hægt að komast að hinu rètta, þá renna menn eigi grun í þá ósvífni, er á botninum liggr, og í þessu hróksvaldi skákar M. E.!

1) S. s. IX, 34. — 2) S. s. VII, 55. og 59. — 3) S. s. IX, og víðar. — 4) S. s. 20. Ὁ υἱὸς τοῦ Θεοῦ, öldungis í hinni sömu merkingu, er vèr höfum þegar tekið fram, er vèr töluðum um þessi sömu orð í hinu G. og hinu N. T., það er, að Jesús sè, einka-

Og upp frá því »var Páll handgenginn lærisveinunum í Jerúsalem og kendi með djörfung í *Drottins Jesú nafni*«[1].

Og þegar hann læknar þernu nokkra í Thýatíraborg, er var djöfulóð, segir hann við andann: »Eg skipa þèr í *nafni J. K.*, að þú farir út af henni; og hann fór út á samri stundu«[2]. Og þegar myrkvastofuvörðrinn spyr þá Pál og Sílas, hvað hann ætti að gjöra til þess að verða hólpinn, þá svara þeir: »trúðu á Drottin J. K.« og síðan segist þessi sami maðr vera »glaðr yfir því, að hann trúði á Guð«[3].

Vèr sjáum því, að Postularnir kenna í *Jesú nafni*, gjöra kraftaverk í *Jesú nafni*, útbreiða dýrð hans um allan heim, þeir þola fyrir hann og í *hans nafni* alls konar þjáningar, þeir fyrirgefa syndirnar í *hans nafni*, þeir segja, að »af engum öðrum sè hjálpræðis að vænta«. Og hra M. E. dirfist að kenna mönnum, eins og það væri heilög sannindi, að menn megi ekki biðja í *Jesú nafni!* að það sè *villa* og *lygi!* að það sè sem »*að drekka óhreint vatn*, fult af *saurindum eða banvænum efnum*«*!* Og hann þykist halda sèr við hina *upprunalegu kenningu Postulanna*«*!* En þektu Postularnir ekki G. T.? Og sjáum vèr ekki, að þetta orðatiltæki, að gjöra alt í *Jesú nafni*, er kemr fyrir meir er 45 sinnum í Postulanna Gjörningum og í brèfum hins h. Páls, hefir í munni þeirra öldungis hina sömu þýðingu sem í G. T. orðin «í *Guðs nafni*«? Og í hinu G. T. var *alt* gert í *Guðs nafni* (sjá einkum Davíðs sálma). *Hans eins nafn* er lofað og vegsamað; »hjálpa þú oss,

---

sonr Guðs, af því sama eðli sem hann, og því Guð eins og hann. Grískn orðin verða með engu móti öðruvísi skilin.

1) S. s 28. — 2) S. s. X, 18. — 3) S. s. 30 og 34.

Guð, vegna *heiðrs þíns nafns* «(Sálm. 78)[1]. »*Hans nafn alleina* er hátt upp hafið«[2]. »Eigi oss, Drottinn, eigi oss, heldr *þínu nafni sè heiðr*«[3]. Og á svo mörgum öðrum stöðum. Postularnir vissu án efa, að hinum rètttrúuðu var boðið að vegsama *Guðs nafn*; því hann segir: »til þess að *mitt nafn kunngjörist* um alla veröld«, og harðlega bannað að vegsama neitt *annað nafn*, og einkum að ákalla það. »Ef einhver spámaðr dirfist í *mínu nafni* að tala eitthvað það, er eg ekki lagði fyrir hann, eða spáir, í *annarlegra guða nafni*, sá spámaðr *skal* deyja«[4]. Postularnir þektu þessi orð og mörg önnur, og þó kenna þeir *trúna á Jesú nafn, ákalla hans nafn, prèdika hans nafn öllum* þjóðum! Gjöra kraftaverk í *hans nafni*, og svo margt annað, eins og vèr höfum þegar sèð. Og segir ekki hinn h. Páll: »Nú eruð þèr þvegnir, helgaðir og *rèttlættir* fyrir nafn Drottins Jesú«?[5] og segir hann ekki: »Guð hefir gefið honum *nafn*, er *öllu nafni er æðra*, svo að öll knè skuli beygja sig fyrir *Jesú nafni*, bæði þeirra, er á himni eru, og á jörðu, og neðan jarðar?[6] Hvernig hefði nú Postularnir getað talað og kent, eins og þeir gjörðu, hefði þeir vitað og verið sannfærðir um, að J. K. væri ekki *ein* og *sama vera með Guði*? Þeir hefði auðsjáanlega verið þeir spámenn, er í *nafni Guðs* hefði talað það, er hann hafði ekki lagt fyrir þá, og sem

---

1) Hinn XXXIX, í íslenzkum Biblíum, 9. — 2) CXLVIII, 13. — 3) CXV, 1. — 4) 2. b. Mós. IX, 16. — 5) I. Kor. VI, 11. Í Oxfords útgáfunni stendr: „... rèttlættir fyrir J. K.“, en gríski textinn hefir ... rèttlættir í nafni Drottins Jesú. ἐν τῷ ὀνόματι τοῦ Χυρίου Ἰησοῦ. — 6) Filipp. II, 10. Oxfordsútgáfan hefir orðið tign í staðinn fyrir: nafn, er stendr í gríska textanum: Θεὸς ... ἐχαρίσατο αὐτῷ ὄνομα τὸ ὑπὲρ ...

hefði spáð í *annarlegra guða nafni,* og sem því væri *dauða sekir«?* Vèr spyrjum nú hvern þann mann, er gæddr er heilbrigðri skynsemi: hvernig getr hra M. E. haft þá dirfsku að segja, þegar svona er ástatt, að hann haldi sèr við hina *upprunalegu* kenningu Postulanna«? Hvernig getr hann sagt, að það, að *biðja í Jesú nafni* sè sama sem að *»leggja flekkóttar bætr úr heiðnum heilaspuna á hvítan kyrtil hinnar einföldu trúar«?*

Vèr ætlum nú að biðja hra M. E. að hugleiða með athygli þessi orð hins h. Páls til prestanna og byskupanna í Efesus, er saman voru komnir á hans fund; hann segir þeim: »Hafið nú gát á sjálfum yðr og á allri hjörðinni, er H. Andi setti yðr byskupa yfir, til að stjórna *Kirkju Guðs,* sem hann hefir *útvegað sèr með sjálfs síns blóði»*[1]. Þessi staðr er mjög skýr sönnun fyrir því, að J. K. sè Guð, því hèr er Kirkjan kölluð *Kirkja Guðs,* og J. K. kallar hana *sína Kirkju,* er hann segir: »á þessari hellu *mun eg* reisa *Kirkju mína»*[2]. Kirkjan er Kirkja Guðs, og hún er Kirkja J. K., og því

1) Post. Gjörn. XX, 28. Í Oxforðsútgáfunni stánda þessi orð: „Söfnuð Drottins“ í staðinn fyrir: „Kirkju Guðs“. (Vèr ætlum ekki að tala um orðið Söfnuð, er þeir ætíð við hafa í þessari útgáfu, þar sem ætti að vera Kirkja, sem þó er alt annað). En hvers vegna hafa þeir haft orðið: Drottinn, þar sem ætti að vera: Guð? Hvers vegna hafa þeir ekki fylgt öllum hinum gömlu íslenzku útgáfum? Og svona stendr þó í flestöllum þeim handritum H. Ritningar, sem eru með smáletri, og í þeim stórletrs handritum, er einkend eru með bókstöfunum B, G, og H, sem og í hinum mjög gömlu sýrlenzku og latínsku útgáfum. Og að öðru leyti er það eptirtektavert, að hinn h. Páll segir aldrei: „Kirkja Drottins“, þar sem hann þó viðhefir 13 sinnum: „Kirkja Guðs“. Vèr tölum heldr ekki um orðið: „tilsjónarmenn“, er þeir hafa í hinum nýju íslenzku útgáfum, þar sem hinar gömlu, er þýða rètt eftir grískunni, hafa orðið byskupa. — 2) Matt. XVI, 18.

er J. K. Guð. Enn fremr er hèr tekið fram, að sá, hvers Kirkjan er, hafi »útvegað sèr hana með sjálfs síns blóði»; þ. e. vissulega J. K., er hann dó fyrir mannkynið og útvegaði sèr þannig sína trúuðu, er meðlimir eru Kirkju hans, þessarar Kirkju, er hann sjálfr hefir stofnsett. Þessi staðr er ljós og skýr. En hvernig stendr á því, að hra M. E. skyldi dirfast að segja, að *»slíkt komi aldrei fyrir hjá Páli um Krist»*, þ. e. að hann *kalli hann Guð*[1]. En gjörir hann það ekki með berum orðum á þeim stað, er vèr höfum tilfært hèr? því sá er þó *Guð,* eftir þeim stað, hvers *Kirkjan er,* og sá, hvers *Kirkjan er,* hefir *»útvegað sèr hana með sjálfs síns blóði»,* og hver hefir gert það nema J. K.?

En þó nú hinn h. Páll aldrei hefði kallað J. K. *Guð,* hvað gæti hra M. E. ályktað þar af máli sínu til sönnunar? Alls ekkert. Þar sem hinn h. Páll, á mörgum stöðum, *tileinkar,* J. K. þá eiginlegleika og athafnir o. s. frv., er ekki *heyra* nema *einum Guði til,* þá felst þar í hin fylsta og órækasta sönnun fyrir guðdómi Endrlausnara vors. Og þó vèr hefðim ekki annað, en það, er vèr höfum þegar tekið fram, af því sem hinn h. Páll sjálfr og allir Postularnir trúðu, kendu og gjörðu, væri það ekki nægileg ástæða, er gefi oss fulla heimild til að segja, að Páll postuli hafi kent guðdóm J. K.? En það eru miklu fleiri staðir hjá postulanum, er á órækan hátt sanna þenna sannleika, og vèr ætlum að tilfæra nokkra af þeim stöðum úr brèfum hans. Hann ritar til Filippiborgarmanna[2]: »þótt hann (J. K.) væri í *Guðs mynd,* skoðaði hann það eigi sem herfang, að hann var *jafn Guði,* heldr lítillætti sjálfan sig, með því að hann tók á sig þjóns mynd, *gjörðist mönnum líkr* og reyndist að

1) Bls. 58. neðanm. — 2) II, 6.

ytri háttsemi sem maðr, o. s. frv. Til hinna sömu manna ritar hann enn: það sem (áðr) var mèr ávinníngr, met eg nú tjón *sakir Krists,* já, eg álít alt fyrir tjón, hjá því ágæti, að fá *þekkingu á J. K.* Drottni mínum, fyrir *hvers sakir* eg hefi *mist alt*, og met það ekki meir en sorp, svo eg *ávinni Krist*, og sè í sameiníngu við hann, og hafi eigi *mitt* rèttlæti, sem af lögmálinu fæst, heldr það, er fæst af trúnni á J. K., rèttlæti af Guði í trúnni; svo að eg öðlist þekkingu á honum og á *krafti hans upprisu* og *hluttekningu í hans píslum*» o. s. frv.[1], þegar menn lesa þess konar orð með hjartans einlægni, geta menn þá hugsað, að þau sè sögð um *»rèttan og slèttan mann»?* Það er auðsætt af þessum orðum, að hinn h. Páll setr alt sitt traust á J. K., og þó segist hann v. 3. »ekki hafa traust á *holdlegum hlutum*».

Og segist h. Páll ekki vera »Postuli J. K., settr af Guðs vilja til þess að boða lífið, sem er í J. K.«?[2]; boðar hann ekki Tímóteusi »frið af Guði Föður, og af J. K. Drottni vorum«?[3]. Segir hann ekki, að »Kristr hafi afmáð dauðann«[4], að hann (J. K.) »muni gefa sèr kórónu rèttlætisins«?[5]. Segir hann ekki Tímóteusi: »Drottinn vor J. K. sè með þínum anda«[6]?. »Grátbænir hann ekki Tímóteus fyrir augsýn Guðs og J. K..., að hann prèdiki lærdóminn«?[7]. Segist hann ekki biðja fyrir Tessaloníkumönnum »til þess að *nafn Drottins* vors J. K. *vegsamist* á þeim, og þeir af honum eftir náð Guðs vors og Drottins J. K.«?[8]. Byrjar ekki hinn h. posturli öll brèf sín með því að óska þeim, er hann

1) S. s. III, 7, 8, 9, 10. — 2) II. Timot. I, 1. — 3) S. s. 2. — 4) S. s. 10. — 5) S. s IV, 8. — 6) S. s) 22. — 7) S. s. 1, 2. — 8) II. Tess. I, 12.

skrifar, »*friðar* og *náðar* Guðs Föður og *Drottins J. K.*«? Og hafa ekki hjá honum á mörgum öðrum stöðum þessi orð, *náð Guðs* og *náð J. K.*, öldungis sömu þýðingu? Og segir hann ekki, að af því höfðingjar veraldar þessarar hafi ekki þekt *speki Guðs*, hafi þeir »krossfest *Drottin Dýrðarinnar*«? (þ. e. J. K.)[1]. Kallar hann ekki *H. Anda*, Anda Guðs og Anda J. K.?[2] — Segist hann ekki vera »*þjónn J. K.*«?[3]. Býðr hann ekki í *nafni J. K.*? Er það ekki auðsætt af brèfum hans, að menn geta ekki neitt öðlazt nema *fyrir J. K.*, fyrir *trúna á hann*?[4]. Segist hann ekki gefa, *í nafni J. K.* og með þeim *myndugleika*, er hann fèkk *af honum*, í Satans vald hinn mjög synduga mann í Korintu?[5]. En þar eð vèr ekki getum, í þessum ritlingi, tekið fram og tilfært alla þá staði, er hèr að lúta (því það yrði án efa helmingr af því, er hinn mikli postuli hefir ritað), þá hljótum vèr að biðja þá menn, er láta sèr ant um þetta mikilvæga atriði kristilegrar trúar, að lesa með athygli öll brèf hins h. Páls, því það eru ekki að eins þeir staðir, er vèr höfum eða gætim vitnað í og tilgreint, heldr öll þessi brèf í heild sinni, er innihalda fulla og óræka sönnun fyrir guðdómi J. K. En vèr biðjum hra M. E. að athuga þau orð; með hverjum hinn sæli postuli segist »bíða þeirrar sælu, er í vændum er, og dýrðlegrar opinberunar hins *mikla Guðs og vors Frelsara J. K.*, er hefir gefið sig út fyrir oss, svo að hann endrleysti oss frá alls konar ranglæti, og hreinsaði sèr sjálfum fólk til eignar »o. s. frv[6]. Getr nú hra

1) I. Korint. II, 8. — 2) II. Korint. III, 3; Galat. IV, 6; Filipp. I, 19, og víðar. — 3) Róm, I, 1. — 4) Gal. II, 16, 17; Róm. III, 22, 24, 25, 26; Gal. III, 22, og víðar. — 5) Kor. V, 4, 5. — 6) Tit. II, 13, 14.

M. E. sagt, er hann er búinn að athuga hlutdrægnislaust alla þessa staði (og fjölda af öðrum eins stöðum), að það sè *villa* og *lygi* að biðja í *Jesú nafni*, að það sè eins og að »*drekka óhreint vatn, fult af saurindum og banvænum efnum*«, að það sè »*að leggja flekkóttar bætr úr heiðnum heilaspuna á hvítan kyrtil hinnar einföldu trúar*«? Og getr hann undir eins sagt með nokkrum sanni, að hann haldi »*höfuðatriðum hinnar sönnu trúar, sem Postularnir upphaflega prèdikuðu* og heimtuðu«?[1].

Á einum stað, er vèr verðum hèr að fara nokkrum orðum um[2], segist postulinn gjarna vilja, ef mögulegt væri, verða sjálfr útskúfaðr frá Kristi fyrir bræðr sína, Ísraelsmenn, »sem eru komnir af ættfeðrunum, og sem Kristr er kominn af *að holdinu til*, hann sem er yfir öllu *Guð blessaðr*, að eilífu«! Þessi orð eru auðskilin og augljós, einkum fyrir þá, er hafa kynt sèr til hlítar hin lærdómsríku brèf h. Páls, og hafa skilið í þeim svo mikinn fjölda af orðum, sem eru öldungis óskiljanleg, sem ómögulegt er að hann hafi skrifað, ef hann ekki hefir trúað og kent, að J. K. sè Guð. En hra M. E. lætr öldungis eins og hann þekti svo að segja ekki nema þann *eina* stað í brèfum postulans, rètt eins og þessi staðr væri sá eini staðr hjá honum, er lýtr að guðdómi J. K., og til þess að geta komizt frá og hrundið þessari öflugu sönnun fyrir guðdómi Frelsara vors, tekr hra M. E. það ráð, er sízt skyldi verið hafa. Hann segir nefnilega, að þessi staðr eigi ekki að lesast eins og hann hljóðar hjá oss, hann vill setja *púnkt* í miðri setningunni, til þess að orðið *Guð* heyri ekki til J. K., og ætti þá, eftir því, að lesa

1) Bls. 12. — 2) Rómv. IX, 5.

þann stað þannig: Ísraelsmenn, »sem eru komnir af ættfeðrunum, og sem Kristr er kominn af að holdinu til. (*púnktr!*) Guð, sem er yfir öllum, sè blessaðr að eilífu:» (bls. 58, neðanm.). Þó vèr nú vildim gefa hra M. E. það eftir, að þessi staðr ætti (sem þó hvorki er nè getr verið) að lesast eins og hann vill lesa hann, hvað hefði hann þá unnið með því máli sínu til sönnunar? Ekki hið allra minsta. Annar og stórkostlegr erfiðleikr er enn þá eftir, því hèr segir þó, hvernig sem hra M. E. fer að því, að K. sè kominn frá Ísraels ætt »*að holdinu til*«[1], þ. e. vissulega að *manneðlinu til*. Og því liggr það í augum uppi, að hinn h. Páll gjörir með þessum orðum ráð fyrir því, að K. hafi *annað* eðli, og eflaust er þar við að skilja hans *guðlega eðli*, er hann hefir frá sínum himneska Föður, og sem h. Páll og allir Postularnir á svo mörgum öðrum stöðum eigna honum, eins og vèr höfum þegar sèð hèr á undan.

En hefir hra M. E. leitt nokkra röksemd, enda hina lítilfjörlegustu (!), að þessari stórkostlegu og óheyrilegu breytingu sinni á þessum stað? Nei! það er öðru nær! *Þarf Magnús Eiríksson kandídat* í guðfræði að færa sönnur fyrir því, er honum þóknast að kenna mönnum? færa sönnur? Hvað eiga menn þá að ímynda sèr um hra M. E.? Er hann ekki *spámaðr?* hefir hann ekki *andlega leiðslu?* Hví mundi hann þá þurfa að færa sönnur fyrir hinum allra helgustu sannindum, er menn eiga

1) Er það að öðru leyti, eða hefir það nokkurn tíma verið vanalegt orðatiltæki í nokkru máli, þegar menn tala um óbreyttan mann? Ef nokkur, er furðar sig á kenningu M. E., spyrði: hvaðan er þessi undarlegi maðr? ætli að menn mundi svara því: hann er kominn af íslenzkri ætt, að holdinu til?!!!

að vera mjög fegnir að heyra af munni hans? Hann sitr þarna á dómstóli sínum með sinni *andlegu leiðslu* öðrum megin, og með *skynsemistrúarmönnum* hinum megin, og hann kveðr upp dóm sinn: Allir kristnir menn eru »*aular* og *vitfirringar*» o. s. frv.: á þessum stað á ekki orðið »*Guð að skiljast um Krist, heldr um Guð sjálfan,* því það er lof og prís og þakkargjörð til Guðs» o. s. frv. En hvers vegna er »það lof og prís», o. s. frv.? *Hvers vegna?* .... Vegna þess að »það er lof og prís» o. s. frv.! ... En er það ekki það, er hra M. E. er að bjóða mönnum sem heilög sannindi, *er hann einmitt* ætti að *sanna?* ... *Að sanna!!!* »*það sem andlegt er, á andlega að dæmast*»! Og það segir hra M. E. og hin *andlega leiðsla* hans og *skynsemistrúarmennirnir!*

En vèr segjum hra M. E., að hann megi alls ekki, jafnvel þó hann gjöri það í *andlegri leiðslu,* láta postulann affæra svo mjög gríska málið, og tala á móti öllum grundvallarreglum þess, og það gjörir hann hèr, með því að þýða hinn fyrnefnda stað eins og hann vill gjöra, eins og þeir menn geta sèð, er skilja þetta mál[1]. En

1) Orðin í grískunni hljóða þannig: ἐξ ὧν ὁ Χριστὸς τὸ κατὰ σάρκα, ὁ ὢν ἐπὶ πάντων Θεὸς εὐλογητὸς εἰς τοὺς αἰῶνας! Ἀμήν. En hefði nú hinn helgi postuli viljað þóknast M. E. og talað gríska málið eftir frumreglum þess, þá hefði hann orðað alt öðruvísi og haft lýsingarorðið εὐλογητός, á undan orðinu Θεὸς, eins og hann hefir, II. Kor. I, 3, og Efes. I, 3, og eins og stendr Lúk. I, 68, og I. Pètrsbr. I, 3, og eftir þessu hefði hann átt að hafa: Εὐλογητὸς εἰς τοὺς αἰῶνας ὁ ὢν ἐπὶ πάντων Θεός! En svona eru nú hinir góðu Prótestantar og skynsemistrúarmenn; þeir kæra sig ekki neitt um, hvort þeir láta hina h. Rithöfunda tala óskynsamlega, ef þeir að eins geta náð tilgangi sínum!

á hinu furðar oss, að hann hefir jafnvel ekki tilgreint þá *einu* ástæðu, er hann hefði getað borið fyrir lestrarhátt sinn á þessum stað[1]. En þessi ástæða er sú, að *depill* sá, er hann vill hafa í miðri setningunni, finst í *einu einasta* (hinu 47.) af þeim handritum H. Ritningar, er viðhafa greiningarmerkin, þar sem *öll* hin handritin hafa þenna stað eins og vèr höfum tilfært hann. Og allar þýðingar, allar útskýringar hjá öllum Kirkjufeðrum, alt frá 2. öld, hafa hið sama; en þær hljóta allar saman að vera *vitlausar* og *óáreiðanlegar*, þar eð *depillinn* sá hinn *góði* var þá ekki orðinn til! Ótal margir af Kirkjufeðrunum, jafnvel hinir grísku, vitna í þann sama stað til að sanna guðdóm Frelsara vors á móti *Magnúsum* þeirra tíma, en þeir eru allir saman »viltir«, og »*vitstola*«[2], *blindaðir* o. s. frv. eins og nærri má geta, þar eð þeir þekkja ekki *depilinn* hinn góða![3] En hvernig stendr á þessum depli? hvernig hefir hann komið inn í þetta *eina* handrit? Allir hinir lærðustu guðfræðingar geta ekki sèð annað, en að það muni vera annaðhvort ritvilla, eða pappírsfeira, eða þá af einhverri „*tilviljun*" einhvers Magnúsar, er hefir hugsað svo, að einn depill mundi ekki vera mikil byrði á samvizku sinni, og að hann mundi með því móti koma frá sèr þessum stað, er á alt of ljósan hátt kennir

---

Enda getr hver skynsamr maðr, er vill lesa þann stað með athygli, sèð, að lestrarháttr M. E. er alveg rangr.

1) Hann hefir að líkindum verið hræddr um, að menn mundi gjöra gys að henni! — 2) Bls. 59 neðanm. — 3) Og þessum depli hefir ekki verið haldið fram nema af einhverjum gáleysingjum, er ljósið hefir gert starblinda; er vilja fram yfir alt neita guðdómi J. K. Og þessi depill er ein af hinum öflugustu ástæðum, er þeir geta borið fyrir sig, og því hanga þeir svo fast við þenna blessaða depil!

guðdóm J. K.[1]. Vèr vonum, að það sè orðið ljóst fyrir lesaranum, að vèr kristnir menn getum haft þenna stað með hinum öðrum stöðum, er vèr höfum vitnað í, úr brèfum Postulans Páls, og með fjölda af öðrum, er vèr gætim tilfært, til að sanna með guðdóm Endrlausnara vors. Og eins vonum vèr, að það sè skýlaust og auðsætt fyrir hvern mann, er athugar þetta háleita efni með alvöru og hlutdrægnislaust, að Post. Gjörningabók, og hin ódauðlegu brèf h. Páls, eins og hin 3 fyrstu guðspjöll, kenna á ljósan hátt og á ótal stöðum guðdóm J. K. Og þegar svona er nú ástatt, hvernig getr þá hra M. E. komið með og reynt að boða mönnum aðrar eins vitleysur og þessar: »það eru ei *að eins nokkrir staðir í* N. T., heldr N. T. *yfir höfuð* að tala, sem *stríðir* á móti hinni athanasiönsku trúarjátningu (er kennir, að J. K. sè Guð), *að eins í 4. guðspjallinu finst nokkuð í þá átt*«[2]. Hvílík dirfska! hvílík ósvifni!

1) Vèr leyfum oss að tilfæra hèr 2 staði, er útskýra þessi orð öldungis eins og vèr gerðum. „Eg ætla alls eigi að nefna guði, nè herra, heldr ætla eg að fylgja postulanum, svo ef nefna skal Föður og Son saman, að eg nefni Guð, Föður, og J. K. Herra. en Krist einn get eg nefnt Guð, eins og hinn sami postuli“ (Rómv. IX, 5). Ísraelsmenn, „af hverjum Kristr (er kominn), sem er, segir hann, Guð yfir öllum, blessaðr um alla eilífð“ (Tertull. adv. Prax. c. 13) —. „Það gengr yfir mig, hvernig sumir, er lesa það, er postulinn segir á öðrum stöðum: „einn Guð, Faðir, frá hverjum alt er, og einn Drottinn J. K., fyrir hvern alt er“ (1. Kor. VIII, 6.) neita, að menn eigi að viðrkenna, að Sonr Guðs sè Guð, svo að það skuli ekki líta svo út, sem þeir segi að það sè 2 guðir til; en hvað ætla þeir að gjöra úr þeim stað postulans, (Rómv. IX, 5.), þar sem hann segir með skýrum orðum, að „Kristr sè Guð yfir öllu“? (Origen. in Epist. ad Rom. l. VII, n. 13.). — Og það sama segir h. Hilaríus byskup De. Trinit., lib. VIII, n. 37, og fleiri. — 2) M. E. bls. 38, neðanm.

4. Atriði. *Kristnir menn á fyrstu öldum trúðu á guðdóm J. K.*

Dirfskan og ósvífnin hjá hra M. E. er engu minni, þegar hann segir: »Það er auðsèð af ritum einkum frá 2. öld, að hugmyndirnar um Krist fóru að *hækka*, ekki að eins *eftir daga Postulanna*, heldr jafnvel *þegar á síðari hluta 1. aldar*«[1], eða þegar hann segir: »að Kirkjufeðrnir á fyrri öldum hafi hjálpað til að *útspekúlera* og búa til guðdóm Krists o. s. frv.[2] En hra M. E. hefir ekki þóknazt að fræða menn um, *hvernig* þetta hafi orðið, *hvernig* þetta *jafnvel* hafi verið *mögulegt* o. s. frv. En vèr erum þegar búnir að sýna fram á það, að hinir fyrstu kristnu menn hafi ekki þurft að *útspekúlera* guðdóm J. K.. Og vèr ætlum að tilfæra nokkra staði úr ritum hinna 2. fyrstu alda, er sýna og sanna, að *andlega leiðslan* hra M. E. hefir dregið hann á tálar.

Hinn h. Irenæus segir meðal annars, í riti sínu »móti trúarvillumönnum«[3]: Vissulega mundi hvorki Drottinn, nè H. Andi, nè Postularnir nokkru sinni beinlínis og með skýrum orðum hafa kallað J. K. Guð, ef hann ekki hefði í sannleika verið Guð«. Þegar Athenagoras (er lifði á 2. öld) hefir í »varnarriti« sínu

---

1) Bls. 18. Hver eru þessi rit? Og hver er þá mismunrinn á kenningu um K. á fyrra og síðari hluta 1. aldar? Vill hra M. E. ekki fræða menn um mismuninn á þeim kenningum? hefir hann glöggva hugmyud um það? líklegast ekki fremr en um svo margt annað, er hann þó ræðir um! — 2) Bls. 35. neðanm. — 3) (Sjá um h. Irenæus († um 202) hèr á undan bls. 5. neðanm.) — Adv. hær. III, c. 6, n. 1. Í þessu riti brýtr hann á bak aftr alla kristníðinga er uppi voru á hans dögum og á undan honum, og tilfærir alls konar röksemdir, og hinar öflugustu sannanir fyrir guðdómi J. K.

»fyrir kristna menn«[1] tekið það fram, að þeir trúi á *einn Guð* og á Orð eða Son hans, fyrir hvern alt er, og er hann hefir útskýrt, hvernig engin vitleysa eða öfgar sè í þessari trú, bætir hann þessu við: »Hver skyldi þá eigi undrast, er hann heyrir þá kallaða guðlausa, er nefna Guð Föður, og Guð Son og H. Anda, og sýna bæði mátt þeirra í einingunni, og greining þeirra í röðinni«. Hinn h. Justinus segir: »Ef Gyðingar hefði skilið spámennina, mundi þeir eigi neita því, að J. K. væri Guð«. J. K. er, segir hann, »Eingetningr Föðursins.... Orð í eiginlegum skilningi getið af Guði, og síðan maðr fæddr af Meyju, eins og vèr höfum lært af Guðspjöllunum«[2]. Hann kallar hann ótal sinnum Guð og Drottin, Guð Ísraels, er birtist ættfeðrunum, Abraham, o. s. frv. Hinn h. Klemens fer þessum orðum um J. K: »Vèr eigum að hugsa oss J. K. eins og Guð, og eins og Dómara lifanda og dauðra«[3].

Af þessum tilvitnunum geta menn skilið, að hugmyndirnir um J. K. hafa ætíð verið þær sömu og undir eins svo háleitar, samkvæmt kenningu Postulanna,

---

1) Legat. pro Christ. n. 10; þetta rit var sent til keisaranna M. A. Antoninus' og L. A. Commodus'. — 2) Dialog. cum Tryph. n. 126 og 105. H. Justinus var fæddr hèr um bil á. 103 og sneri sèr til kristilegrar trúar um á. 133. — 3) Í 2. brèfi hans, er vèr höfum brot af, n. 2. Hann var 3. eftirrennari h. Pètrs á Rómabyskupsstóli; um hann talar hinn h. Páll í brèfi sínu til Filipp. IV, 3. Það er sjálfsagt, að vèr gætim tilfært marga aðra staði eftir þessa h. kirkjufeðr og eftir marga aðra; hèr höfum vèr t. a m. ekki tilgreint neinn stað eftir hina h. Ignatius og Polykarpus; oft kalla þeir J. K. Guð og sèr í lagi á þeim stöðum, er vèr höfum tekið eftir þeim, hèr að framan, bls. 64 og 65, og sjá Ign. ad Magn. n. 8, og in ep. ad Ephes.

að þær hafa alls ekki getað verið, nè þurft að verða háleitari, eins og hra. M. E. vill telja mönnum trú um að hafi verið. Og vèr biðjum menn vel að gæta þess, að þessir h. kirkjufeðr lýsa allir hátíðlega yfir því og fullyrða, að trú þeirra sè og hafi *ávalt* verið trú allrar Kirkjunnar, er hún hafi fengið frá Postulunum og varðveitt óbrjálaða bæði í erfikenningunni og hinum H. Bókum. Hvað megnar aumingja M. E. með hinni *andlegu leiðslu* sinni gegn slíkum vottorðum?

5. Atriði. *Álit heiðinna manna um trú hinna Kristnu á J. K.*

Oss sýnist það eiga einkar vel við, að færa mönnum nokkra vitnisburði úr hinum heiðnu fræðimönnum um trú kristinna manna alt frá dögum Postulanna; og það gjörum vèr einkum af því, að nokkrir af þeim hafa fyrstir manna komið með flestallar þær mótbárur gegn kristilegri trú, er hra M. E. hefir verið svo feginn að taka upp eftir þeim og svo mörgum öðrum, og hafa þeir ætíð sömu aðferð og hann; þeir rangfæra!

Plinius ýngri (fæddr á. 61 eða 62) var mikið lærðr maðr, hann vissi gjörla skil á högum hinna Kristnu; hann gaf, meðan hann var landstjóri í Bithyníu og Pontus, Trajan keisara skýrslu um trú hinna kristnu manna, og segir, að hann sjái ekki nema eitt atriði, er geti verið þeim að sök gefið, nefnilega, »að þeir haldi samkomur fyrir sólaruppkomu, og syngi þar til skiftis sálma J. K. til dýrðar, eins og *hann væri Guð*«, og hann bætir því við, að »þeir þoli heldr hinar grimmustu pyndingar en að afneita *trú sinni á J. K.*«[1]. Hvað

1) Epist. lib. X, ep. 97. Plinius var ekki mótstöðumaðr hinna Kristnu, og þetta brèf hans ber á sèr heldr velvildarblæ.

sýnist hra M. E. um þenna vitnisburð? Ekki getr hann borið Plinius á brýn, að hann »hafi verið *sokkinn* svo *djúpt* niðr í *lærdóma Kirkjunnar*, að hann hafi ekki getað rifið sig lausan frá þeim«, eins og hann segir um Kirkjufeðrna[1]; eða ætlar hann þá að segja, að Plinius »hafi hjálpað til að *útspekúlèra* guðdóm J. K.? Eða ætlar hann að segja það um hina heiðnu heimspekinga?

Celsus var uppi rètt eftir daga Postulanna[2], og ef trúaratriðið um guðdóm J. K., er hann harðlega mælti á móti, hefði ekki verið kent af Postulunum, heldr orðið til eftir þeirra daga, er það þá ekki auðsætt, að hann ekki mundi hafa hlífzt við, að koma með þessa mótbáru? Því hann hafði lesið og rannsakað öll rit kristinna manna; og var það ekki hin öflugasta mótbára gegn þeim? Og þó hann ekki spari alls konar ósvífni og rangfæringar o. s. frv., þegar við kristna menn er að eiga, þá hefir hann þó ekki þorað að halda fram svo helberum ósannindum (og það er þó það, sem hra M. E. 1800 ár á eftir þorir að gjöra!), því hinum Kristnu hefði verið innanhandar að bera slíka ósvífni ofan í hann, og leiða sönnur að því, að þetta væri tilhæfulaust, og þar sem hann ekki sá sèr fært að fara þessu fram, fer hann að skopast að J. K. Gyðingr-

1) Bls. 4. — 2) Hann var einn úr Epikúrus' flokki; margir fræðimenn halda, að hann hafi ritað bók sína: λόγος ἀληθής, þ. e. „Sannmæli“, á dögum Hadríans keisara, þ. e. um á. 117, og öllum kemr saman um það, að hann hafi verið uppi við lok 1. aldar og öndverðlega á 2. öld. Og það er því vitni, er hra M. E. getr ekki hrakið af því það sè ekki nógu gamalt, og að öðru leyti hefir hann fundið upp flestallar þær mótbárur, er hra M. E. hefir tekið upp aftr á móti Kristindóminum, og þess vegna vonum vèr, að hann muni ekki vefengja þenna mikla hjálparmann sinn.

inn, er hann lætr tala, ávarpar Frelsarann þannig: »Til hvers þurfti að flytja þig til Egyptalands, meðan þú enn varst barn? Var það til þess, að þú skyldir eigi vera drepinn? En það er *eigi Guði samboðið* að óttast dauðann»![1] Hann ávarpar Jesú með þessum orðum: »*Líkami Guðs* hefði eigi verið svo getinn, sem þú ert getinn, Jesús! Og eigi neytir *líkami Guðs* slíkrar fæðslu»[2]. Hann er ávalt að skora á Jesú og kristna menn, og ímyndar sèr, að hann geti sannað með hinum heimskulegu mótbárum sínum, að J. K. gæti eigi *verið Guð*. Þeir Porphyrus, Jamblichus, Hierokles og Julían trúarníðingr, o. s. frv. hafa ekki gert annað en að taka upp aftr mótbárur Celsus', og þess vegna ætlum vèr ekki að fara fleirum orðum um þá, nema hvað vèr tilgreinum einn stað eftir Júlían, er bætti því við hinar gömlu mótbárur, að hann lætr í ljósi hèr um bil hina sömu og röngu skoðun um Guðspjöllin og brèf hins helga Páls, er kemr fram í riti hra M. E.; orð hans til kristinna manna eru þessi: »Hvorki Páll, Matteus, Lúkas eða Markús hafa nokkru sinni dirfzt að fullyrða guðdóm yðar J. K.; *hinn fyrsti*, er hefir dirfzt að gera það, er *einfeldningrinn* Jóhannes«, o. s. frv.[3] Ætlar nú hra M. E. að vefengja þessa vitnisburði forfeðra sinna (vèr segjum: forfeðr í guðleysi hans) og fulltingismanna? eða voru þeir, ef til vill, eins og Kirkjufeðrnir, »svo ofrseldir hinu andlega ofríki, hinum andlega þrældómi, er drottnandi var í Kirkjunni, að þeir hafi ekki *getað greint* sannleikann frá villunni«? (bls. 16.). Voru þeir »*aular* og *vitfirringar*« þeir menn, er hafa komið með þessar mótbárur, er

1 Orig. Cont. Cels. l. I, n. 66. — 2) S. s. n. 69, 70. — 3) S. Cyril. Alexand. l. X.

hra M. E. hefði vissulega aldrei fundið upp án hjálpar þeirra? Eða voru þeir, ef til vill, »ofsóktir, hraktir og hrjáðir« (bls. 14.), þeir menn, er oft gáfu keisurunum sem heillaráð að ofsækja hina Kristnu, eða gerðu það sjálfir eins og Júlían? Ekki vitum vèr, hvernig hra M. E. ætlar að útskýra þetta, enn hitt sýnist oss auðsætt, að þessar tilvitnanir eftir hina heiðnu fræðimenn, er að öðru leyti gæti verið miklu fleiri, nægi fullkomlega til að sannfæra hvern mann, er með heilbrigðri skynsemi og hindrvitnalaust athugar þetta mál, um það, að kristnir menn hafi, ekki að eins á dögum þeirra Celsus' o. s. frv., heldr þegar á dögum Postulanna, trúað á guðdóm J. K.; því hefði þessi trú ekki verið frá Postulunum, þá hefði eflaust þessir menn, er voru mjög ákafir óvinir hinna Kristnu, borið þeim það á brýn; og þessir Magnúsar hinna fyrstu alda Kristninnar hafa borið gegn henni margar mótbárur, sem eru þýðingarminni; en þar sem þeir þvert á móti beita öllum mögulegum mótbárum[1] til þess að sýna, að J. K. hafi ekki verið Guð, þá sanna þeir með því á órækan hátt, að trú kristinna manna á dögum þeirra hafi verið sú, að J. K. væri Guð. Þekkir hra M. E. ekki til alls þessa? hví fer hann þá að rita um það efni, er hann ekki þekkir nákvæmlega? En ef hann þekkir alt þetta, hví þegir hann þá um það? Eða hvað verða menn að hugsa um einlægni hans og hreinskilni? hvar er sannleiksástin?

## 3. GREIN.

*Um Kirkjuþingið í Nicæu (sem er ein af hinum helztu mótbárum hra M. E. móti guðdómi J. K.).*

Um þetta Kirkjuþing (haldið á. 325), er lýsti bann-

1) Eins og M. E. gæti sèð, ef hann að eins gæti lesið, og vildi lesa verk Origenes' móti Celsus', og fleiri.

færingu yfir hinni óguðlegu villu Aríus', er neitaði guðdómi J. K., fer hra M. E., þó óskiljanlegt sè, þeim orðum[1]: Að »K. hafi þar, *svo að segja(!)* verið *gjörðr að guði*«; að »að eins *lítill* hluti hinna 318 byskupa, sem voru þar, hafi verið á þeirri skoðun« (að J. K. væri Guð); að »*allr þorri* byskupanna hafi ekki getað felt sig við þá kenning, að K. væri *sömu veru sem Guð* ... en að þeir hafi samt skrifað undir trúarjátninguna, friðarins vegna, og af því keisarinn ... og *nokkrir* merkisbyskupar hèldu henni fram« ... að »það hafi að eins verið *lítill partr* af öllum fundarmönnum, sem hafi haft þá sannfæringu, er komi fram í trúarjátningunni«, og því næst kallar hra M. E. upp: »*Vita nú ekki guðfræðingar Kirkjunnar þetta,* eða álíta þeir, að það sè alt saman rètt og gott«?

Nei! guðfræðingar Kirkjunnar vita þetta ekki! Því alt þetta hjá hra M. E. er *helber ósannindi!* Eða hvers vegna hefir hann ekki tekið það fram, hvaðan hann hefir fengið þessa þekkingu á Kirkjusögunni? Verða menn ætíð að trúa í blindni hinni *andlegu leiðslu* hans? Vèr skulum þegar færa sönnur á það, að hún hèr, eins og ætíð, fari vill vegar. Satt er það að vísu, að þeir menn voru á þessu Kirkjuþingi, er hèldu ekki hina rèttu trú; en hvar fundust þeir? Það var vissulega ekki meðal byskupanna, er sátu á þinginu, heldr voru þeir í flokki Arius', Eusebius' frá Nikomediu og fylgismanna þeirra, er sóttu þingið til þess að gjöra grein fyrir kenningu sinni, en engan veginn í því skyni að dæma um trúna. En hvernig getr hra M. E. sagt, að þeir menn hafi verið *allr þorri byskupanna?* Því fer fjarri! Þeir voru ekki nema 17 að öllum samtöld-

1) Bls. 14, 15.

um. Heyrum nú vitnisburð þeirra manna, er þar voru viðstaddir, eða lifðu nálægt þeim tímum[1].

H. Athanasius, er var einn af merkilegustu byskupum á þinginu, skýrir frá, að Arius hafi kent þetta guðleysi: »þar eð alt er orðið til af engu, þá er *Sonr Guðs* einnig *orðinn til af engu«;* og því næst segir hann: »Af því Aríus sagði þetta og annað þvílíkt, var lýst yfir því, að hann væri trúarvillumaðr. Því allir þeir byskupar, er áttu sæti á þinginu í Nicæu, byrgðu eyru sín, og allir fyrirdæmdu í einu hljóði þessa villukenningu«[2]. Byskuparnir, er á þinginu voru, fara sömu orðum í brèfi því, er þeir rituðu Kirkjunni í Alexandríu; þeir segja: »Kirkjuþinginu kom saman um í einu hljóði að lýsa bannfæringu yfir hinni óguðlegu skoðun Aríus' og orðum hans, og hinum viðbjóðslegu orðtækjum, sem hann lèt til sín heyra til þess að ófrægja Son Guðs, að hann nefnilega væri orðinn til af engu, og hefði ekki verið til, áðr en hann fæddist í heim þenna af Maríu Meyju, og að þannig sá tími hefði verið, þá er J. K.

1) Rufinus, er var uppi skömmu eftir þetta Kirkjuþing, segir (hist. Ecc. l. 1. c. 3): „það er sagt, að það hafi verið einir 17 (á þinginu), er hölluðust að trú Aríus' .... Álit kirkjuþingsins var sent Konstantín; hann tók því með sömu lotningu eins og það væri komið frá sjálfum Guði“ o. s. frv., og af því keisarinn sagðist ætla að gera hvern þann útlægan, er sýndi sig í því að ganga í móti þessu áliti Kirkjuþingsins, „því það væri sama sem að brjóta boð Guðs, þá báru fylgismenn Aríus' ráð sín saman, og gengu að því að skrifa undir trúarjátninguna, með hendinni einni, en eigi með huga. Og var Eusebius, byskup í Nikómedíu, einkum upphafsmaðr að þessum yfirdrepskap“. það er þá auðsætt, að þau svik, er M. E. bregðr öllum þorra byskupanna um, er að eins verk fáeinna trúarvillumanna! það er óskiljanlegt, hvernig M. E. fer að lesa söguna í hinni andlegu leiðslu sinni!! Theodoretus (hist. ecc. l. 1. c. 8) segir alveg hið sama og Rufinus. — 2) Orat. 1a. cont. Arian.

ekki var til. Yfir öllum þessum hugmyndum lýsti hið helga Kirkjuþing fullri bannfæringu, já, það er meira er, þingið leið ekki, að þessi guðlausa skoðun og ósvífna óvitra, nè heldr guðlöstunarorð hans kæmi fyrir eyru því«[1].

Eins og vèr sjáum, er það auðsætt, að hèr ræðir hvorki um *lítinn hluta,* er hafi trúað á guðdóm J. K., nè um *allan þorra,* er hafi ekki getað felt sig við þenna trúarlærdóm, eins og hra M. E. kemst að orði. Og hver sá, er vill bera hina tilvitnuðu staði saman við það, er hann segir, mun geta sannfærzt um, að þessir sagnaritarar segja, með berum orðum og í einu hljóði, hið gagnstæða því, er hann hefir haft dirfsku til að láta sèr um munn fara um þetta Kirkjuþing. Það má fullyrða, að hann hefir lítið kært sig um, að rannsaka hina sögulegu vitnisburði fornaldarinnar; honum hefir þótt það betra og makara að fylgja, í makindum og í blindni, hvers konar tyllidómum, er fyrir honum hafa orðið hjá kennifeðrum hans, hinum þýzku Prótestöntum, og hann hefir, með því að treysta, í einfeldni sinni og blátt áfram, þessum átrúnaðargoðum sínum, ímyndað sèr, að hann, þó það sè óskiljanlegt, gæti með fullri ófeilni lýst yfir því, að allir kristnir guðfræðingar væri innilega

1) Socrat. hist. ecc. l. 1, c. 6. — Theodoretus (hist. ecc. l. 1, c. 13) segir, að „mestr hluti þingsins, hafi aðhylzt hinn rètta og hreina trúarlærdóm“, að „að eins fáeinir hafi tekið að sèr málstað Aríus' og mótmælt hinni postullegu kenningu“ og að þegar búið hafi verið að útiloka hinn óguðlega Aríus frá Kirkjunni, og orða trúarjátninguna eftir almennu samkomulagi, og staðfesta hana með undirskrift allra, hafi fundinum verið slitið. — Socrates skolastikus segir einnig (hist. ecc. l. 1, c. 5) „þessa trú (á guðdóm J. K.) samþyktu 318 byskupar, og aðhyltust hana allir, og ... skrifuðu undir hana með einum hug og einni skoðun“.

sannfærðir um, að ósannindi þau, er hann fer með, væri fylllleg sannindi og að þeir allir, þar að auk, hafi ætíð, móti samvizku sinni, fullyrt hið gagnstæða! Og þenna áfellisdóm, sem er hið gagnstæðasta, er verið getr, öllum vitnisburðum sögunnar, kveðr hra M. E. upp, af því hann er í *andlegri leiðslu* (hann tilfærir enga aðra ástæðu!), gegn öllum kristnum guðfræðingum! Hverju líkist þessi aðferð? Eða hvað eiga menn að segja um þekkingu á sögunni, eða þá um einlægni og hreinskilni þess manns, er svona fer að ráði sínu? En að öðru leyti þarf engan að furða á þessari aðferð hra M. E., ruglar hann ekki öllu saman í h. Ritningu eftir sínum *geðþótta*? hví skyldi hann þá ekki fara eins með söguna?

Vèr þykjumst nú vera búnir að sýna og sanna á órækan hátt, að J. K., Endrlausnari vor, sè Guð. Vèr höfum í því skyni vitnað í og tilfært marga staði úr G. og N. T. og sömuleiðis nokkra staði úr Kirkjufeðrunum o. s. frv.; hvað ætli hra. M. E. geti nú borið fyrir sig gagnvart öllum þessum stöðum og tilvitnunum? Hann mun að öllum líkindum neita þeim algjörlega, eða útskýra þá á sinn eigin hátt[1]. Vèr vitum,

1) Vèr ráðum honum þó að fara varlega í því, því ef sannanir þær, er vèr höfum tilgreint hèr, þyrfti, sem vèr vonum að ekki sè, frekari útskýringar eða röksemdir, þá má hann ganga að því sem vísu, að vèr munum, ef Guð lofar, ekki láta það skorta. Vèr erum, að öðru leyti, ekki vanir að koma með neitt, er vèr ekki getum sannað. Það má hann vita, ef hann þekkir það, er vèr áðr höfum ritað á íslenzku. En ef menn gæta þess, hvernig sumir (einkum prestar) hèr hafa notað hvert tækifæri, til að ráðast á kenningu vora, þá má nærri geta að þeir hefði, hefði þeir sèð sèr það fært, ritað gegn „Útskýringu“ vorri, en síðan hún kom út, hefir enginn látið til sín heyra, og jafnvel ekki hra S. Melsteð; það lítr þó

því miðr, að hin fyrsta og aðaltrúarregla Mótmælanda, þ. e. Sjálfsrannsóknarfrelsi, leyfir honum það. Já eftir þessari svo kölluðu trúarreglu geta allir menn vefengt alt, jafnvel þó þeir hafi í raun og veru ekkert áreiðanlegt að styðjast við. Eða hvað geta hinir lútersku guðfræðingar tilfært gegn kenningu hans? Hafa þeir ekki ásamt með Lúter kent honum, að »guðfræðingar hafi *frjálsan* kost á að *vega gildi* hinna kanónisku bóka sín á milli»?[1]. Hafa þeir ekki látið sèr ant um, að koma honum í skilning um, að »allar bækr Ritningarinnar hafi ekki jafna hlutdeild í náðargjöf H. Anda«?[2]. Hafa þeir ekki innprentað honum með öllu mögulegu móti, að enginn mætti »neyða« hann til að viðrkenna þær eða þær bækr (þeir hafa, að öðru leyti, engan rètt til þess), og að »útibyggja frjálsri rannsókn hans um það efni«?[3]. Hafa þeir ekki sett honum fyrir sjónir, sem hið bezta eftirdæmi, er hann gat fylgt með samvizkurósemi, dæmi Lúters, »er sjálfr benti *fyrstr* á veginn í þessari rannsókn, og kvað skýrt og frjálslega upp sitt álit«[4] um brèfið til hinna Hebresku, Júdasar og Jakobs brèf og Opinberunarbókina með því að kasta þeim? Og hann hefir fullkomlega skilið þá, eins og hann líka sjálfr segir þeim frá, og trúlega hefir hann breytt eftir

---

svo út sem hann hefði átt að bera bönd fyrir höfuð sèr, því það er auðsætt, að vèr höfum sannað upp á hann margar mótsagnir hjá honum sjálfum, margar rangfæringar á kenningu vorri, og algjörlegan sannanaskort í „Samanburði" hans o. s. frv., og þó þegir hann! Hra Eiríkr Magnússon hefir einn ritað út af „Útskýringu" vorri (en ekki snert neina af sönnunum vorum) 1. brèf frá París, og lofaði löndum sínum fleirum en 2 brèfum frá París, vèr svöruðum honum, og nú er það komið á annað ár að menn vonast eftir 2. brèfinu frá honum.

1) Samanburðr o. s. frv. eftir hra S. Melsteð, bls. 159. — 2) S. s. 156. — 3) S. s. 159. — 4) S. s. 159.

kenningu þeirra, þar sem hann kastar fyrir borð guðspjalli h. Jóhannesar og svo mörgum köflum hinna h. Bóka; og því er það bersýnileg ósamkvæmni hjá þeim, er þeir finna að því, að hann fylgir trúlega kenningu þeirra og dæmi Lúters. Þeir segja nú, ef til vill, að hra M. E. fari alt of langt í neitunum sínum. En þeir verða að gæta þess að orð þeirra, er vèr höfum tekið fram (og mörg önnur) innihalda engin takmörk. Og hann þarf í raun rèttri ekki að neita neinum kafla af h. Ritningu, þar eð honum er gefin af lærifeðrum hans öll möguleg heimild til að útskýra hvert einasta orð í Biblíunni eftir »eigin geðþótta«. Segja þeir honum ekki aftr og aftr, að hin prótestantiska Kirkja »*takmarki ekki* frelsi útþýðandanna við trúarfræði Kirkjunnar, og viðrkenni engan drátt til trúarinnar, annan en andlegan drátt H. Anda, sem er það sama sem *innri* trúarsannfæring«?[1]. Og hafa þeir ekki fullvissað hann um, að »í og með orðinu veitist náðargáfa andans«?[2]. Hverju geta þeir, eftir þessari kenningu, svarað honum, er hann kemr með Pelagius útbúinn Guðs orði: Ezekiel segir: »Skal sonrinn ekki gjalda misgjörða föðurins« (XVIII)[3] og þess vegna er kenning Kirkjunnar um upprunasyndina »viðbjóðsleg og vilt, búin til úr tómum heilaspuna«, hún er »lygi, helber villa og guðlöstun«?[4] Eða segi hann með Sabellius: J. K. hefir kent: »Eg og Faðirinn, við erum *eitt*«[5] og þar fyrir er ekki í Guði nema ein persóna, og því er trúin á Þrenninguna *tómr heilaspuni*, *guðlöstun* o. s. frv. Eða komi hann, eins og Arius, með þessi orð: »Faðirinn er mèr *meiri*«[6]. Og *Sonrinn* er því *ekki Guð*. Ver spyrjum þá, hverju geta

1) S. s. 155. — 2) S. s. bls. 151. — 3) Bls. 42. — 4) Bls. 36 37, og víðar. — 5) Jóhan. X, 30. — 6) S. s. XIV, 28.

þeir svarað hra M. E. og öllum samtrúarmönnum hans, er þeir þó álíta að vera trúarvillumenn? Þeir segja vissulega, að hann (og hinir allir) hafi rangan skilning á Guðsorði, (og þetta er satt), en hann þykist þó hafa »*innri trúarsannfæring*, sem er það *sama* sem *andlegr dráttr* H. Anda«, segir hra S. Melsteð. Ætla þeir að segja, að hann hafi eigi »gengið að h. Ritningu með trúuðu og guðræknu hugarfari»?[1] En það er einmitt það, er hann þykist gera og ber þeim á brýn að þeir ekki geri! En ef menn nú með trúuðu og guðræknu hugarfari hafa rangan skilning, hvað þá? Og hvernig geta menn þekt þá úr, sem »ganga að h. Ritningu með *trúuðu* og *guðræknu* hugarfari«? Eða hafði Lúter *trúað* og *guðrækt* hugarfar? og hafa þeir, lúterskir guðfræðingar á Íslandi, *það sjálfir?* Þeir þora vissulega varla að kveða *nei* við þessu; en ef þeir segja *já*, hvernig stendr þá á því, að Lúter hefir neitað heilum og mikilvægum köflum af h. Ritningu[2], og að þeir, nú á dögum, álíta, að allar þessar bækr sè gott, hreint og áreiðanlegt Guðsorð? Og hafa þeir ekki, Lúter og Melanchton, kent skýrt og ljóst, að skriftasakramentið, eins og Katólskir hafa það, sè *sannarlegt Sakrament innsett af Guði?*[3] Og segir hra S. Melsteð ekki í »Samanb.«: »protestantiska Kirkjan *neitar* þessum *helgisið,* ɔ: Skriftasakramenti sem *Sakramenti,* þar eð hann *ekki er tilskipun K.*«[4] Það er auðsætt, að í þessum greinum

1) Samanb. bls. 151 og víðar. — 2) T. a. m. brèfinu til hinna Hebresku, Júdasar og Jakobsbrèfum og Opinberunarbókinni. — 3) Sjá „Útskýringu“ vora, bls. 211. — 4) Bls. 217. Vèr þurfum ekki að taka upp aftr hèr þá mótsögn, er finst milli kenningar hins lúterska Katekismus' og kenningar hra Byskups P. Pètrssonar um altarissakramentið (sjá hèr að framan bls. 18, og „Útskýringu“ vora bls. 194, neðanm.). Og hvað gætim vèr ekki sagt um allar þær

hafa annaðhvort Lúter og Melanchton, eða hinir lútersku guðfræðingar nú á dögum, haft rangan skilning á Guðsorði; en hverjir þeirra hafa »gengið að h. Ritningu með *trúuðu og guðrækni hugarfari*«? Því það er þó ómögulegt, að allir hafi gert það, þar eð þeir framsetja með hártogun hver sína skoðun, sem hver er annari gagnstæð. Og hvernig geta menn vitað, hver sá sè, meðal þeirra, er hafi hinn rètta skilning á Guðsorði? Svari þeir nú þessu.

Ætla þeir að segja, að í »M. E. búi fullkomin vantrú; að hann komi fram með *fýtonsanda* vantrúar... er hafi stýrt allri rannsókn hans, og blindað sjón hans, svo hann hafi ekki gengið að verki sínu eins og frjáls og óhlutdrægr dómari«?[1] Þetta er vissulega mikið satt, en gái þeir að sèr, því hann segir þeim, að »þeir látist fylgja Ritningunni; en að þeir, þegar Ritningin ekki kemr saman við villulærdóma Kirkjunnar..., kæri sig ei um, þó að finnist margir skýlausir staðir í N. T.«[2], er gagnstæðir eru kenningu Kirkjunnar; með þessum orðum (og mörgum öðrum) ber hann þeim á brýn, að þeir sjálfir »gangi ekki að verki sínu, eins og frjálsir og óhlutdrægir dómarar«, og ekki getum vèr skilið, að þeir geti með Ritningunni *einni* (sem trúarreglu) sannað, að þeir hafi á rèttu máli að standa.

Nú kalla þeir hástöfum og segja: »Ekkert er þó bersýnilegra en það að Guðspjöllin kenni þvert á móti M. E.«[3], og: »Er það óskiljanlegt, sem h. Ritning

---

mótsagnir, er finnast ekki að eins milli Prótestanta yfir höfuð, heldr og milli hinna Lútersku sjálfra, og oft hjá þeim sama manni?

1) Sjá greinir hra S. Melsteðs á móti M. E. í Þjóðólfi, 23. Maí, 30. Októb., og 3. Júní 1865. — 2) Bls. 6, neðanm. — 3) Þjóðólfr, 3. Jún. 1865.

segir um Guð?..... Talar hún á huldu um J. K., hver hann er, hvers vegna hann er kominn í heiminn; ?.. Nei hún er í þessu aðalefni ... sannleikans óbrotna mál, skýrt og ljóst, gagnort og skorinort, eins og sólin, er gerir tvennt í senn, bæði að lýsa og verma«[1]. En hra M. E. (og með honum, Arius, Sabellius, Pelagius og allir trúarvillumenn) kallar miklu hærra upp, segjandi: Já, án alls efa, alt er hvervetna mjög ljóst í allri Biblíunni, og því þykist eg skilja hana! en þeir, er ekki leggja í hana sama skilning sem eg, skilja hana ekki, og það er sannlega ekki Biblíunni um að kenna, heldr þeim sjálfum, af því þeir vilja ekki skilja hana. Og þar eð þeir hafá sagt honum, að þeir »*takmarki* ekki *frelsi* útþýðandanna við trúarfræði Kirkjunnar«, og að »með *orðinu veitist* náðargáfa andans«, þá er það heldr kynlegt, að þeir nú takmarki fyrir honum þetta *frelsi*, er þeir *tileinka sèr* til að geta þýtt Guðs orð eftir þeirra *eigin geðþótta*, þegar hann, með því að fylgja sínum *eigin geðþótta*, leggr annan skilning en þeir í það.

En þeir segja aftr, að hin rètta og kristilega sjálfsrannsókn sè ekki innifalin í því, að »rífa alt niðr eins og M. E. gerir; og að hún, þar eð hún á að aðgreina rètt frá röngu«[2] eigi að vera bygð á heilbrigðri skynsemi, en ekki á hindrvitnum, eðr á hugmyndum, er menn hafa gert sèr fyrir fram, eins og M. E., »því vantrú hans á kristilegri opinberun hefir stýrt allri rannsókn hans«[3]. En hra M. E. segir eins og þeir, að

1) „Stutt leiðbeining til að lesa Biblíuna sèr til gagns, eftir Möller o. s. frv. íslenzkuð af P. Pètrssyni“, 1862, bls. 34. — 2) Norðanfari, Desemb. 1864, grein sira E. Thorlacius'. — 3) Þjóðólfr 3. Júní 1865.

menn eigi, í þessum rannsóknum, að fylgja heilbrigðri skynsemi, en ekki hindrvitnum, og hann þykist gera það! En hverjum megin er heilbrigð skynsemi? hverjum megin eru hindrvitnin? Það er það, er menn geta með engu móti fullyrt. Hinir lútersku guðfræðingar leggja í orð h. Ritningar þann skilning, er þeim þóknast, og segja, að það sè H. Andi, og sjálfsagt heilbrigð skynsemi, er leiði þá, og eftir þessu ætti *allir menn* að skilja h. Ritningu eins og þeir gera. En hafa þeir ekki kent hra M. E., að katólska Kirkjan »*hneppi*« börn sín »undir harðstjórnarok«[1], að þau sè »*fjötruð* böndum kirkjulegrar harðstjórnar«[2] af því »hún getr *eigi þolað*, að hver og einn útþýði h. Ritningu eftir *eigin geðþótta*«?[3] Þeir ætti því ekki að kveða upp svo þungan áfellisdóm um þá menn, er útskýra Guðsorð öðruvís en þeir gera. Nú sýnir hra M. E. þeim, að hann er ekki »*fjötraðr*«, ekki *hneptr*, og hann þýðir h. Ritningu eftir sínum eigin *geðþótta*, en þó kalla þeir nú hástöfum, að hann *rífi alt niðr!* hvað eiga menn þá að gera til að geta þóknazt þeim? Orð þeirra, er vèr höfum tekið fram, innibinda engin takmörk, og því ber hra M. E. þeim á brýn, með öllum rètti, að þeir »fylgi ekki sömu reglum sem reformator (siðbætir) þeirra«[4] .Og þeir brjóta í þessu sjálfir niðr þeirra eigin aðaltrúarreglur, er þeir ætíð fylgja, þegar þeir vilja áfella katólsku Kirkjuna.

Þeir bera nú, að líkindum, honum á brýn, að hann neiti þeim lærdómi trúarinnar, sem er hinn fyrsti og aðallærdómr. En þetta er ekki það, sem hèr er um að ræða, heldr er *spurningin* um það, hvort þeir *leyfi*,

1) Samanb. 139. — 2) S. s. 153. — 3) S. s. 149. — 4) Bls. 48, neðanm.

eða ekki *leyfi* hverjum manni að þýða h. *Ritningu, er ein er uppspretta trúar«*, eftir sínum *eigin geðþótta, takmarkalaust.* Sè það svo, og því geta þeir ekki neitað, því vèr viðhöfum hèr þeirra *eigin* orð, og þeir segjast *ekki takmarka frelsi útþýðandanna*, þeir mundi með þessu gera það, er þeir brigzla kat. Kirkjunni um, þeir mundi *ganga í berhögg við frelsið, hneppa menn undir harðstjórnarok*[1] sè það svo, þá getr hra M. E. sagt þeim, að hann sè miklu sannkristnari maðr en þeir sè, að hann skilji miklu betr en þeir kenningu K. Og ekki getum vèr skilið, að þeir geti, eins og nú er komið, sagt honum annað, en að hinn kristni heimr hafi, ætíð og hvervetna, kent, að J. K. væri Guð, og það gera þeir, að minsta kosti óbeinlínis, er þeir brigzla honum um það, að hann »aðhyllist ekki *þjóðbraut trúarinnar, þann rètta* veg er Kristnin fer, og fari *einförum í trúnni*, eins og *vankakind* »o. s. frv[2]. En hafa þeir

1) Vèr höfum farið í „Útskýringu" vorri, bls. 137—142, nokkrum orðum um það, að þeir hèr á Íslandi í raun rèttri geri það. Og með því að ásaka M. E. fyrir það, að hann „lifi í þeirri miklu villu"... að brestir sè í trúarjátningum" þeirra, tileinka þeir sèr þann rètt að úrskurða, á óbrigðulan hátt, hver sè hin rètta útþýðing á hinum h. Bókum; þeir neita hverju því, er á jörðunni er, um þann sama rètt, Samanb. 152 og víðar, þegar þeir reyna að sanna, að þeir sè ekki skyldugir um að hlýða katólsku Kirkjunni, en þeir tileinka sèr hann til að fá menn til þess að trúa sèr um útþýðingu á h. Ritningu, og til þess að hlýða sèr! Þarna er sannleiksástin (og vèr segjum ekki meir) hjá þeim! — 2) Sjá í Þjóðólfi 17. Okt. 1865 grein hra S. Melsteðs. Heldr hra S. Melsteð í raun og veru, að M. E. fari svo mjög einförum? Hann mun, ef svo er, vera lítt kunnugr ástandi Prótestantiskunnar; fyrir löngu síðan hafa hinir prótestantisku guðfræðingar í Genf og í Sveiz gert að Kirkjulögum, að nefna ekki neinn leyndardóm, og allra sízt guðdóm J. K., af því þeim getr aldrei komið saman í því efni. Það er alkunnugt, að

ekki kent honum að »*Biflían* EIN sè *uppspretta trúar* og *siðalærdóma*«, að hún sè »sú EINA regla og mælikvarði, er *meta* eigi og *dæma* eftir ALLA trúarlærdóma og ALLA kennendr; að *Biflían* »EIN sè prófsteinn og mælikvarði *trúar* og *siðferðis*, og *regla*, eftir hverri meta eigi og dæma ALT *annað orð*?[1] Nú sýnir hra M. E. þeim, að hann hafi haft full not af kenningu þeirra, og að hann kæri sig lítið um, hvað hinn kristni heimr hefir kent í meir en 18 aldir; hann trúir hra S.

helmingr, að minsta kosti, af hinum lærðu Prótestöntum í Frakklandi neita guðdómi J. K.; og eins er það í þýzkalandi meðal hinna lærðustu, og í Hollandi, eftir því sem hra de Geest segir, er hefir haft þar á hendi í 5 ár mikilsháttar embætti í prótestantisku Kirkjunni (sjá: Le libre examen du Protestantisme, bls. 28); og þetta sannaðist þegar bók Renans um líf J. K., sem er í sömu og enda lakari stefnu en rit M. E., kom út þar, þá gerðu flestallir prestar opinberlega að henni góðan róm. Á Englandi og í Ameriku er það alkunnugt, að ekki að eins hinir prótestantisku trúarflokkar, er þar eru óteljandi, heldr og margir af þeim, er segjast kenna hina upprunalegu Prótestantisku, neita guðdómi J. K. það er líka alkunnugt, hversu þessu er háttað í Svíaríki, og hvernig þar hefir verið tekið á móti bók M. E. Ekki ætlum vèr að tala um Danmörku, af því ástand Prótestantiskunnar þar er oss ókunnugt, nema það, að þeir „mörgu smáflokkar, er þar standa í einlægu stríði hver við annan", eins og hra Dr. P. Pètrsson sagði (alþing.tíð. 1863, síð. partr, bls. 113) muni, eins og hvervetna annars staðar, trúa lítt á guðdóm J. K. Af þessu litla sýnishorni geta menn hæglega skilið, að hra M. E. fari ekki svo einförum, eins og hra S. Melsteð ber honum á brýn, og að hann mundi, meðal hinna prótestantisku trúarflokka, fleiri en 400 að tölu, finna marga fylgismenn í neitun hans á guðdómi J. K. Og heldr hra S. Melsteð, að hra M. E. mundi ekki hafa neinn á sínu máli meðal hinna íslenzku lærðu manna? það er varla trúlegt, því það er þó svo sem alkunnugt, að menn þurfa ekki að fara úr Reykjavík til að finna þann guðfræðing, er mikið hefir að segja, nú sem stendr, og heldr með hra M. E.

1) Samanb. 133.

Melsteð í blindni og í makindum eins og vèr höfum áðr sèð að hann trúir í blindni hinum þýzku skynsemistrúarmönnum. Hinir lútersku guðfræðingar hafa kent honum, að hann »*hefði frjálsan kost á að vega gildi hinna kanónisku bóka*«; hann trúir þeim *í blindni*, og kastar mörgum köflum hinna h. Bóka! Þeir hafa kent honum, að Biflían sè »sú *eina regla* og *mælikvarði*, er meta eigi og dæma eftir *alla trúarlærdóma* og *alla kennendr;* hann trúir þeim *í blindni*, og hann dæmir *bæði* trúarlærdómana og kennendrna eftir þeirri *einu reglu*, er þeir *grátbæna* hann um að fylgja, og hann dæmir alt einarðlega, eins og maðr, er hvorki er *fjötraðr nè hneptr undir harðstjórnarok!* Hinir lútersku guðfræðingar hafa kent honum, að hann hafi fulla heimild til að *útskýra Guðs orð* eftir hans *eigin geðþótta*, og hann trúir þeim *í blindni*, og vissulega sýnir hann þeim, að *frelsi* hans sem *útþýðanda* sè ekki *takmarkað* við neitt! Og nú ásaka þeir hann fyrir það, að hann *vegr gildi hinna h. Bóka*, og kastar þeim, er honum sýnast ekki vera Guðs orð! Þeir ásaka hann fyrir það, að hann *útskýrir* þessar h. Bækr eftir *hans eigin geðþótta!* Þeir ásaka hann fyrir það, að hann fylgir h. Ritningu EINNI, sem trúarreglu, og vilja, þá er þeir hafa gefið honum hvers konar frelsi í þessum efnum, *binda* hann, *fjötra* hann, og *hneppa* hann við trú Kirkjunnar, *hann fer*, segja þeir, *einförum í trúnni eins og vankakind! hann aðhyllist ekki þjóðbraut trúarinnar, þann rètta veg, er Kristnin fer!* Vèr spyrjum hvern skynsaman mann, hvort það sè ekki hjá þeim hin herfilegasta mótsögn, er hugsazt getr. En það er ekki þar með búið, því hver mótsögnin hjá þeim rekr sig á aðra.

Vèr lesum í „Samanburði“, bls. 18. „Prótestantiska Kirkjan hlýtr, samkvæmt grundvallarreglu sinni að álíta (trúar) játningar sínar meðfram að vera mannaverk, sem, eins og alt annað mannlegt, geta tekið umbótum, og um aldr og æfi eiga að prófast og leiðrèttast eftir h. Ritningu“.

Vèr lesum í Þjóðólfi, 30. Okt. 1865: „M. E. lifir í þeirri miklu villu .... að lærdómr Kristindómsins sè hjátrú, og trú Kirkjunnar sè sjúk. En þessu er ekki þannig háttað. Brestirnir eru ekki hjá Kirkjutrúnni, eða trúarjátningu Kirkjunnar, það er ekki trúarjátningin sem er sjúk“...

Og hver hefir ritað þessar greinir? Hra S. Melsteð hefir *sjálfr ritað báðar!* Til þess að sýna, að Lúter og fylgismenn hans hafi haft rètt í því, að neita flestöllum aðaltrúargreinum, er öll Kristnin ætíð hefir aðhylzt sem nauðsynlegar til sáluhjálpar, og að Lúter þess vegna hafi gert rètt í því að yfirgefa *þjóðbraut trúarinnar, og fara einförum í trúnni,* þurfa Lúterskir að kenna, að Biblían EIN sè *uppspretta* trúar... og að menn eigi því ekki að kæra sig neitt um þá trú, er Kristnin ætíð hefir aðhylzt, og þá segir hra. S. Melsteð og endrtekr það seint og snemma, að trúarjátningar Kirkjunnar *eigi* um *aldr* og *æfi* að leiðrèttast, eða með öðrum orðum, að í þeim *geti* verið *brestir*, að þær *geti* verið *sjúkar* og tekið umbótum! Gott og vel! En nú kemr M. E., hann neitar hinum fáu trúargreinum, er Lúterskir hafa haldið eftir, hann rannsakar alt samkvæmt aðaltrúarreglu Prótestantiskunnar, honum sýnist trúarjátningar hennar þurfa að leiðrèttast eftir h. Ritningu, hann finnr í þeim bresti, en hra S. Melsteð vill ekki missa þær fáu kristilegu trúargreinir, er viðhaldizt hafa í trúarjátningunum, og segir, að *brestir sè ekki* í trúarjátningu Kirkjunnar, að hún *sè ekki sjúk*, og af þessu er auðsætt, að hún *þarf ekki* að *leiðrèttast* um *aldr* og

*æfi*, að hún er fullkomin, en ekki það *mannaverk, er getr tekið umbótum!* Er það ekki mjög svo óheppilegt fyrir hra S. Melsteð, að hann gleymdi, er hann ritaði þessi orð í *Þjóðólfi*, því, er hann þegar var búinn að rita í *Samanburði«?* En að öðru leyti er það, vonum vèr, orðið auðsætt fyrir hvern skynsamann mann, er vill í alvöru og með athygli hugleiða þessi mikilvægu efni, að hinir íslenzku guðfræðingar geta ekki leitt fram gegn hra M. E. neitt áreiðanlegt, og sem hann ekki geti undir eins snúið á móti þeim sjálfum; og þetta gefr mönnum vel að skilja, hvað því veldr að enginn hèr hefir orðið til þess að svara horum almennilega og reglulega; en þeir hafa þó, eins og kunnugt er, verið *neyddir* til að svara honum *einhverju*, og þá hefir hra S. Melsteð tekið það óheppilega ráð, er vèr höfum þegar rannsakað. En vèr verðum jafnframt að kannast við það, að það var ekki hægðarleikr fyrir hra S. M. að svara honum, því eftir rèttum hugsunarfræðisreglum hafa allar þær guðleysur, er hra M. E. fer með, sína eðlilegu og nauðsynlegu undirrót í aðaltrúarreglum Mótmælanda. Eða er það ekki auðvitað, að það, er Lúter mátti gera, það mega einnig fylgismenn hans?[1] Hann

1) það er það, er Tertullian, de præscr. hær. c. 42, segir um Marcions og Valentíus fylgismenn, og fleiri. Og h. Vincentius af Lerins fer þessum merkilegu orðum, er eiga mikið vel við Lúter og fylgismenn hans: „Ef þetta óguðlega og sviksamlega sjálfræði kemst að á annað borð (þ. e. að aflaga trúarlærdóma Kirkjunnar), hryllir mig við að segja, hve hætt þá verði við því, að trúarbrögðin verði upp rætt og af numin. Því ef menn hafna einhverjum hluta hins almenna trúarlærdóms, hver sem þessi hluti er, þá munu menn einnig hafna öðru og aftr hinu, og síðan hverju eftir annað, eins og af vana og eins og það sè leyfilegt. Þegar enn fremr einstökum hlutum er kastað, hvað leiðir þá að lokum annað þar af, en að heild-

tók sèr þann myndugleika að velja, eins og honum þóknaðist, þær h. Bækr, er honum voru að skapi, hann útskúfaði hinum, er í einhvern bága komu við kenningu hans, hann þýddi þessar h. Bækr eftir hans *eigin geðþótta.* Hið sama gerir hra M. E., og hann er þar í sínum góða rètti, hra S. Melsteð helgar þenna rètt, það höfum vèr sèð. Og hver Mótmælandi, er samkvæmr er sjálfum sèr, getr ekki, eftir rèttum hugsunarreglum, kastað þungum steini á hra M. E., því þeir verða annaðhvort að afneita aðaltrúarreglu þ. e. rannsóknarfrelsi þeirra, eða að rèttlæta og mæla fram með því, hvernig hann hefir fært sèr þetta frelsi í nyt. Ef menn á því að furða á einhverju, þá er það vissulega ekki á því, að það finnist þeir menn, er draga beinar ályktanir af hinni umgetnu trúarreglu, heldr vekr það mesta furðu, að það finnast, meðal Mótmælanda, og það hinna lærðu, þeir menn, er annaðhvort eru svo laklega að sèr í hugsunarfræðinni, eðr og svo lítt sanngjarnir og hreinskilnir, að þeir láta eins og þeir hneyxlist, og hreyfa háværum mótmælum gegn þeim, er dregr þessar ályktanir, þrátt fyrir það, þó þær sè svo eðlilegar, og á svo góðum rökum bygðar.

Og af þessu leiðir, að, með því að setja rannsóknarfrelsið sem aðalreglu og undirstöðu fyrir trúnni, og með því að neita, gagnstætt Guðsorði, því, að hèr á jörðu finnist nokkur sá dómari, annar en Biblían, er

inni verði kastað á sama hátt? Og ef menn, þar að auk, taka að blanda .... hinu vanheilaga saman við hið heilaga (eins og Lúter gerði), hlýtr þessi venja yfir höfuð að breiðast út, svo að hèr eftir verðr ekkert í Kirkjunni ósnert, ekkert óspilt, ekkert óbreytt, ekkert ósaurgað, heldr verðr þar jafnan saurlífisstaðr óguðlegra og herfilegra villna, er áðr var helgistaðr hreins og óspilts sannleika". Common. adv. haer. c. 31.

í nafni og með aðstoð Guðs flytji rètta kenning, hefir *Siðabótin* lýst yfir því, að mannleg *skynsemi* hafi æðsta úrskurðarvald í trúarefnum; og þar af leiðir enn fremr, að Siðabótin hefir komið *Skynsemistrúnni* á fót[1]. Já það er hræðileg ábyrgð, er Mótmælendr ekki geta vikið undan nè velt frá sèr; »þeir er sá«, eins og spámaðrinn kemst að orði, »til vindar, uppskera stormviðri«[2]. Lúter og samverkamenn hans sáðu til vindar, niðjar þeirra uppskera storminn. Þeir meðal Mótmælanda, er enn álíta sína einföldu og öruggu trú á guðdóm J. K., og á hina heilögu leyndardóma Kristindómsins, fyrir

1) Vèr biðjum menn vel að gæta þess, að ómögulegt er að fara nokkurn meðalveg á milli trúar um yfirnáttúrlega birting guðlegra hluta og hreinnar skynsemistrúar. Hin fyrri hlýtr að ganga út frá því, að Guð hafi opinberað manninum það, er hann á að trúa, og það ekki einungis í bókum, er hverjum er innan handar að vefengja og að útþýða eftir eigin geðþótta, eins og Mótmælendr gera, heldr einnig, að Guð hafi falið hin opinberuðu sannindi á hendr umboðsvaldi því, er, sýnilegt fyrir mönnum og undir óbrigðulli handleiðslu Guðs sjálfs kennir þeim, hverju þeir eigi að trúa, og hvað þeir eigi að gera, eins og vèr sjáum af hinum h. Bókum, að Guð hefir gert. Mótmælendr hafa því, um leið og þeir settu rannsóknarfrelsið sem aðaltrúarreglu, viðrkent æðstu yfirráð og úrskurðarvald skynseminnar í trúarefnum, því þegar maðrinn fer að sínum eigin geðþótta, þá er ekki um neitt yfirnáttúrlegt að ræða; skynsemi mannsins hefir tekið við í staðinn fyrir vísdóm Guðs, og hèr birtist þá hin hreina og beina skynsemistrú, er Prótestantar hafa stofnsett, og með henni sett manninn upp yfir Guð sjálfan. Og ekki hjálpar það að koma með þá mótbáru, að frelsi mannsins sè þá úti, því hið sanna og rètta frelsi mannsins er einungis fólgið í því, að hann hlýði Guði og umboðsvaldi því, er hann hefir sett í sinn stað, og skipað mönnum að hlýða, „Sá sem hlýðir yðr hann hlýðir mèr". Vèr höfum stuttlega útskýrt þetta mál í „Útskýringu" vorri, bls. 130—146, og biðjum menn að lesa það með athygli. — 2) Hósea VIII, 7.

sína dýrmætustu perlu og ómetanlegasta fjársjóð, fyrirdæma hreint og beint kenning hra M. E. Guð gæfi að þeir væri sem flestir, er það gera; Guð gæfi, að þeir vilji íhuga þetta mál með allri alvörugefni, og að þeir um síðir geti komizt í rèttan skilning á því, að Siðabótin einsömul er orsök og upphaf allrar þeirrar ógæfu, er þeir með öllum rètti eru að barma sèr út af, því grundvallarregla Siðabótarmanna rèttlætir hvers konar villur; og það útheimtist eigi annað, en að menn hafni öllum hleypidómum, fylgi rèttri hugsunarfræði til þess að sjá það[1].

Það sem oss sjálfum viðkemr, sjáum vèr ekki, þegar vèr erum búnir að útskýra með hreinskilni og hjartans einlægni, lærdóminn, eins og vèr, fyrir heil-

---

1) Það yrði mjög langt verk, ef vèr vildim telja upp allar þær guðleysur, er Lúter sjálfr og fylgismenn hans þóttust finna í h. Ritn. Hefir Lúter ekki löggilt fleirkvæni, með því að leyfa landgreifanum í Hessen að hafa 2 konur í senn? (Sjá „Útskýringu“ vora bls. 224). Hefir hann ekki kent, að „gott verk, gert á bezta hátt, sè synd“? (Assert. omn. Artic. opp. tom. II, fol. 325, b.). Hann ritaði til Melanchtons: „Vertu syndugr, og syndgaðu kröftuglega, en gleddu þig enn meira í K., er sigrað hefir syndina... Syndgum, meðan vèr erum í þessum heimi... það er nóg að vèr... viðrkennum það Guðslamb, er burt tekr heimsins syndir. Syndin dregr oss ekki frá þessu Guðs lambi, já, þó vèr drepim og hórimst þúsund sinnum á dag“! (Epist. Mart. Lúth. J. Aurifab. coll. tom. I, Jena 1556, 4, p. 345, b.). Og samkvæmt þeirri kenningu, er Lúter flytr í riti sínu um „Frjálsræðið“, segir Melanchton: „þetta er sannleikr, að Guð gerir alt, eins hið vonda eins og hið góða, köllun Páls var alt að einu verk Guðs eins og hórdómr Davíðs og svik Júdasar“ (Kemnitz, loc. theol. ed. Leyser 1615, p., I, p. 173); hvílík hræðileg guðleysa! og um þá menn segir hra S. Melsteð í Þjóðólfi, 17. Okt. 1865, að „þeir byggi kenningu sína á Guðsorði“, að þeir hafi, „þessir miklu menn, kent í Guðs nafni“! þeir ætti að vera leiddir af H Anda!

brigðri skynsemi og Guði, álítum hann sè í raun og veru, sjáum vèr ekki, að vèr eigim annað að gera en að biðja til Guðs, og það gerum vèr af öllu hjarta, að hann af sinni óendanlegu gæzku gefi, að allir sè hreinhjartaðir og sannkristnir menn, er elski sannleikann og leiti hans; já Guð gefi, að allir komist til rèttrar viðrkenningar um það, að þeir, er með ofríki, slægð og vèlum þröngvuðu feðrum þeirra til að taka trú Prótestanta, hafi varpað þeim og niðjum þeirra út á ólgusjó mitt á milli skerja og boða, þar sem trú þeirra eigi það á hættu að þola skipbrot; Guð gefi þeim að geta losazt við öll hindrvitni og horfið heim aftr í skaut Móðurkirkjunnar, sem er óhult athvarf og næðissöm höfn fyrir alla þá, er vilja forða sèr undan þeim óveðrsbyljum, er Lúter sáði til. Og vèr viljum að eins biðja hvern þann lesara, sem er ant um sáluhjálp sína, að athuga með alvöru, hversu miklu öðruvís þessu er háttað fyrir Katólska. Trú Katólskra er bygð á kenningu hinnar *einu almennu* og *postullegu* Kirkju; hver trúargrein er komin til þeirra með helgum vitnisburði 1800 ára, og staðfest með atkvæðum hinna helgustu og lærðustu meðal hinna trúuðu frá því á dögum Postulanna og J. K. Og þegar Katólskir gefa sig undir umboðsvald það, er K. hefir tilsett í hans stað, þá hlýða þeir hinum guðlega Frelsara; *sá sem hlýðir yðr, hann hlýðir mèr.* Í hinni katólsku Kirkju finnast engir *smáflokkar, er liggja í einlægu stríði hver við annan*; þar er fullkominn samhugi í öllum trúargreinum, því undir eins og menn verða varir við einhverja kenningu, er mótstæðileg er því, er Kirkjan hefir kent nú í meir en 18 aldir, sýna menn og sanna hinum ofdirfskufulla, er kemr með þessa kenningu, að hann víki frá því, er

kent hefir verið og trúað á öllum öldum, og Kirkjan kennir enn þann dag í dag; menn minna hann á það, er allir Kirkjufeðr hafa sagt við alla trúarvillumenn: »þú kemr með nýjungar, og því ertu í villu«; og ef hann er harðsvíraðr, þá er honum vísað burt úr skauti Kirkjunnar. Og þar sem Prótestantar ekki vita, hverjum þeir eiga að trúa, af því lærifeðr þeirra eru í sífeldri mótsögn, ekki að eins sín á milli, heldr og oft við sínar eigin hugmyndir, þá standa Katólskir þar á móti, þegar þeir sjá, að byskupar og prestar þeirra og lærðir menn eru á einu máli, fastir og rólegir í trú Kirkjunnar[1].

## 4. GREIN.

### Um guðspjall hins h. Jóhannesar.

Eftir að vèr erum búnir að leiða rök að því, að

1) Og ekki hjálpar það fyrir Mótmælendr hèr að neita því, að svo sè í kat. Kirkjunni, og að segja, að kenning K. og Postulanna hafi breytzt hjá henni, því vèr höfum í „Útskýringu“ vorri leitt áreiðanlegar sannanir að því, að hinir helztu trúarlærdómar, er Prótestantar brigzla Kirkjunni um, að hún hafi breytt, hafa upptök sín frá Postulunum, t. a. m. yfirvald Páfans eða byskupsins í Rómi, sem höfuðs Kirkjunnar; erfikenningin, og að hún ætíð hafi verið álitin nauðsynleg; 7 Sakrament, en ekki að eins 2; að brauðið í h. kvöldmáltíð breytist í líkama og vínið í blóð J. K., sem og offr líkama og blóðs J. K. í hinni h. Messufórn; að góðverkin (en ekki að eins trúin) hafi verið álitin nauðsynleg til sáluhjálpar; að hver sá, er hefir viljað þýða h. Ritningu eftir sínum „eigin geðþótta“, og lagt í hana annan skilning en Kirkjan, hafi verið skoðaðr sem trúarvillumaðr; og margt annað höfum vèr sannað, en enginn, og jafnvel ekki hra S. Melsteð, er þó hafði í „Samanburði“ fullyrt hið gagnstæða, hefir sýnt, að röksemdir vorar og sannanir væri óáreiðanlegar, og meðan Mótmælendr ekki gera það, þá geta þeir ekki með rèttu borið kat. Kirkjunni á brýn, að hún hafi breytt þessum trúarlærdómum.

guðdómr J. K. sè sannaðr og kendr í ritum hins N. T., gætim vèr leitt hjá oss hinar fánýtu endileysur, er hra M. E. hefir hrúgað saman út af 4. guðspjallinu, þar eð hann ekki hefir kastað því af annari ástæðu en þeirri, að hann ímyndar sèr, að guðspjallamaðrinn hinn h. Jóhannes sè sá *eini*, er tali um guðdóm J. K. En vèr viljum ekki, að hann geti borið oss á brýn, að vèr hafim ekki þorað að fylgja honum á krákustig þess, er hann kallar *röksemdaleiðslur*, en sem vèr megum, með öllum rètti, kalla *vitleysur*.

1. Atriði. *Um mótbárur hra M. E. gegn 4. guðspjallinu.*

Það kemr fyrst til álita, hvort þessar mótbárur sè á gildum rökum bygðar, eins og hra M. E. leitast við að telja mönnum trú um; það getr, ef til vill, í fljótu bragði, lítið svo út, sem hann hafi rètt að mæla, en það er að eins með því móti, að menn taki ekki eftir, að hann hèr eins og hvervetna afbakar textana, rangsnýr þeim eða leiðir þá hjá sèr. Þessar mótbárur hans eru helzt fólgnar í mótsögnum, er hann þykist finna milli 4. guðsp. og hinna 3 guðsp., sem og milli ýmsra staða í 4. guðsp. sjálfu. Hin verulegasta af þessum mótsögnum er í raun rèttri sú, að 4. guðsp. *geri J. K. að Guði* (svo segir M. E.), sem hin ekki geri. Geti menn nú leitt rök að því, að þessi ósamhljóðun ekki eigi sèr stað, þá detta allar hinar mótbárurnar um koll af sjálfum sèr. En vèr erum búnir að sýna og sanna, að þessi mótsögn, er hèr ræðir um, ekki eigi sèr nokkurn stað, og að þeir hljóti að vera mjög svo sljófskygnir, er ekki geti sèð, að hin 3 fyrstu guðsp., sem og hin önnur rit N. T. vitna skýrt og á órækan hátt um guðdóm J. K. Allar mótbárur hra M. E. eru þannig

eintóm endileysa, og ekki þess verðar, að menn, er nokkur alvara er í, gefi þeim nokkurn gaum; en þar eð hra M. E. (og ef til vill nokkrum öðrum) þykir svo mikið í þær varið, getum vèr ekki gengið þegjandi fram hjá þeim, og vèr skulum byrja að tala um þær mótsagnir, er eiga að vera milli 4. guðsp. og hinna guðsp.

Sú mótbára, er þegar verðr fyrir oss, er vèr lesum bók hra M. E., er sú, er snertir kærleikann. Eftir því sem höfundrinn kemst að orði, ætti guðsp.maðrinn ekki að þekkja »kærleikann til Guðs, til náungans«, og sèr í lagi *til óvina,* og *jafnvel ekki* að »*nefna* kærleikann til óvina» (bls. 5.), og þessi skoðun hra M. E. staðfestist einkum af þeim stað í guðsp., 15, 13: »meiri kærleika hefir enginn en þann, að maðr láti líf sitt fyrir *vini sína*« og þá kallar hann upp: »Þetta er einmitt sá kærleikr, er góðir heiðingjar hafa sýnt, hærra kemst ekki Kristr guðsp.mannsins«. Hefði hra M. E. ekki viljað þýða þessi orð eftir hans *eigin geðþótta,* heldr eins og allir kristnir menn hafa gert það, og eins og þau eiga að skiljast, þá hefði hann ekki komið með þvílíka vitleysu, eins og þessa. Því merkingin í þessum orðum er auðsjáanlega sú, að enginn getr sýnt vinum sínum *meira kærleika en þann að láta líf sitt fyrir þá;* en alls ekki, að hinn mesti kærleikr sè að láta líf sitt að eins fyrir vini sína[1]. Og þetta sèst bezt

1) En vilji M. E. endilega halda fast við útskýringu sína á þeim stað, þá gætim vèr gefið honum það eftir, og oss þarf vissulega ekki að vera svaravant fyrir því. Vèr skulum að eins biðja M. E. að fletta upp í einhverri grískri orðabók, ef hann, að öðru leyti, getr það, og þar mun hann sjá, að orðið φίλος, er stendr í frumritinu og sem hann hèr þýðir út með orðinu: „vinr" þýðir ekki að eins „elskandi", heldr og „elskaðr, kær"; og á hinum tilvitnaða stað talar J. vissulega um dauða sinn, um líf sitt, er hann lætr fyrir

af öllu samanhenginu í þessum sama kapítula; eða segir K. lærisveinum sínum ekki v. 12, að þeir eigi að »elska hver annan eins og hann elskar þá«? Og hvernig elskar hann þá? v. 9 »eins og Faðirinn elskar hann». Og talar K. hèr ekki um dauða sinn? og hefir hann ekki dáið fyrir alla menn? Það segir að minsta kosti 4. guðsp., »svo *elskaði* Guð *heiminn*, að hann gaf sinn eingetinn Son, »(og hvað er heimrinn? allir menn vissulega, og hver einstakr), til þess að *hver*, er á hann trúir, ekki glatist, til þess að *heimrinn* frelsaðist fyrir hann». Eða sýnir ekki guðsp.maðrinn með þessum orðum, að hann þekkir *kærleikann*, og jafnvel kærleikann til *óvina?* hver maðr með samvizku gæti neitað því? Vèr viljum þó trúa því, að hra M. E. hefði sèð það, hefði ekki sú sèrvizka og það hatr móti 4. guðsp., er hann er svo gagntekinn af, tekið frá honum alla sjón. Nú heldr hra M. E. áfram og segir, að 4. guðsp. »þegi um merk atriði í lífi K.... og segi svoleiðis frá atburðunum, að þessi atriði komast hvergi inn» og »þetta gildir«, segir hann, »um freistingu K. á eyðimörkinni, sem *hvergi kemst inn,* af því 4. guðsp. lætr K. gera alt annað strax eftir skírnina«. En þetta er ekki að eins alveg rangt, heldr og öldungis frágangssök; eða hefir hra M. E. lesið þenna 1. kapítula í 4.

---

heiminn, segir 4. guðsp., þ. e. fyrir alla menn, er honum eru „allir kærir“, er hann elskar „alla“, þó þeir ekki elski hann. Og hefði M. E. því gert sèr það ómak að skilja þetta litla orð, þá hefði hann ekki þurft að eiða svo mörgum ókvæðis og ámælisorðum, sem hann gerir. En það er satt, hann hefði þá ekki getað borið þessa vitlausu mótbáru 4. guðsp. á brýn, hann hefði ekki getað lagt: þetta „lag í gegnum hjartað á kærleikans guðsp.“, og þá var búið með köllun hans sem „reformator“! en hann vill vera það með hverju móti sem er.

guðsp.? hvernig stendr þá á því að hann ekki hefir sèð, að guðsp.maðrinn tilfærir ekki frásögnina um skírnina? Því hann lætr Jóhannes Skírara segja frá því, er gjörðist við Skírnina; v. 29 »sèr Jóhannes Jesú koma til sín og segir« o. s. frv. v. 30—34; það er þó deginum ljósara fyrir hvern mann, er vill lesa þenna stað með athygli, að þar er engin frásögn um skírnina. Og þessi orð: »*daginn eftir*«, er fyrst koma v. 29, tákna auðsjáanlega *daginn eftir* það, að Gyðingar hefði sent til Jóhannesar presta o. s. frv. v. 19. Og sá dagr er sá, á hverjum »Jóhannes sá Jesú koma til sín frá fjallinu, þar sem djöfullinn hafði farið frá honum«[1], segir h. J. Krysostomus, og hann bætir því við: »postulinn skýrir hèr frá því, er gerðist eftir það að Jesús kom niðr af fjallinu, en sem Matteus hafði ekki minzt á«, og þetta gerðist vissulega eftir skírnina, og jafnvel eftir freistinguna, og eftir þessu *kemst* freistingin *mikið vel inn*, og því er það heimskulegt, alveg vitlaust, og hið fráleitasta er hugsazt getr, hjá hra M. E., að koma fram með jafnhlægilega mótbáru[2].

1) Sjá Matt. IV, 8—11. — 2) Það liggr hèr í augum uppi, að M. E. hefir annaðhvort eigi lært hina einföldustu undirstöðu talnafræðinnar, eða hann hefir gleymt henni; vèr skulum sanna það. Hann segir, að orðin: „daginn eftir“ í v. 29. merki daginn eftir skírnina; gott og vel! Teljum dagana, því eftir ætlun hans segir guðspjallamaðrinn frá, „hvað J. gerði hvern daginn eftir annan“. Vèr höfum þá í 29. v. einn dag; í 35. v. lesum vèr „daginn eftir“; þá eru komnir 2 dagar; í 44. versi lesum vèr: „daginn eftir“. Það verða án efa 3 dagar. Sá dagr, er þar eftir kemr, hlýtr því að vera hinn fjórði, annars væri talnafræðin vitlaus; en vèr lesum c. II. v. 1.: „Og á þriðja degi var haldið brúðkaup“, o. s. frv. En ef guðspjallamaðrinn segði frá, hvað Jesús gerði hvern daginn eftir annan, þá yrði þetta eigi hinn 3. dagr, heldr hinn fjórði. Það er því annaðhvort, að M. E. kann eigi að telja aftr að fjórum, eða hann

Og öldungis eins er því varið með *K. pínu* í grasgarðinum, sem er hið annað atriði er, eftir hra M. E., *ætti ekki að geta komizt inn* eftir 4. guðsp. Því fer fjarri að svo sè, því guðsp.maðrinn gengr miklu fremr út frá því, að hún hafi átt sèr stað. Lesi menn kap. XVIII 1. »Þegar Jesús hafði talað þetta, gekk hann út... yfir um lækinn Kedron, þar var grasgarðr «o. s. frv. Hvernig getr hra M. E., eftir því sem hèr stendr, þorað að segja, að pínan í grasgarðinum »*geti hvergi komizt inn*? Eða hvað gerði Jesús þar í grasgarðinum, meðan Júdas var að búa sig og menn sína? augsýnilega það, er hin guðsp. skýra frá. Eða hvernig ætlar hra M. E. að sýna fram á það, að 4. guðsp. hafi átt að taka það upp aftr, orðrètt, er hinir guðsp.mennirnir voru þegar búnir að segja?[1]. Þetta er alveg ástæðulaust og frá-

---

kemr með vitleysur og lokleysur, er menn ekkert nafn hafa á; og það er þessi maðr, er ætlar sèr að endrbæta kristna trú! Biðji hann þá fyrst hina „andlegu leiðslu" sína, að kenna sèr að telja aftr að fjórum; og þá geta menn hugsað sig um, hvort þeir eigi að heyra þenna mikla endrbætara trúarbragðanna!

1) „Það hjálpar ekki" segir M. E., „að berja í brestina... og segja: að Jóh. hafi slept þessum atriðum af því hinir guðsp.mennirnir höfðu þau" (bls. 9,). Hvers vegna skyldi það ekki „hjálpa"? Já það „hjálpar" mikið, af því M. E. verðr, til þess að geta komizt að því að færa nokkrar vesælar tyllimótbárur gegn 4. guðsp., að rangsnúa öllu, og að láta 4. guðsp. segja alt annað en það segir; það „hjálpar" mikið, af því M. E. og „andleg leiðsla" hans megna ekkert móti allri sögunni, móti vitnisburði Kirkjunnar; eða hver er sá, með heilbrigðri skynsemi, er mundi vilja láta leiðast af þessari „andlegu leiðslu hans"? Ekki er hún mjög trúr leiðtogi, vèr höfum oft orðið þess varir. — Hefir nú h. Jóhannes ekki slept mörgum atriðum, sem eru mikilvæg sönnun guðdóms J. K. t. a. m. ummynduninni, er hann hafði sjálfr verið sjónarvottr að, og svo mörgum kraftaverkum, er veita svo óræka sönnun fyrir guðdómi K. o. s. frv.?

leitt, einkum ef menn gæta þess, að hin 3 fyrstu guðsp. skýra ekki frá öllu því, er K. gerði og kendi; og hver sá, er hefir nokkra skímu af því, er í Guðspjöllunum stendr, hlýtr að sjá og skilja, að h. Jóhannes hefir, er hann ritaði guðsp. sitt, einkum haft það fyrir augum að skýra frá kenningu K. í Jerúsalem og í Judeu, og meðal hinna skriftlærðu, í stað þess að hinir guðsp.-mennirnir binda sig við kenningu K. í Galileu; það er líka auðsætt, að augnamið hans er, að vara hina Kristnu við að láta sig afvegaleiða af villukennurum, Cerinthus og öðrum, er neituðu, eins og hra M. E., guðdómi J. K. og holdtekju *Orðsins*. Hèr af kemr það, að Jóhannes tekr fram *einkum* það, er beinlínis sannar, að Jesús af Nazareth sè *Sonr Guðs*, að *Orðið* hafi orðið *hold*, ljós og líf heimsins; þetta er aðalhugsunin í 4. guðsp. Það er því auðsætt, að þessar mótbárur hra M. E. eru á engum rökum bygðar, og ekki annað en eintóm endileysa, er að engu er hafandi, og þar eð þær eru hinar helztu hjá honum, þá gildir það, er hèr er sagt, í enn fyllra skilningi um hinar. Og enginn, er hefir heilbrigða skynsemi, getr því látið sig blekkja af sjálfsköpuðum útskýringum hra M. E., er ekki hafa við neitt að styðjast, en eru gagnstæðar öllum vitnisburðum Kirkjufeðranna og orðum 4. guðsp. sjálfs.

Nú skulum vèr taka til íhugunar nokkrar af þeim mótsögnum milli einstakra staða í 4. guðsp., er hra M. E. þykist finna svo víða í þessu guðsp. Hann hefir í sínu íslenzka riti að eins tekið fram 4 af þeim, og þær eru, segir hann, bls. 10, svo ljósar »að þær þurfa ekki frekari útskýringar við«; en þó hann segi, bls. 11, að það sè »margar fleiri og miklu meira áríðandi», er hann telr upp í *stóru bókinni*, skulum vèr þó einungis halda

oss til þeirra, er hèr liggja fyrir, því ef þessar, er hann vissulega gefr út sem ljósari, og svo sannfærandi, að ekkert verði haft á móti, alls ekkert sanna, þá skilr hver maðr, að hinar muni vera og eru í raun rèttri ekki nema tylliástæður, er ekki geta til neinna greina komið.

Hin 1. mótsögn ætti að vera milli Jóh. V, 31 og VIII, 14; með góðu leyfi lesarans skulum vèr gera hèr þessa athugasemd: það er til ein gömul lagaregla: »*Menn taka engan fyrir gilt vitni í sínu eigin máli*«. Þó þessi regla sè góð og nauðsynleg fyrir mannlegum dómstólum, þá er það þó auðsætt, að hún hefir ekkert yfireðlilegt (*metafysiskt*) og fullkomið gildi, því maðr getr haft rètt að mæla, þótt hann eigi sjálfr hlut að máli, og þetta var vissulega svo, það sem J. K. snertir; ætli hra M. E. vilji vefengja það? En aftr er það og sjálfsagt, að K. gat gefið það Fariseunum eftir, að þeir mætti fylgja þessari mannlegu reglu við sjálfan sig, til þess að geta á eftir betr rekið þá með þessari sömu röksemd, og það er það, er hann gerir á 1. staðnum, er hèr ræðir um. »Ef eg vitna um sjálfan mig«, segir hann, »þá er vitnisburðr minn ekki sannr«, þ. e. fyrir *Fariseana,* er vissulega vildu skírskota til hinnar mannlegu lagareglu; og að merking þessara orða sè sú, er vèr gefum hèr, sanna bezt orðin, er á eftir koma, því Jesús bætir undir eins við v. 32: »Annar er, sem vitnar um mig«, það er eins og K. segði: þèr viljið fylgja yðar mannlegu lagareglu, nú gerið þèr það, v. 33: »þèr hafið sent til Jóhannesar, og hann bar sannleikanum vitni«. Á seinna staðnum VIII, 13, gefa Farisearnir Jesú í skyn, að vitnisburðr hans um sjálfan sig sè ekki sannr; en þegar hann var búinn einu sinni að gefa þeim það eftir, að geta fylgt þeirra mannlegu lagareglu,

vill hann ekki gera það aftr, og hann var vissulega í sínum fulla rètti, jafnvel þó hann hefði ekki verið Guð; og höfðu þeir ekki áðr heyrt vitnisburð Jóhannesar Skírara? og hafði K. ekki gert kraftaverk? það vill hann vissulega segja, er hann v. 16 vitnar til Föður síns. Vèr spyrjum hvern skynsaman mann, hvort þessi útskýring sýni ekki ljóslega, að engin mótsögn sè milli þessara tveggja staða? og er það ekki auðsætt, að hra M. E. hefir hèr verið heldr fljótr á sèr, og ekki lesið niðr í kjölinn, er hann þykist finna mótsögn milli þessara staða?

Hvað Jóh. XV, 15, og XVI, 12, snertir, þá er það auðsætt, þegar menn lesa þessi orð með athygli, að J. K. talar ekki um það sama á báðum stöðunum. Kap. XV 15, segir K. Postulunum, að hann hafi »sagt þeim alt það, er hann hefir heyrt af Föðurnum«, þ. e. eins og alt samanhengi hèr sýnir, alt um sjálfan sig, hvað hann sè o. s. frv., hvers vegna hann sè kominn í heiminn. »Eg kalla yðr ekki framar«, segir hann, »mína þjóna, því þjónninn veit ekki hvað Herra hans gerir, en eg kalla yðr vini«, eins og hann segði þeim: eg fer að við yðr, eins og vinr við vini sína, og segi yðr, hvað eg sè, hvað eg geri. En á hinum staðnum talar Jesús um kenningu sína, og að hann hafi enn margt að segja þeim, er H. Andi muni kunngera þeim seinna[1].

1) M. E. mun, ef til vill, af því hann útskýrir alt öðruvís en kristnir menn hafa gjört hingað til, vilja endilega skilja 1. staðinn svo, að J. K. tali þar um kenningu sína; en vèr gætim þá sagt, að K. á 2. staðnum hafi táknað að hann ætti enn eftir að birta þeim, ekki nýja trúarlærdóma, eða nýja kenning, heldr útskýringar, útlistanir og læring; eða, ef M. E. vill endilega, að á þessum 2. stað sè talað um trúarlærdóma, sem (v. 13) „H. Andi muni kunngera þeim“ þá hlýtr hann að kannast við það, að trúarlærdómar K. *finnist*

Það er nú alveg óskiljanlegt, hvernig nokkur maðr, er hefir nokkurn snefil af heilbrigðri skynsemi, geti sagt, að nokkur ósamhljóðun finnist milli Jóh. XIII, 36, og XVI, 5. Á fyrra staðnum er Pètr að hugsa um það, er Jesús hafði sagt þeim fyrir um pínu sína og dauða, og hann vill, hrifinn af elskunni til síns góða meistara, fylgja honum eftir, en þegar hann heyrir, að Jesús segir, v. 33: þèr getið ekki fylgt mèr (að sinni), þá kallar hann upp, v. 36: »hvert ætlar þú (þá) að fara«? hvers vegna get eg ekki fylgt þèr nú þegar, eg, sem vil leggja líf mitt út fyrir þig? Það er því auðsèð fyrir menn, er vilja lesa þann stað í heild sinni, að Pètr, með þessum orðum: »*hvert fer þú*«? vill tákna *pínu* og *dauða* Krists. En á seinna staðnum er það líka auðsèð fyrir þá, er lesa þenna stað með athygli, að þegar Jesús segir Postulunum: »Enginn yðar spyr mig: *hvert fer þú?*« talar hann ekki um *pínu* sína og *dauða,* heldr um *himnaför* sína. Það segir hann sjálfr s. s.: »*Eg fer til hans, er mig sendi*«, og þar eð hèr er talað um alt annað en á fyrra staðnum, getr K., án nokkurrar mótsagnar, sagt: »Enginn yðar spyr mig: *hvert fer þú*«?

Nú er eftir ein svo kölluð mótsögn; Jóh. VII, 27, segir: »Vèr vitum, hvaðan hann (Jesús) er; en þegar K. kemr, veit enginn hvaðan hann er». Þá svaraði Jesús v. 28, »þèr þekkið mig og vitið, hvaðan eg er. Af sjálfum mèr er eg ekki kominn, (en þann er sendi mig) þekkið þèr ekki«; og VIII, 18: »Faðirinn, er sendi mig, vitnar um mig. 19: Nú sögðu þeir... hvar er Faðir þinn? Jesús svaraði: hvorki þekkið þèr mig nè Föður minn». Og það er milli þessara staða, sem hra M.

ekki allir í h. Ritningu, þar eð hvergi sè talað í henni um þá lærdóma, er h. Andi hefir birt Postulunum.

E. vill endilega finna mótsögn! Það er sjálfsagt, að hèr væri augsýnileg mótsögn, ef 4. guðsp. segði, að K. væri að eins Guð, eða með hra M. E., að Kristr væri að eins maðr; en ekki höldum vèr að svo sè, heldr kennir h. Jóhannes, að Kristr sè *Guð* og *maðr*, og á fyrra staðnum ræðir um *fæðing* J. K. sem *manns* og um dvöl hans í Nazareth, en þar á móti talar K. á hinum staðnum um sinn *himneska uppruna* frá Guði Föður, með hverjum hann hefir verið frá allri eilífð; er það ekki deginum ljósara? Og verðr hra M. E. ekki, til þess að geta neitað því og fundið mótsögn hèr, að byrgja augu sín fyrir orðum þeim er koma rètt á eftir þeim, er hann hefir tilfært: »Af sjálfum mèr er eg ekki kominn... þèr þekkið ekki þann er sendi mig», þ. e. þann frá hverjum eg er kominn? Að vilja nú finna mótsögn milli þessara staða, og eins milli hinna staðanna, er vèr höfum talað um hèr, er það ekki að berja blákalt fram sína skoðun, og um leið að bera að sèr böndin fyrir vankunnáttu og skilningsleysi? Eða er hra M. E. þá svo sljófskygn og svo skyni skroppinn, að hann ekki skilji og sjái þetta? Eða hugsar hann sèr að villa með þessu sjónir fáfræðinga og alþýðumanna? Vèr getum ekki sèð betr en að það sè hvorttveggja.

2. Atriði. *H. Jóhannes er höfundr að 4. guðspjallinu.*

Vèr erum búnir að sýna og sanna, að hinar helztu mótsagnir, er hra M. E. segist finna annaðhvort milli 4. guðsp. og hinna guðsp., eða í 4. guðsp. sjálfu, eru allar gripnar úr lausu lofti, sjálfskapaðar og tóm endileysa, er ekkert hefir við að styðjast, og nú ætlum vèr

að leiða fram fáeinar röksemdir, er sanna á órækan hátt, að h. Jóhannes sè höfundr 4. guðsp[1].

Hra M. E., er vissulega dæmir í þessu aðra af sjálfum sèr, sèr ekki, á hinum fyrstu öldum Kristninnar annað en menn, er bæta við hina h. Ritningu, taka úr henni, snúa henni í hendi sèr, breyta svo að segja öllu í henni eftir *eigin geðþótta*[2]; vèr verðum að fræða hann, ef það er honum ókunnugt, um það, að vèr vitum það fyllilega, að þeir menn voru uppi, enda á dögum Postulanna, er gerðu þetta. En hverjir voru þeir? Það voru trúarvillumennirnir, Magnúsar þessara tíma, aðrir ekki. Þekkir hann þá svo lítið til sögunnar, að hann viti ekki, með hvílíkum áhuga og vandlætingu hinir h. Lærifeðr risu ætíð upp gegn þeim mönnum, er þannig afbökuðu hin h. Rit? H. Irenæus ber ætíð Gnóstikum á brýn, að þeir geri sig seka í þessum misverka,

1) Það hefir engum dottið í hug nema fáeinum ómerkilegum trúarvillumönnum, að rengja ritvissu 4. guðsp. — Bretschneider gerði það fyrstr á. 1820; en allir, jafnvel ýmsir skynsemistrúarmenn, báru orð höfundarins til baka; vèr gætim nefnt fleiri en 25 þýzka, og af þeim merkilegustu t. a. m. Schlecker, Susskind, Glaser, Wegscheider, Stein, Keiser, Crome, Hauff, Ebrard, Maier o. s. frv.; og jafnvel de Wette, sem er svo fljótfær í rannsóknum sínum um það, er snertir hin h. Rit, þóttist vera knúðr til að mótmæla í nafni heilbrigðrar skynsemi, slíkri skoðun, er ekki væri neinn fótr fyrir, og sem rifi það niðr, er trúin og vísindin í 1800 ár hafa verið samhljóða um að væri ómótmælanleg sannindi. Í stuttu máli: hafi árásir þær, er Biblían hefir orðið fyrir af hendi hinna þýzku, haft nokkurn árangr, þá er það sá, að það er orðið ljóst og skýrt og alment viðrkent, að guðsp. h. Jóhannesar ekki verði vefengt. Þetta ætti þó M. E. að vita, því málið hefir verið sókt og varið við dómstól lærifeðra hans. Og, ef hann þekkir svo vel til árása þeirra, hefði hann átt að hugsa dálítið betr um að ansa þeim einhverju. — 2) Sjá sèr í lagi Norðanfara, 15. Ág. 1865.

og öll 4. bókin í riti Tertullians um Marcion, hljóðar um sama efni, Origenes bregðr oft Celsus um hið sama[1]. Hugsar hra M. E., ef til vill, að hinir sannkristnu hafi borið eins litla lotningu fyrir, og farið eins illa með hin h. Rit, eins og hann og Mótmælendr gera? Eða heldr hann, að þeir hafi ekki þekt þessi orð: »Eg votta fyrir sèrhverjum ... að leggi nokkur hèr við... og taki nokkur af orðum þessarar spádómsbókar, þá mun Guð af honum taka hlutdeild hans í lífstrènu« ...[2]. En þar eð hra M. E., hèr eins og hvervetna, ekki kemr með annað en lausar getgátur, látum vèr lenda við þessa almennu athugasemd.

Vèr fullyrðum, eftir öllum lærifeðrum, að þó vèr ættim að halda oss að eins við 4. guðsp., til þess að skera úr því, hver sè höfundr þess, þá væri það efalaust, að h. Jóhannes sè það, því eftir því sem menn vita um hann af öðrum ritum, koma skýrt fram bæði hugsunarháttr hans og öll atvik í lífi hans í 4. guðsp. Höf-

1) Og hann (cont. Cels. l. II, n. 27) segir: „Eg þekki í sannleika enga, er hafi breytt textanum í Guðsp. nema fylgismenn Marcions, Valentins og ef til vill Lúkans. En það geta menn ekki gefið kenningu okkar að sök ... Skuldin er hjá þeim, er hafa dirfzt að afbaka“ ... M. E. hefði haft gott af að færa sèr í nyt þessi orð h. Justinus', er vèr tilfærum hèr: „Eg dirfizt hvorki að segja, eða að hugsa, að Ritningarnar sè ósamhljóða sín á milli; en beri svo við, að einhver sá Ritningarstaðr komi fyrir, er hafi þann blæ og líti út fyrir að verði í mótsögn við annan stað, vil eg fremr játa, þar eð eg er sannfærðr um, að engin mótsögn geti hugsazt milli Ritninganna, að eg skilji ekki staðinn, er um er að ræða“. Og það er það, sem allir sannkristnir, er kenna vanmáttar síns, hafa ætíð sagt og segja. En mótmælendr, jafnvel þeir, er ekki neita öllum aðaltrúargreinum, eins og M. E., hafa kent honum að fara alt öðruvís með h. Ritningu, sjá „Útskýringu“ vora bls. 110—115. — 2) Opinberunarb. XXII 18. 19.

undr guðsp. lýsir yfir því, að hann hafi verið sjónarvottr að því, er hann skýrir frá[1]; og margt kemr þar fram, er getr ekki átt heima nema hjá Jóhannesi[2]; þó hann margoft, fyrir efnisins sakir, þurfi að minnast á Jóhan. postula, þá nefnir hann hann þó aldrei á nafn, en lætr að eins lesarann ráða í nafnið[3]; k. XIII, 23 er hann einkendr sem sá lærisveinn, er »Jesús elskaði, og XXI, 20, sem sá er í hinni seinustu kveldmáltíð »hallaði sèr upp að brjósti Jesú«, sem sá er K. deyandi á krossinum fal á hendr móður sína[4]; hann er sá lærisveinn, er stóð undir krossinum og sá blóðið og vatnið, er rann úr síðu Frelsarans[5], sá er »vitnar það, er hann sá, og þetta hefir ritað[6]. Hver gæti eftir þessu neitað því, að h. Jóhan. hljóti að vera höfundr 4. guðsp.? Hra M. E. verðr því að útskýra, hvernig á því standi, að Kirkjufeðrnir, og kristnir rithöfundar, hafa *allir* skoðað það sem sjálfsagt og að enginn, svo að segja, af öðrum rithöfundum hafi leitt neinn efa á það, hver sá lærisveinn sè, er þannig væri bent á[7].

1) I, 14, Samanber I. Jóhan. I, 1, 2. — 2) T. a. m. XIX, 35. — 3) T. a. m. I, 41; XVIII, 15; XX, 2—4; XXI, 7, 20. — 4) XVI, 26. — 5) XIX, 34. — 6) XXI, 25. — 7) V: Iren. adv. hær., III, c. 1, n. 1.; Orig., in Joan. t. XXIII, n. 18; Chrysost., Hom. 88, n. 2 in Joan.; Corderii Cat. in Joan.; August. Tract, 113, n. 2 in Joan.; Hieron. adv. Jov. I, 26 etc. Vèr gætim bætt við hèr mörgum innri ástæðum, er sýna á ljósasta hátt, að höfundr 4. guðsp. þekti mjög vel landslagið, og því, að hann hafi verið uppi á 1. öld, áðr en Gyðingar voru reknir burt úr Judea, og landið breyttist algjörlega; t. a. m. það sem segir IV, 2 um brunn Jakobs: einnig mætti taka fram þá nákvæmni, er lýsir sèr XI, 54, þar sem talað er um borgina Efraim (er á dögum h. Hieronymus' hèt „Ophera, en þar stendr nú þorpið Taybeh), og um eyðimörkina í nánd við hverja borgin lá; sama má segja um Jeriko, þar sem Zakeus átti heima, um stöðu hans sem formanns tollheimtumanna; það er sagt er um Be-

Þessar innri röksemdir, er oss mundi hægt að margfalda, og sem í heild sinni mynda óræka sönnun, eru staðfestar af eins mörgum sögulegum vitnisburðum, og svo skýlausum, sem menn fremst geta óskað sèr. Hinn fyrsti, er nefnir bæði 4. guðsp. og höfund þess, er, að vísu, Theophilus 6. byskup í Antiokíu[1], en honum er samhljóða fjöldi annara rithöfunda, er honum eru samtíða eða voru litlu seinna uppi. Í fyrstu röð teljum vèr h. Irenæus, Klemens Alexand., höfundinn að brotinu, er Muratori hefir fundið, og Tertullían. Seinni rithöfundar eru t. a. m. Origenes, Eusebius, h. Gregor Naz., h. Epiphanius o. s. frv. Vèr tilgreinum hèr orð h. Hieronymus', er gefr ágrip af því, sem allir hinir hafa sagt; hann segir: »Jóhan. post. ritaði seinastr allra, eftir ósk og beiðni byskupanna í Asíu, guðsp. sitt gegn Cerinthus og öðrum trúarvillumönnum, og einkum gegn því trúaratriði Ebionita (er segja), að K. *hafi ekki verið til á undan Maríu*«[2]. (M. E. hefir öldungis þau sömu orð!).

Auk þessara rithöfunda getum vèr tilgreint aðra, er ná upp að dögum Postulanna, það eru þeir rithöfundar, er ekki nafngreina höfundinn að 4. guðsp., en vitna í það og bera það fyrir sig. Þannig tilfærir Tati-

---

thaniu, er nú á dögum heitir El Azariyeh, út af nafni Lazarus'; afstaða borgar þessarar; gröf Lazarus', er menn enn vita hvar liggr o. s. frv.

1) Um á. 170; orð hans eru þessi: „þetta kenna oss h. Ritningar og allir þeir, er innblásnir hafa verið af h. Anda; meðal þeirra er Jóhannes, þar sem hann segir: „í upphafi var Orð", o. s frv. Ad Autol. II. 22. — Vèr ráðleggjum M. E. einkum að lesa: Die Aechtheit des Evangeliums nach Johannes eftir J. K. Maier, og Quellensammlung, o. s. frv. eftir Kirchhofer. — 2) Iren. Adv. hær. III, c. 1, n. 1.; Clem. Al. apud Euseb. h. ecc. VI, 14.; Tert. adv. Prax. c. 23; Hier. de vir. ill. c. IX.

anus, er var nokkuð eldri en Theophilus, fleiri staði úr 4. guðsp.[1]. Kennari Tatians, h. Justinus píslarvottr, tilgreinir næstum orðrètt þann stað úr 4. guðsp., þar sem talað er um *Orð Guðs* og hann tekr fram orðin um J. K., er standa í 4. guðsp. VII, 13[2]; og ef vèr rekjum lengra upp eftir til h. Ignatius, í Antiokiu, finnum vèr hina sömu kenning um *Orðið* útskýrða á öldungis sama hátt og hjá Jóhan., og með þeim orðum, er augsýnilega eru viðhöfð með hliðsjón af guðsp. hans; þess konar orð finnast og oft í brèfum h. Ignatius', eins er því og háttað með Polykarpus og Papías[3]. Eru nú þessir vitnisburðir ekki fyllilega sannfærandi fyrir hvern mann með heilbrigðri skynsemi, er óháðr er hleypidómum og hindrvitnum?

Eftir þessu virðist oss ekki þörf á, að staðfesta

---

1) Orat. c. Græc. c. XIX. — 2) Apol. I, 6 og 61. — 3) Ignat. ad. Philad. c. VII, XI; ad Rom. c. VII; Polyk. ad Philipp. c. VII; Pap. ap. Euseb. h. ecc. III, 39. Hra E. Thorlacius hefir borið fram í Norðanfara nokkra af þeim vitnisburðum, er vèr hèr vitnum í; en vèr biðjum hann vel að athuga, að þessar sannanir, er vissulega eru mikilvægar, hafa lítið að þýða, þegar þeir menn leiða þær fram, er hafa sagt, eins og hann (Norðanf. Nov. 1863): Katólskir „beita þeirri djöfullegu slægð, að stela sannleikanum úr Biblíunni“; þeir „lesa hana eins og höfundr lyginnar“; þegar þeir menn hafa kallað hina h. trúarlærdóma, er öll Kristnin ætíð hefir aðhylzt: „viðrstyggilega, vèlabrögð Páfadómsins“ (S. s.), eða eins og hra S. Melsteð gerir hvervetna í „Samanb.“ „guðlastanir, andstyggilega hjáguðadýrkun, djöflalærdóma, Baalsdýrkun“ o. s. frv. Hefir M. E. ekki, eftir þessari kenningu, fulla heimild að gjöra þá að athlægi, er þeir koma með vitnisburð þeirra manna, og þeirrar Kirkju, er „hefir aflagað alveg lærdóm K. svo, að hann var orðinn óþekkjanlegr“? (Sam. 134)? Hefir M. E. ekki fullan rètt að segja, að Kirkjufeðrnir hafi eins vel getað útspekúlèrað guðdóm K., eins og þeir „hafa aflagað alveg lærdóm hans“?

enn fremr erfikenning Kirkjunnar með vitnisburði villutrúarmanna, er uppi voru á 1. og 2. öld, eins og t. a. m. Valentin og Herakleon[1], því auk Marcionita, er höfðu sèrstaklega ástæðu til að gera lítið úr 4. guðsp.[2], finna menn að eins eitt mjög svo ómerkilegt trúarfèlag er h. Epiphanius kallar í skopi *aloga*[3], er hafi neitað ritvissu þeirra rita, er h. Jóhan. er höfundr að, og *eignað* þau Cerinthus[4]. Vèr gætim einnig tilfært vitnisburði hinna heiðnu heimspekinga; vèr biðjum lesarann að sjá þann stað, er vèr höfum tilfært, hèr að framan bls. 103. eftir Júlían trúarníðing, þessi staðr er óræk sönnun fyrir ritvissu 4. guðsp. Eins er því varið með Celsus, hann neitar engu af Guðsp. og tekr úr þeim marga staði, er hann rangsnýr, og hann ber hinum Kristnu á brýn, að þeir kalli K. *Orð Guðs,* og þetta er auðsjáanlega tekið úr 4. guðsp., þar eð hann ekki brigzlar þeim um, að þetta sè ný kenning. Er það nú trúlegt, að þessir menn, og eins trúarvillumennirnir, hefði ekki sýnt fram á, að Guðspjöllin, hið 4. eins og hin, væri ekki eftir Postulana og lærisveina þeirra, hefði þeir sèð, að nokkur kostr væri á því? Hefði það ekki verið miklu hægra fyrir þá heldr en að rangsnúa þeim? En það er þó það, er þeir ekki gera, og vissulega af þeirri ástæðu, að þeir hafa ekki sèð sèr það fært, af því menn þektu þá alt of vel til alls þessa. Hvað sýnist nú hra M. E.? mun hann þykjast vera miklu færari en þeir menn allir, bæði Kirkjufeðrnir, Kirkjusöguritar-

1) Ap. Iren. adv. hær. III, 11, n. 7. — 2) En neituðu þó ekki ritvissu þess. — 3) Það þýðir. 1. þeir er neita „Orðinu“, og 2. fávitrir, er ekki hafa neins konar þekkingu; og það er meðal þeirra sem M. E. finnr sèr aðhvarf! Ætlar hann í alvöru að kveða upp rèttan dóm um sjálfan sig? — 4) Epiph. adv. hær. LI, 3.

arnir, trúarvillumennirnir og heiðnu heimspekingarnir, til að þekkja það er gerzt hefir svo að segja á dögum þeirra, eða svo skömmu á undan? Mun hann þykjast vera kunnugri kristinni kenningu á 1. öld og ákafari gegn henni, en trúarvillumennirnir og hinir heiðnu heimspekingar? Mun hann þykjast vera lærðari, hreinskilnari og guðræknari en Kirkjufeðrnir og söguritararnir? Eða ætlar hann að þýða þessa vitnisburði eftir sínum *eigin geðþótta*, eða þá að biðja hina *andlegu leiðslu* sína að koma sèr til hjálpar, og gefa sèr nægilegan neitunarkraft til þess að hafa dirfsku til að neita þeim algjörlega? Oss langar mikið til að vita, hvað hann gerir; en vèr ráðleggjum honum, samt sem áðr, að fara varlega, hvað sem hann svo velr sèr til úrræðis.

Vèr höfum nú sannað guðdóm Endrlausnara vors J. K., vèr höfum leitt rök að ritvissu guðsp. h. Jóhannesar; vèr höfum og, um leið, tekið fram hinar helztu mótbárur, er hra M. E. ber kristinni trú á brýn, og útskýrt þær, eðr og sýnt, að þær væri allar saman á mjög veikum grundvelli, eða heldr á sandi bygðar. Ætíð höfum vèr komizt að raun um, að hann hefir ekki leitt hina minstu, verulega og áreiðanlega sönnun fyrir máli sínu, neima góðfúsir menn vilji taka fyrir sönnun hina *andlegu leiðslu* hans, eðr og fráleitar hugmyndir og sjálfskapaðar útskýringar[1]. Mjög oft urðum vèr (þótt það hafi verið oss sárnauðugt) að sýna fram á, að hra M. E., þar eð hann gat ekki með neinu móti ráðizt á

1) En vèr, það er oss snertir, höfum sýnt, að vèr getum, með engu móti, verið svo góðfúsir. Er það ekki, að öðru leyti, auðsætt, að M. E. hefir fundið það upp, að skírskota til „andlegrar leiðslu“, að eins af því að hann vissi vel, að vísindalegar sannanir hans mundi verða lèttar á metunum?

kristna kenning, eins og hún liggr fyrir, hafi algjörlega og á ósæmilegan hátt rangfært hana; eins mikla óeinlægni og óhreinskilni hefir hann og sýnt, þar sem hann ekki gat fært neina sönnun fyrir máli sínu, með því að tilgreina margar sannanir upp á það, er vèr viðrkennum, og sem hann þurfti því alls ekki að sanna, auðsjáanlega til þess, að menn taki ekki eftir því, hversu honum var sannanavant. Þessi óhreinskilni sýnir sig einnig í því, að hra M. E. hrindir ekki einni einustu af þeim sönnunum, er kristin trú er bygð á, hann lætr, með því að leiða þær hjá sèr, í veðri vaka, að trú svo margra kristinna manna sè alveg ástæðu- og sannanalaus. Þessi óeinlægni kemr enn fremr fram, þegar hann er að bjóða mönnum sem heilög sannindi öfgar og vitlausar mótbárur, er margsinnis hafa verið algjörlega hraktar, og þar sem hann er að vitna í þá staði, er einmitt innihalda hið gagnstæðasta, er getr verið, kenningu hans; eða veit hra M. E. það ekki?[1] Hví er hann þá að rita? En ef hann veit það, og þegir þó um það við lesendr sína, hvað eiga menn þá að hugsa um þvílíka undirhyggju? Vèr skulum ekki kasta þungum steini á hra M. E., þó hann ekki hafi komið með neinar nýjar röksemdir, *enginn tekr sig meira mann en hann er,* en þar eð hann hefir látið svo lítið, að taka það upp aftr, er aðrir eru búnir margsinnis að segja á undan honum, þá var það skylda hans að skýra frá því, er beggja megin er komið fram í málinu; en leiða það hjá sèr, það er að gera sig að athlægi þeirra, er bera skyn á málið, og að skopast, þó ómaklegt sè, að hinum fávitrari.

1) Sè það svo, þá má hann í sannleika vara sig við hinni „andlegu leiðslu“ sinni!!!

Menn geta nú skilið, að vèr höfum fulla heimild til að snúa þeim lofsorðum, er hra M. E. er hrósað með í Norðanfara[1], og segja, að íslenzka bókin hans sè *ekki* rituð með *»skarpleika«* og allra sízt með *»kunnugleika efnisins«*[2]; en að hún sè rituð með *»sjálfstæðri hugsun«*, það er fullkominn sannleikr, því hann kærir sig ekki neitt um það, þó hann segi lesöndum sínum hinar fráleitustu vitleysur, og hin hræðilegustu ósannindi, sem heilög sannindi; og loks, að hún sè rituð með *»heitum áhuga«* getr vel verið, en það er þá með þeim *áhuga*, er kemr fram hjá öllum áköfum ofsamönnum í trúarefnum, gegn sannleikanum[3].

1) 27. Sept. 1866. — 2) Ef efnið er honum kunnugt, hvar er þá hreinskilnin? Því það er langt frá því að hann útskýri það nákvæmlega. — 3) La Bruyère († 1696) ritar: „Eg vildi heimta af þeim, er ganga í gegn því, er alment er haft fyrir satt og álitið almenn grundvallarregla, að þeir sè miklu lærðari en allir aðrir, og að þeir komi með skýrar og skilmerkilegar röksemdir, er fyllilega sè sannfærandi". Vèr dirfumst ekki að heimta það af hinum vantrúuðu og sèr í lagi af M. E, að hann skuli hafa lesið málið svo niðr í kjölinn, að hann geti talað um það skýrt og greinilega, og dæmi alt eftir rèttum hugsunarreglum; það væri ofætlun að fara því fram. En það getum vèr heimtað með öllum rètti, að hann beri virðing fyrir lesöndum sínum, að hann tali með alvörugefni um annað eins mál og trú 3 millíóna manna er, sem margir hverjir, hvað sem M. E. segir, hafa eins mikla og meiri þekking og guðræknis tilfinning en hann. Þetta hefði M. E. átt að láta sèr skiljast, áðr en hann rèðst á þá trú, er hinn mentaði heimr játar, áðr en hann rèðst til að svifta hann guðdómi sínum, er öll Kristnin tilbiðr sem Guð sinn; og einkum ef hann vildi líta aftr og renna augum yfir þann fjölda af vitringum og vizkumönnum, er komið hafa fram á því víðáttumikla sviði 18 næst liðinna alda, er hafa trúað því, er hann kastar, heiðrað og tignað það, er hann auðvirðir. Og þegar hann, í lèttúð sinni, og án þess að finna orðum sínum nokkurn stað, kallar alla þá menn „aula, vitfirringa, blinda" o. s. frv., þá

Það getr vel verið, að hra M. E finni ástæðu til að svara þessum ritlingi vorum, og leyfum vèr oss, ef svo yrði, að benda honum á þá stefnu, er vèr ætlumst til að hann eigi að taka í því efni. Hann hlýtr fyrst og fremst að láta sèr vera það hugfast, að þegar hann fer svo illa með h. Ritningu, og neitar guðdómi J. K., og öllum þeim aðaltrúarlærdómum, er hann opinberaði mannkyninu, á hann ekki að eins að skifta við hina svo kölluðu hreinsuðu Kirkju; það væri lítið í það varið, því hún getr ekki, þar eð hún hefir inn leitt þá aðaltrúarreglu, að hver og einn eigi að þýða h. Ritningu eftir »*eigin geðþótta*«, hreyft mótmælum gegn aðferð hans, án þess hún komist í bága við rèttar hugsunarreglur, því hann fylgir einmitt þessari trúarreglu, og þýðir h. Ritningu eftir sínum *eigin geðþótta;* heldr á hra M. E. að skifta við hina katólsku Kirkju, þ. e. við þá Kirkju, er Kristr sagði við, í persónu Postulanna: »*Farið* og *kennið öllum* þjóðum... Og *bjóðið* þeim að *gæta alls* þess, er *eg hefi boðið yðr;* og sjá, *eg er* með yðr *alla* daga *alt til enda veraldar;*« hann á við þá Kirkju að skifta, er alt frá þeim tíma hefir kent það, er K. bauð henni að kenna, þ. e. guðdóm hans og alla lærdóma kristilegrar trúar, er staðfestir eru og sannaðir af hinum afarmörgu píslarvottum, er hafa úthelt, og enn úthella blóði sínu til vitnisburðar um trú hinna Kristnu á hina tilbeiðsluverðu leyndardóma, er staðfestir eru af hinum mörgu þúsundum lærifeðra, er hafa útlistað og skýrt þessa leyndardóma, og með aðstoð náðarinnar og opinberunarinnar, hafa leitt veika skyn-

sýnir hann með því, að hann hvorki kann að bera virðing fyrir sjálfum sèr, nè heldr fyrir lesöndum sínum, nè heldr fyrir því máli, er hann hefir tekið sèr til meðferðar.

semi mannsins svo langt á leið, sem henni er unt að komast, og á órækan hátt sannað, að þessir leyndardómar ekki koma í neinn bága við heilbrigða skynsemi, en að hver skynsamr maðr, er með alvörugefni íhugar þá, hlýtr að trúa þeim og aðhyllast þá.

Hra M. E. verðr því, áðr en hann fær rètt til að útskýra h. Ritningu eftir sínum *eigin geðþótta,* áðr en hann fær heimild til að neita öllum kristilegum aðaltrúargreinum, að sanna, annaðhvort að J. K. hafi ekki stofnað *Kirkju, og boðið henni að kenna,* eðr og að þessi Kirkja, er J. K. hefir stofnað, sè undir lok liðin, og því, að katólska Kirkjan sè það ekki. Og af þessu leiðir, að hra M. E. verðr að sanna ógildi þeirra röksemda, er kat. Kirkjan hefir ætíð leitt og fært til þess að sanna rètt sinn til að segja, að hún sè sú Kirkja, er K. hefir stofnað. Nokkrar af þessum röksemdum höfum vèr, eftir veikum mætti, tekið fram í stuttu ágripi í »Útskýringu« vorri. Þar næst verðr hra M. E. að taka það fram greinilega, hverjir þeir kaflar h. Ritningar sè, er hann álítr að vera hreint Guðsorð, og hverjir ekki, og um leið að sýna ljóslega fram á, hvers vegna hann kastar svo mörgum köflum hinna h. Bóka.

Hra M. E. verðr og að láta sèr hugfast, að það er skylda hans, ef hann tekr enn til máls, að svara beinlínis þessum röksemdum, sem og þeim, er vèr höfum leitt í þessum ritlingi gegn villukenningu hans, því ef hann, af því hann kennir vanmáttar síns að svara þeim, fer út í aðra sálma, og á snið við þær, þá munum vèr, líkt og vèr höfum áðr gert, ekki hika oss við að draga skýluna frá hans dularfullu undirhyggju.

Guð gefi, að hann í rannsóknum sínum og röksemdaleiðslum, geti lagt fram þann skilningsþroska, er

svo háleitt og umvarðanda efni sem það, er hèr ræðir um, útheimtir! Guð gefi honum að geta neytt þeirrar heilbrigðrar skynsemi, sannleiksástar og hreinskilni, er menn segja komi fram í öllu dagfari hans!

N.B. Vèr getum þess hèr, að vèr höfum, í greinum h. Ritningar, fylgt frumritinu, eðr og einhverri íslenzkri útgáfu.

---

# Er það satt eðr ósatt, sem hra Jónas Guðmundsson segir um bækling vorn: „Jesús Kristr er Guð“ o. s. frv.?

(Fylgir ókeypis hinum sama ritling).

---

Herra Jónas Guðmundsson er að reyna, á hèr um bil 6 blaðsíðum[1], að sanna, að vèr katólskir prestar sèim *»villutrúarmenn og skynsemistrúarmenn«*, eftir því, segir hann, sem vèr komum fram í riti voru: *„Jesús Kristr er Guð“* o. s. frv. Þó vèr nú svarim honum hèr, þá biðjum vèr menn að ímynda sèr ekki, að oss þyki það svaravert, er hann hefir sagt, ó nei! Því fer fjarri! Vèr svörum fyrir þá einu sök, að hra J. G. er höfundr að þessari kátlegu áreitni[2]; og hra J. G. er útlærðr í guðfræði frá háskólanum í Khöfn, hann er undirkennari við hinn lærða skóla og (nú sem stendr) settr kennari við prestaskólann hèr, og vera má, að hann innan skamms fái enn hærra embætti, og þetta getr vissulega gefið tilefni til að svara þessum manni, hvernig sem hann er í sjálfum sèr, og hvað sem hann ritar eða segir.

---

1) Á vel sterkum pappír, og kosta að eins 4 skild.!!! — 2) Og af því vèr getum látið festa þessi fáu blöð aftan við flestöll exemplör af ritlingi vorum. Og að öðru leyti er það auðsætt, að hra J. G. vill endilega fá dálítið rúm í þeim litla flokki, er ver erum þegar byrjaðir að safna, af þeim mönnum, er rangfæra kenning vora, og þar eð hann er vinr vor, þá væri það eigi vel gert af oss, að synja honum skírteinis um það.

Hra J. G. segist «*aldrei hafa getað búizt við, að katólskum manni tækist að hrinda til fulls villukennkenningu M. E.*». En hvers vegna er það svo? Hann hefir ekki kært sig um að fræða menn um það, og þar til geta verið góðar ástæður. En nú liggr önnur spurning fyrir: hvers vegna hefir hra J. G. ekki *hrundið* sjálfr *til fulls* villukenningu M. E.? Þeir menn, er hafa lesið ritling vorn, einkum bls. 108—124, geta annars sèð, að þar til muni einnig vera góðar ástæður. Og enn spyrjum vèr hann, hvernig hann geti vitað, að vèr hafim ekki *hrundið til fulls* villukenningu M. E.? Eða kannast hann ekki við það sjálfr með hreinskilni (!?), að hann hafi ekki lesið bók vora? Hann hefir sumsè lesið hana að eins «*aftr að 44. bls....*»; honum »*fór þegar að ofbjóða*», og hann «*tekr hana víst ekki ótilknúðr aftr í hönd*». Hann hefir því ekki getað veitt oss þá æru, að lesa bók vora, og þykir oss það mjög slæmt, en ekki sjálfra vor vegna, sem nærri má geta. Hann þykist geta lagt dóm á bók vora án þess að hafa lesið hana! En svona er nú skoðun manna misjöfn og aðferð þeirra ólík, oss fannst, að vèr ekki gætim farið að rita um þessar 6 blaðsíður hans, án þess að vera búnir að lesa þær aftr og aftr, og sjáum vèr ekki eftir því, og viljum ekki taka það fram, hvað oss ofbauð að sjá þessar öfgar og lokleysur. En vèr neitum algjörlega hra J. G. um þá heimild, er hann tileinkar sèr að dæma ritling vorn, þangað til hann hefir annaðhvort lesið hann, eða þá sýnt og sannað, að hann hafi sèrstaka náðargjöf fram yfir alla aðra menn; og vèr ætlum undir eins að taka það til íhugunar, er *sýnist* vera aðalatriðið hjá honum, en það er það, að hann þykist vera neyddr til »að verja kenning katólsku Kirkj-

unnar móti þjónum hennar sjálfrar«. Hann segist nefnilega hafa fundið hjá oss trúarvillu, er katólska Kirkjan hefir fyrirdæmt, og þessi trúarvilla á að vera sú, að vèr «*aðskiljim 2 náttúrur Krists*», og vèr gerim það, eftir því sem hann segir, af því vèr höfum þau orð við, að «Jesús hafi verið Guðs smurði *einungis* sem *maðr*, en ekki sem *Guðmaðr*, og að hann hafi vitað um dómsdag ekki sem *Guðmaðr*, heldr sem *Guð*». En þetta er eigi nærri nákvæmt hjá hra J. G., því hvað 1. staðinn snertir, er það auðsætt fyrir hvern mann, er vill lesa hann með athygli, að vèr segjum ekki, að «Jesús hafi verið Guðs smurði *einungis* sem *maðr* en ekki sem *Guðmaðr*», því vèr útskýrum bls. 33 hvernig K. sè «Guðs smurði sem sonr Davíðs»[1], eða að það sè manndómrínn í honum, er hafi tekið móti andlegri smurningu. Og vèr segjum ekki með þessum orðum, að K. hafi verið «Guðs smurði *einungis* sem *maðr*, en ekki sem *Guðmaðr*», nei, því fer fjarri! Vèr tökum það skýrt og ljóslega fram á mörgum stöðum, að hið guðdómlega eðli og hið mannlega *myndi eina persónu* í K., og þar af leiðir auðsjáanlega, að verkanir þær, er eiginlegar eru annari af þessum náttúrum, verða að heimfærast til persónunnar, eins og hinar andlegu verkanir og hinar líkamlegu eru hjá manni, sem er persóna samsett af sál og líkama, heimfærðar til persónunnar, en eigi eingöngu til sálarinnar eða líkamans, því menn segja ekki t. a. m. sál J. G. hugsar, líkami hans gengr, heldr segja menn J. G. (ɔ: persónan, maðr-

1) Hra J. G. segir ekki eitt einasta orð um þá útskýring á þessum orðum, er vèr höfum á bls. 33. En þó hefir hann hlotið að lesa það, eftir því sem hann segir. Er það hreinskilnin og sannleiksástin, er hafa ráðið því, að hann þegir um þessa útskýring vora?

inn) hugsar, gengr, og eins er um K., því þó það sè að eins manndómrinn í honum, er smurðr er, geta menn, með öllum sanni, sagt, og segja, að K. eða *Guðmaðrinn* (eins og hra J. G. kemst að orði) sè Guðssmurði[1].

Og öldungis hið sama er að segja um hinn staðinn; hra J. G. segir, að *vèr aðskiljim náttúrurnar í K.*, og af þessu dregr hann þá ályktun, að *vèr aðskiljim í K. 2 vitundir og 2 persónur.* En það er þó auðsætt fyrir hvern mann, er vill lesa bækling vorn með athygli, að vèr trúum því fastlega, að í K. sè hið guðdómlega eðli *ódeililega* (óaðskiljanlega) *sameinað* hinu manndómlega, og *myndi eina persónu.* Vèr höfum hvergi haft orðið *aðskilja,* í bæklingi vorum, eins og hra J. G. hefir í blöðum sínum, heldr höfum vèr haft orðið: *aðgreina;* en hvers vegna hann hefir heldr haft *aðskilja* en *aðgreina,* vitum vèr ekki; er það af ásettu ráði, af því að honum hafa fundizt orðin hafa ólíka merking, og honum því fundizt orðið *aðskilja* rèttara? Eða er það af hugsunarleysi, að hann hefir breytt svo um orð, og þótt standa á sama hvort orðið haft væri? En það er oss snertir, er það auðsætt fyrir hvern óhlutdrægan mann, að vèr aðskiljum ekki 2 persónur í K.; og þar sem vèr höfum haft orðið: *aðgreina,* höfum vèr viljað tákna með því, að hið guðdómlega eðli og hið manndómlega í K. sè svo sameinuð, að þau myndi eina

1) það lítr svo út sem hann skilji alls ekki það sem guðfræðingar kalla communio idiomatum í J. K., og þó er hann guðfræðingr frá Khöfn (og að sögn, með bezta vitnisburði!!!). Vèr ráðleggjum honum að lesa katólska guðfræðinga, og viljum fegnir ljá honum þá er vèr höfum. Hann getr einnig lesið um það efni Perrone, sem er í stiftsbókasafninu.

persónu, og þó með því móti, að þau sè ekki blönduð saman, og að hvort um sig haldi sínum eðlilegu eiginlegleikum, sínum eðlilegu verkunum; og af þessu hlýtr aftr að leiða, að verkanir hvorstveggja eðlisins verða að heimfærast til persónunnar; og þó vèr segim (bls. 43), að K. «sem sendiboði Guðs hafi, viðvíkjandi því, er honum var ekki boðið að kunngjöra mönnunum, getað rèttilega og með sanni svarað, að hann þekti ekki dómsdaginn», þá er það ekki svo að skilja, eins og auðsætt er, að vèr segim með því, að *»hin mannlega náttúra K. hafi ekki vitað um dómsdaginn, en að hin guðdómlega náttúra hans hafi einsömul vitað um hann»*, eins og hra J. G. ber oss á brýn, nei, vèr segjum það alls ekki! því hver skynsamr maðr hlýtr þó að skilja það, að K. gat ekki kunngert mönnunum alla alvizku (*omniscientia*) Guðdómsins; og K. talar rètt, er hann mælir svo við Postulana, eins og beinlínis liggr í svari hans: hvernig gætið *þèr* vitað um dómsdaginn, þar sem *englar* sjálfir *á himnum vita það ekki* og jafnvel *ekki sonrinn*, (auðsjáanlega af manndómi sínum)[1]. Og þannig

1) Menn geta sèð, að það er ekkert villandi (eins og hra J. G. segir) í svari K. Og þar sem hra J. G. segir, að orðið „Sonr“ eigi að þýða „Guðs Sonr“, en ekki „Mannsins Sonr“, þá er það alveg ónákvæmt hjá honum, því hann vill, að K. komi ætíð fram sem Guðmaðr, og eftir þessu ætti orðið Sonr að þýða: „Guðs og Mannsins Sonr“. Ekki vitum vèr heldr nákvæmlega, hvað hra J. G. vill tákna, er hann segir, að K., ef „hann hefði gefið slíkt svar, sem vèr segjum, hefði svarað næstum því eins og Jesúíti“. Ef hann vill, eins og það lítr út, tákna með þessum orðum: TVÍRÆTT SVAR, þá biðjum vèr hann að gera svo vel og kynna sèr, hvað Jesúítar eru, áðr en hann lastar þá. — Og sèr í lagi biðjum vèr hann að gera ekki sjálfr það, er hann ber Jesúítum á brýn, þ. e. að við hafa ekki svo mikla tvöfeldni, að rangfæra ekki alveg það, er vèr höfum sagt. Því, eins og hver maðr getr skilið, það á eigi svo vel við

hafa flestallir Kirkjufeðr útskýrt þenna stað, eins og vèr segjum í bæklingi vorum, og hra J. G. hefði gert mikið vel að lesa þá, áðr en hann fór að rita; en hann hefði raunar ekki þurft að gera sèr svo mikið ómak, því hann hefði getað fengið mikla hjálp, hefði hann að eins þekt og skilið það, er Jón Vídalín segir um það efni; en um 1. staðinn segir þessi mikli og venjulega rèttorði mælskumaðr, að K. sè *«eftir manndóminum smurðr með H. Anda»*[1], og um hinn staðinn fer hann þessum orðum: *«Mun nokkur vita af þessum degi* (ɔ: dómsdegi), *nær hann koma skal? Engan veginn! Því að Englar á himnum vita það ekki, og mannsins Sonr, sem hinn sami er Guðs Sonr, hann vissi það ekki á sínum hèrvistardögum, eftir manndóminum»*[2]. Oss þótti það eigi við eiga, að vitna til Jóns Vídalíns á móti hra M. E., en aftr þykir oss eigi óþarft að fræða hra J. G. um það, er Jón Vídalín segir, með því að fróðlegt væri að sjá, hvort hra J. G. muni halda svo fast með M. E., að hann hiki sèr eigi við að svívirða meistara Jón og kalla hann trúarvilling, því að eftir orðum hra J. G. í blöðum hans liggr næst að svo fari, ef vèr katólskir prestar erum trúarvillumenn.

En er það þá satt, að vèr katólskir prestar (og J. Vídalín með oss) sèim trúarvillingar? Hra J. G. fullyrðir það og ber fyrir sig Kirkjuþingið í Chalce-

---

fyrir hra J. G. að brigzla öðrum, og það alveg ástæðulaust, um það, er hann gerir sjálfr; það væri vissulega fróðlegt að sjá, hvernig honum mundi farast að sanna hjá Jesúítum þvílíka tvöfeldni, sem hann sýnir á þessum fáu blöðum sínum.

1) Önnur prèdikun á Jóladaginn. — 2) Prèdikanir út af 7 orðum J. K. á krossinum, Khöfn, 1832, bls. 134. Hver maðr getr sèð, að meistari Jón útskýrir þessa staði öldungis eins og vèr höfum gert, og þvert á móti því, er hra J. G. gerir.

don. En þessi trúarvilla, er deilir náttúrur K. (sem hra J. G. talar um) og Nestorius flutti, var fyrirdæmd á Kirkjuþingi í Efesus, á. 431, þar sem Kirkjuþingið í Chalcedon, á. 451, þvert á móti fyrirdæmdi hina gagnstæðu trúarvillu Eutyches', er blandaði saman báðum náttúrum J. K.[1]; og þetta hið síðara Kirkjuþing (í Chalcedon) tók sem gildandi trúarreglu brèf hins h. páfa, Leos hins mikla, og í þessu brèfi stendr:

„Hver náttúran og veran (í K.) heldr eiginlegleik sínum, og myndar eina persónu ... til þess að einn og hinn sami meðalgangari ... maðrinn J. K. bæði gæti dáið eftir annari náttúrunni og ekki gæti dáið (mori non posset) eftir hinni, því að hvortveggja náttúran heldr eiginlegleik sínum án þess að nokkuð vanti ... því sá sem er sannr Guð, hann er einnig sannr maðr ... Hvortveggja myndin (utraque forma) verkar í sameiningu við hina, það er henni er eiginlegt; Orðið verkar nefnilega það, sem Orðsins er, og holdið framkvæmir það, er holdsins er; Orðið sýnir sig vegsamlegt í kraftaverkum, en holdið hnígr fyrir meinsemdum (injuriis). Og eins og Orðið hverfr eigi frá jafnleik föðurlegs ágætis, þannig yfirgefr holdið eigi eðli kyns vors. K. er Guð samkvæmt þessum orðum: í upphafi var Orðið, og Guð var Orðið, hann er maðr samkvæmt því, að Orðið varð hold og bygði í oss ... Eins og slægð djöfulsins freistar hans sem manns, eins veita Englar honum og þjónustu sem Guði“ ... Sem maðr grætr hann yfir Lasarusi dauðum, sem Guð vekr hann Lasarus upp, „sem maðr hangir hann á trènu, sem Guð lætr hann allar höfuðskepnurnar skelfast ... „Sökum einingar persónunnar í hvorritveggja náttúrunni geta menn sagt, að Sonr mannsins hafi stigið niðr af himni, þótt Sonr Guðs hafi tekið holdgan af þeirri Meyju, er hann er fæddr af, og hins vegar

1) Þetta verðum vèr að segja hra J. G. til fróðleiks, því það lítr út eins og hann (þessi útlærði maðr í guðfræði) hafi annaðhvort aldrei vitað það, eða sè þá búinn að gleyma því. Og þó Kirkjuþingið í Chalc. hafi tekið fram, að náttúrurnar í K. væri „óaðskiljanlega sameinaðar, þá leiðir engan veginn af því, að þetta þing hafi beinlínis fyrirdæmt Nestoríus, eins og liggr næst að skilja hjá hra J. G.

geta menn sagt, að Sonr Guðs hafi verið krossfestr og grafinn, þótt hann hafi þolað þetta ekki í Guðdóminum sjálfum, eftir hverjum hann er eingetinn sameilífr Föðurnum og samrar veru sem hann, heldr í óstyrkleik mannlegrar náttúru"[1]. — —

Af þessum orðum er auðsætt, að Kirkjuþingið í Chalcedon talar öldungis eins og vèr höfum gert, og aðgreinir í K. verkanir Guðdómsins, og verkanir Manndómsins, og hra J. G. hefði því gert mikið vel að lesa þetta brèf h. Leos, áðr en hann fór að rita; vèr vitum það, að hann hefir lesið það síðan, en var það þá ekki orðið heldr seint?

Oss sýnist óþarfi að fara að nefna marga Kirkjufeðr til þess að sanna, að það hafi ekki verið ofhermt af oss, er vèr sögðum (bls. 43), að flestallir Kirkjufeðr hafi útskýrt þessa staði eins og vèr höfum gert. Vèr gætim tilfært marga, er hafa gert það, ekki að eins öldungis eins og vèr, heldr og öldungis með þeim sömu orðum, því þó vèr hafim ekki tekið það fram, þá höfum vèr þó við haft orð þeirra[2]. Vèr biðjum hra J. G. að lesa sèr í lagi, með athygli: S. Athan. Or. III. cont. Arian. n. 41—45; I. Or. it. n. 45—50, og víðar; S. Greg. Naz. Or. XXXVI, n. 15; S. Hilar. de Trin. l. IX, n. 54—75. — S. Hieron. in. Mat., o. s. frv., og ef

1) Epist. XXVIII, ad Flav. episc. — 2) Oss gat ekki dottið í hug, að nokkur maðr, jafnvel ekki M. E., og allrasízt lúterskr guðfræðingr mundi rengja þessi orð vor um það efni, sem er svo ljóst, auðsætt og alkunnugt; en oss hefir skjátlazt í því, og hra J. G. þorir að gera það, og jafnvel án þess að hafa lesið neitt af því, er Kirkjufeðrnir segja um þá staði! eins og alt væri gott, þegar við Katólska er að eiga; já það lítr út eins og menn megi við hafa allar mögulegar vitleysur, er hverjum manni geta dottið í hug, til að svívirða katólska menn! Vèr vonum þó, að hra J. G. muni skilja, að það sè ekki nóg að hafa góðan og fastan vilja að áfella og svívirða þá, til þess að gera það með rèttu.

hra J. G. getr skilið þá, þá mun hann hljóta að kannast við, að þessir Kirkjufeðr *aðgreina*, eins og vèr höfum gert, náttúrurnar í K., en þykjast víssulega ekki *aðskilja* þær í þeirri merkingu, er hann leggr í þetta orð.

En vèr verðum að minnast lítið eitt á h. Ambrosíus[1], af því hra J. G. segir, að þessi h. kirkjufaðir hafi verið «í vandræðum» með að útskýra staðinn hjá h. Mark. XIII, 32. Vèr biðjum hvern þann mann, er skilr latínu, að gera svo vel að lesa þenna stað hjá h. Ambrosíus (og eins hina hjá hinum Kirkjufeðrunum) annaðhvort í þeirri útgáfu Kirkjufeðranna, sem er eign prestaskólans, eða í þeirri, er vèr eigum sjálfir, og þá mun vissulega hver maðr sannfærast um, að þvílíkt sè ekki að finna hjá h. Ambrosíus; hann segist vissulega hafa sèð gömul grísk handrit, þar sem þessi orð: «*nè Sonrinn*», ekki standi, en rètt á eptir útskýrir hann staðinn öldungis eins og vèr höfum gert; og því er það heldr kynlegt hjá hra J. G., er hann talar eins og hann gerir um þenna h. kirkjuföður, og það væri öldungis óskiljanlegt hjá flestöllum öðrum mönnum; en hjá þeim manni, er dæmir rit án þess að lesa þau, geta menn búizt við mörgu! Og hra J. G. mun efalaust hafa farið hèr, eins og honum fór með Kirkjuþingið í Chalcedon og að miklu leyti með bækling vorn, að hann hefir talað um það, sem hann veit ekki nokkurn snefil um[2].

---

1) Hra J. G. finnr að því, að vèr köllum þenna mikla byskup „heilagan“; vèr biðjum hann að segja oss, hvers vegna vèr megum það ekki með allri Krist. Kirkju. Eða er í þessu nokkur synd á móti Guði, á móti Biblíunni eða skynseminni? Svari hann nú! — 2) En til þess að geta dregið af þessum stað hjá h. Ambrosíus þá ályktun, að „honum hafi farizt eins og Lúter“ o. s. frv., þá þarf

að Prótestantar (og sèr í lagi hra byskup P. Pètrsson og hra *Lector* S. Melsteð) komi fram með margar mótsagnir, annaðhvort við sjálfa sig, eða við þann lærdóm, er þeir *ætti* að kenna; en hver er sá óhlutdrægr og skynsamr maðr, er geti *kent oss* um þessar mótsagnir? Hra J. G. hefði átt að sýna annaðhvort, að vèr hafim rangfært orð þeirra, eða þá að minsta kosti að vèr hafim ekki skilið þá; hvers vegna hefir hann ekki gert það? Auðsjáanlega af því, að hann hefir sjálfr sèð, að hann gæti það ekki.

Vèr vonum, að menn geti sèð af þessum fáu línum vorum, að hra J. G. hefir tekið fáein orð úr því sambandi, er þau voru í, í bæklingi vorum, að hann hefir rangsnúið þeim með óheyrilegri ósvífni, afbakað þau alveg, og skapað sèr, með því móti, þá auðveldu gleði, að svívirða oss, og þar að auk, að hann hefir talað um ritling vorn, um Kirkjuþingið í Chalcedon, um hinn h. Ambrosíus o. s. frv., án þess að hafa kynt sèr til hlítar það, er hann ritar um. En hvernig geta menn átt tal við þann mann, er þannig fer að ráði sínu? Það er alveg ómögulegt, hvort sem hann gerir það af ásettu ráði, eða hann er svo gagntekinn af hindrvitnum, og þess vegna eigi fær um, að vita nokkurn snefil um það, er hann talar um.

En hvað sem því líðr, hlýtr hra J. G. að gera mönnum grein fyrir kenningu sinni. Og hann verðr því að útskýra, hvernig hann skilji það, að K. sè «*Guðssmurði sem Guðmaðr*», því það lítr út öldungis eins og hann skilji það alveg öðruvísi en allir kristnir menn hafa gert hingað til; hann verðr í öðru lagi að útskýra, hvað hann vill tákna með þessum orðum: »*Jesús ber hèr,* ɔ: Mark. XIII, 32, *beinlínis á móti, að hann*

*viti um, nær dómsdagr muni að höndum bera, og Kat. prestarnir þykjast að líkindum ekki geta varið guðdóm K., nema með því að láta Jesúm í þessum orðum einungis meina sína manndómlegu náttúru»*; ef Jesús hefir *meint ekki einungis sína manndómlegu náttúru,* þá hefir hann *meint meira,* þá hefir hann *meint sína guðdómlegu náttúru.* En hvernig stendr á því? Hvað er sú guðdómleg náttúra, er ekki hefði átt að vita um, nær dómsdagr mundi koma? Hra J. G. verðr að gera svo vel að útskýra það fyrir mönnum. Og enn fremr: hvað er sá Guðdómr, sú *alsæla Guðs,* er menn geta ekki *«aðskilið frá þjáningum og kvölum»,* eftir því sem hra J. G. segir? Þetta verðr hann einnig að útskýra[1]. En oss þykir ekki óþarfi að

1) það lítr því út öldungis eins og hra J. G. vilji halda með hra M. E., því sá guðdómr, er ekki veit um dómsdaginn, er enginn guðdómr; vill þá hra J. G. sanna, að hann sè sá guðfræðingr, er vèr tölum um bls. 116, neðanm.? hann má það vissulega vor vegna. En hitt gegnir furðu, að yfirmenn hans, og sèr í lagi, hra byskupinn, skuli hafa leyft honum að brjóta þannig niðr þenna höfuðlærdóm Kristindómsins, er hann einmitt ætti að kenna; eða hvernig stendr á því, að þetta gengr átölulaust? Hvað eiga menn að hugsa um það, að kennara við prestaskólann sè leyft að afbaka þannig Kristindóminn? — Og það sem er kátlegast í þessu, er það, að hra J. G., er álítr sig ekki tilknúðan til að lesa þau rit, er hann talar um, hefir álitið sig tilknúðan til að selja þessi blöð sín á Skírdag (hvers vegna?) eftir það er hann, að sögn, hafði fengið leyfi til þess (!!!). En ekki er þess getið, hvort hann hafi tilknúðr eða ótilknúðr gefið fátækum hlut, eins og heimtað er af hverjum manni (hvað fátækr sem hann er), er verzlar eða rær o. s. frv. þenna dag. Vèr óskum honum, að þessir 20 eða 30 ríkisdalir, er hann mun græða á þessum 6 blaðsíðum, ef hann kemst til þess að selja þær, verði eigi of þungir á samvizku hans; því Guð veit, í hverju hróksvaldi hann hefir orðið að skáka til að geta ritað þær!

ráðleggja honum, að kynna sèr vel málefnið, áðr en hann fer að rita; því það er það, sem einkum sýnist að hann hafi vantað, er hann ritaði þessi fáu blöð, er vèr tölum um, því það er auðsætt, að hann hefir rangsnúið mörgu, og að alt það, er hann segir til að finna að hjá oss, er ósatt, og vèr viljum trúa því, að hann hafi gert það fremr af ókunnugleik efnisins, heldr en af ásetningi. Að endingu viljum vèr biðja hann að minnast þessara orða Horatius', er honum munu vera kunnug, sem kennara við latínuskólann: »Þèr, sem farið að semja rit, takið yðr það umtalsefni, er eigi er yðr of vaxið, og hugsið um það vel og vandlega, hvað yðr er of vaxið, og hvað yðar meðfæri er. Þeim manni mun eigi orðfátt verða, og sá mun eigi rita óljóst eðr óskipulega, er velr sèr það efni, er hann er fær til að rita um[1].

Reykjavík, 20. dag Júnímánaðar 1867.

---

1) Sumite materiam vestris, qui scribitis, æquam
Viribus, et versate diu quid ferre recusent,
Quid valeant humeri. Cui lecta potenter erit res,
Nec facundia deseret unc, hnec lucidus ordo. Ars poet.

